# Jóns Péturssonar

Handlæknis Nordlendínga frá 1775 til 1801

# Lækninga-Bók

## fyrir almúga.

Yfirlesin, aukin og endurbætt

af

Landphysikus Jóni Þorsteinssyni

og

Handlækni Sveini Pálssyni.

Utgéfin

med leyfi ens Konúngliga Heilbrigdis-Ráds

af

Þorsteini Jónssyni
Stud. Theol.

Kaupmannahöfn.
Prentud hjá Bókþryckjara S. L. Møller,
á kostnad Utgéfarans.

1834.

## Heidrudu landsmenn!

Kunnugt er þad flestum løndum mínum, ad vér eigum, enn sem komid er, einga áreidanliga lækíngabók fyrir almenníng, støndum því lángt til baka, med þessháttar rit, frá ødrum erlendis, er kosta kapps um ad rita um læknis-frædina, til leidbeiníngar þeim, er ecki fá í hasti æfdan læknir vid hvørju meini, er til kann falla í því mannliga lífi. Ecki þecki eg neinskonar ritgjørdir útkomnar í því efni á vora túngu, nema strjálíng þann, er finnst í Ritum ens konúngliga Íslendska Lærd. lista Félags 4da, 11ta, 12ta, 13da og 15da Bindi, frá landlækni Jóni Sveinssyni, og handlæknirum Sveini Pálssyni og Jóni Péturssyni, hvørjar ritgjørdir eru ypparliga samdar, hvør fyrir

sig, og óskandi ad safnadar væru í eitt. Auk þessa hefir hinn sídstnefndi látid prenta á Hólum í Hjaltadal 1782, leturgjørd sína um Iktsýki edur lidaveiki, og teingt þarvid kapítula, innihaldi af lækninga-bók þeirri, er hann hafdi skrásett, frá því er hann kom hingad til lands 1772, eptir 9 ára dvøl í Kaupmannahøfn, til 1775, þá hann vard verulegur handlæknir Nordlendínga, eptir Magnús Gudmundsson. Bók þessa, er hann 1774, dedicerađi þáverandi Stiptamtmanni Thodal, endurbætti hann eptir hendinni, eins og lækninga tilraunir hans gáfu honum efni til, uns hann deydi í Reykholti í Borgarfirdi þann 9da Octob. 1801, á ferdareisu til lækníngar þáverandi Júſtitsráds, sídar Etats- og Conferenceráds Dr. Jur. M. Stephensens, sem lét flytja lík hans ad Leirá og þar sómasamliga jardsetja á sinn kostnad. Søkum þess ad einginn gaf sig fram, er hvetti til prentunar nefndrar bókar, lá hún í dái, uns Bókþrykkjari G. Schagfjørd og Apothekarasveinn Haldór Arnason ødludust, sá fyrri afskrift bókarinnar, en hinn adal-ritid, sem afskrifadi þad 5 eda 6 sinnum fyrir vini sína. Arid

1828 kom þessum saman um að útgéfa bók þessa á prent, og til að gjøra hana sem fullkomnasta, feingu Landlæknir Thorsteinsen til að lesa hana ígégnum, og lagfæra hvað áfátt vera kynni, en embættis annir hans leyfðu honum ecki tóm til, að gjøra það svo vel, sem hann vildi. Þessa vegna sendu þeir Schagfjørd og Haldór Arnason bókina, þeim æfða og lærða Handlækni S. Pálssyni, til allrar umbótar þeirrar, er honum væri møgulig, hvað þessi trúliga gjørt hefir, er sést af skíríngargreinum hans í bók þessari, sem merktar eru með P. en Landlæknisins með Th.

Boðslistar vóru útsendir til allra presta í landinu, en komu fátækir tilbaka, og nockrir aldrei. Auk þessa kom þá biltíng í Prentverks stjórnina hér: Conferenceráð Stephensen frásagði sér hana framvegis, uppsagði Schagfjørd þjónustu við það verk og veik honum á burt, en Haldór misti sjón sína og yfirgaf Apóthekið. Imillitíð sendu þeir bónarbref sitt til ens konúngliga Heilbrigðis-Ráðs í Kaupmannahøfn, leiðbeindu með vitnisburði Landlæknis um bókarinnar nytsemi fyrir almenníng, um leyfi til

að láta hana á prent útgánga, hvar uppá hátt-nefnt Ráð svaradi Landlækni, er hann sídan gaf vidkomendum til kynna, þannig:

„Under 5te Maii d. A. har det Kongelige Sundheds-Collegium tilskrevet mig følgende:

„Bogtrykker Gudmund Schagfjord og „Apothekersvend Haldor Arnesen paa Næs, „have i en, af Hr. Landphysicus Thorstein-„sens Erklæring af 2den Marts d. A. ledsaget, „Skrivelse af 28de Febr. næst forhen, begjæ-„ret Sundheds-Collegiets Samtykke til, i „Trykken at udgive i det islandske Sprog, „afdøde Læge John Petersens Lægebog for „Almuen, hvilken de i Manuscript besidde, „saaledes som den nu af Hr. Landphysicus „og Chirurg Paulsen er rettet eller forandret, „og have de derhos tilstillet Collegiet en Co-„pie af de Recepter paa Apotheker Varer, „der nu forekomme i Bogen."

„I denne Anledning skulde vi hermed „tilmælde Hr. Landphysicus, til videre beha-„gelige Bekjendtgjørelse for fornævnte Schag-„fjord og Arnesen: at, da Sundheds-Colle-

„giet ikke kjender ommeldte Lægebog, kan det „ikke bestemt yttre sig om dens Værd; men „ligesom Man ved Eftersyn af de Collegiet i „Copie sendte Recepter, intet har fundet imod „disse in specie at erindre, saaledes forme„ner Man og, at der ei kan være noget imod „at Bogen i det hele udgives i Trykken, ef„tersom Hr. Landphysicus, ved at gjennem„gaae den, har fundet den passende og nyttig."

„Hvilken Sundheds = Collegiets Skrivelse hermed gives Dem til behagelig Efterretning og Afbenyttelse.

Næs, den 26de Junii 1829.

J. Thorsteinsen."

Þar eg hefi þess nú var ordid, ad sídan ofannefnd bodsbréf útkomu, ennþótt svo fáir teiknudu sig, sem kaupendur, á því tímabili, hafa þó margir frétt eptir, hvørt bók þessi ecki mundi útkoma; margir hafa einnig í ljósi látid laungun sína til ad eignast hana; svo hefi eg, ecki í ábaka von, því útgáfa bókarinnar kostar mig ærna peninga, heldur framar af rækt og

elsku til landa minna, keypt af Schagfjørd og H. Arnasyni, forlags-rétt þeirra til ad útgéfa bókina á minn eginn kostnad, og þarvid hleypt mér í tøluverdar skuldir. En — vonin, heidrudu landar! gledur mig, ad þér bædi hafid þau not af bók þessari, sem tilætlud eru, og eg fái líka kostnad minn endurgoldinn.

Bessastødum þann 20ta Agústi 1833.

Þorsteinn Jónsson.

# I. Kapítuli.

## Um þá algengustu Barna Sjúkdóma á Íslandi.

### §. 1.

### Börn líflítil.

Undireins og barn er fædt í heiminn, skal ljósmódirin vandlega adgæta, hvert þad er líflítid*), er þá venja sumra, ad strjúka blódid, sem er í naflastrenginum, til barnsins; en sú adferd er ecki einúngis fávísleg, heldur gétur ordid skadleg; því er rád í þessu tilfelli, heldur ad skilja á milli, og láta blæda úr naflastrenginum rúmlega eina matskeid**), hreinsa vel munninn og vitin frá medfæddu slími, þó med þeirri varhyggd, sem §. 58

*) Stuttar, en ágætar reglur, um medferd á líflitlum, edur andvana fæddum börnum, eru úr Donsku snúnar af Handlækni O. Hjaltalín, þann tíd hann var settur Landphysicus, og á prent útgéfnar á almennann kostnad 1820, í þeim tilgángi þær væru í allra ljósmædra hondum, géfins útdelldar. P.

**) Einkum ridur á þessu, sé barnid uppþrútid, bláraudt á hörund, edur þreyngt hafi um of í fædíngunni ad höfdi, hálsi eda brjósti þess; en í öllu ödru falli er betra, ad láta stundarkorn óskilid á milli, og barnsins líkama sem lengst hafa hita af módirinni, medan verid er ad hreinsa vit þess, nudda líkamann, og svo frv. Nockud hér um má lesa í enu margfróda riti Klaustur-póstinum fyrir árid 1825, bls. 111. P.

fyrisegir; skvetta á börnin litlu ediki; þvo höfudid med víntári; setja þeim stólpípu*) af volgri mysu, sem litlu af handsápu sé blöndud; blása þeim í munninn med gætni; sjúga brjóst þeirra og gnúa líkamann og iljarnar, hógliga; skélla med flatri hendi á enda barnsins einustinni eda tvisvar, svo þad hristist vid. Náqvæmlega skal adgæta höfudbeinin og lagfæra, sem skjótast, hafi þau úr lagi gengid í fædíngunni, (sjá framar um þetta §. 3 og Skíríngargreinina þar).

## §. 2.

### Géti Börn ecki nærst.

Þegar börn taka enga næríngu til sín og ljúka ecki upp munninum, kallast þau klumsa. Ur þessu gétur vidborid ad börn deyi, af því engrar hjálpar er leitad; kémur þetta optast af því, ad haptid undir túngunni er offstrídt, svo hún gétur ecki haft sína náttúrlegu hræríngu. Í þessu tilfelli á ljósmódirin ad klippa eda skéra þad, heldur tvisvar enn einu sinni. Stundum er þetta ecki orsökin, heldur situr túngan, eins og límd væri, í efra gómi barnsins, skal þá ljósmódir opna munninn med skeidarskapti, og losa túnguna frá góminum, kitla háls barnsins innan med fjödur, vættri í bómolíu, hrálýsi eda bræddu smjöri, svo barnid fái klýju og slímid losist úr hálsinum, skal þá dreypa á þad þunnri, og jafnvel vatnsblandadri volgri mysu, en öldúngis ecki mjólk**), sem í þvílíkum tilfellum er skadleg.

*) Klyster- eda Stól-pípu tilbúníng þeckja nú velflestir hér á landi; þær eru betri nockud dygrar og med vídu opi, og allgódar úr blýi edur og tini, (sjá §. 298). P.

**) Um mjólkurinnar og einkanlegast mysunnar lækníngа not og ýmislegann tilbúníng, er verdt ad lesa

## §. 3.

Undir eins og ljósmódir fær tóm til, ber henni ad ransaka alla barnsins limu og vita ad lagfæra, hafi nockud aflaga gengid í fædíngunni, hvert heldur vera kynni hendur, fætur, høfudbein, eda hvert annar líkamans partur, sem lagfæra má *).

## §. 4.

### Um Laugun Barna.

Eptir þetta skal lauga barnid, eda þvo af þeim saurindi þau, sem medfædd eru, í volgu vatni, hvert einkar gott væri ad blanda litlu víntári, helzt þegar børn eru líflítil; þannig skal þau lauga 3 eda 4 daga samfleytt, en sídan ecki. Satt er þad, ad medfæddur óhreinleiki er á sumum børnum fastari enn ødrum, ætti því ljósmædur ætíd ad hafa vid hønd lítid af Kamille-blómstrum, sem fást á læknisbúdum, edur Baldursbrár brumi — sem í flestum útvortis og jafnvel innvortis tilfellum, má brúka í stad Kamille-blómstra — sem sodin séu í laugarvatninu, skal þveginn þar útí lítill moli af handsápu, eptir ad urta-brumid er frásíad. Med þessu hreinsast þau mestu og føstustu saurindi øldúngis af líkamanum; þad styrkir líka hinn veika kropp og færir þá nytsemi med sér, sem lángt

Landph. J. Sveinssonar ágæta Rit, um ódýrustu og einføldustu læknis-medøl, í Isl. Lærd. lista Fél. Rita 15 Bindi, bls. 154. P.

*) Verdi hún nockurs vør, sem hún ecki þorir ad lágfæra med sitt eindæmi og uppá hvern helzt hátt barnid vera kann van- eda af-skapad, ætti hún ad sjá til læknir væri kalladur sem fyrst; gjøra þó sem minnst ord þar á vid módurina, einkum sé hún lítilsigld. P.

yfirgengur fárra skildínga kostnad. Þeim, sem ecki hafa urtablómstrin, verdur sápan einúngis ad nægja.

## §. 5.

Miklu meira vardar um þvott enna mállausu smælíngja, heldur enn fólk almennt ímindar sér; sú ómerkjanlega útdampan (hørunds dampinn, Transpiratio insensibilis) af hverri orsakast gétur heilsa og vanheilsa og jafnvel líf og daudi margra, ef ecki allra, verdur ad því leiti regluleg um lífsstundir vorar, sem betur er unnid ad þessari líkamans hreinsun únglínganna. Þar, sem hørundid ødverdlega styrkist á børnunum, verdur sú ómerkjanlega útdampan regluleg; á þad því ad vera vor ástundan á allann møgulegann hátt, ad styrkja þann litla líkama bædi inn- og út-vortis. Volgar lauganir á børnum eru hér á landi allt oflengi brukadar, þar sveinbørnin eru lauguð 7 laugardaga og stúlkubørnin 9 eda lengur*); eg vil ecki tala um, á hverju þvílíkt er grundad, hitt er nóg ad segja: ad þad sé skadlegt, því þad veikir meir hørundid enn styrkir, og gjørir þann náttúrlega dampa óreglulegann.

## §. 6.

Eptir ad barnid er þannig laugad, sem rádid er til §. 4, er engrar laugunar framar þørf, en úr því er þad nóg, ad módirin eda barnfóstran taki barnid 2ann, 3ja eda 4da hvern dag í kjøltu sína, og leysi, en hafi vid hønd sér lítinn bolla eda leirpott vel hreinann, med vatni, úr hverju sé á vetrum tekinn ad eins kaldi kulurinn, væti þarí svamp eda hreina línþvøgu, og þvoi

*) Þessi laugunar-máti er nú mjøg farinn ad venjast af, sem vel er! P.

barnid þar med. Byrja skal þvott þenna á andlitinu, eyrunum, utanverdu høfdinu a) og hálsinum, en sídan á hinum pørtum líkamans. Engin þørf er ad velgja þetta vatn á sumrum, en á vetrum væri gott ad úr því væri kaldi kulurinn. Nockrir vilja einúngis kaldt vatn til þessarar brúkunar, og hefir þad nú um nockur ár med gódum notum brúkad verid*); þad fær einnig vidhaldid útdømpuninni, afvendir mørgum qvillum, innvortis stýflum og marghátttudum sjúkdómum á þorundinu.

a) Framan og ofantil á høfdinu er ferhyrndur, beinlaus blettur, hvern allar ljósmædur ættu ad þeckja, þeim sama ega menn ætíd lengi vel ad hlífa, sem best verdur, þegar børnin eru þvegin.

## §. 7.

### Um Reyfana.

Børn egu aldrei ad reyfast mjøg heitum reyfum, sem hér — því midur! — er brúkad; heitir ullar-flókar, í hverjum børnin sveipud eru, ættu ad leggjast af**), því sodhiti sá, sem þeir abla, gjørir børnin dádlaus, bleikleit, þrútin og hneigd til ýmissra veikinda, ásamt stýflu í þeim smáu líkams pørtum.

## §. 8.

Allar snøgglegar umbreytíngar á hita og kulda, eru

*) Þegar þad ecki strax eptir laugina er brúkad sárkaldt, heldur eptir hendinni kaldara, og ecki verid lengi ad strjúka med því í einu, en þurkad strax med mjúkum klúti, er øllu óhætt. P.

**) Reyfanir barna eru nú, sem betur fer, farnir ad afleggjast, nema þegar flytja verdur bæa á milli. Sama er um hitt í nærstu grein nefnda; líka vita flestar barnfóstrur ad velgja barnaskirtur inná sér. Sídur vyrdist umgétid ad láta þau drecka sárkaldt, sem ætíd er mjøg varhygdarverdt. P.

børnum mjøg hástalegar, og géta af því fallid, fyrr enn nockurn varir, í daudlega sjúkdóma; en þad er hørmulegt ad vita hversu fólk er athugalaust í þvílíku, þegar þad í køldum badstofum, án þess ad láta aptur nockrar dyr, í sterkasta kulda, tekur úngbørn úr badheitum reyfum, og laugar, sem vandi er til, en eptir laugina sveypar þad í trafríu og vegur á reidslu í kuldanum, med mestu athygli, hyrdandi meira um heimsku þá, enn barnsins dýrmæta líf.

## §. 9.

### Um Barna Saurbikid eda Bikslím (Meconium).

Þad er flestum kunnugt, þegar børnin fædast í heiminn, ad þarmar þeirra eru fullir af svartleitum saurindum. Saurindi þessi egu ad rétta lagi ad hreinsast burt úr inniblum barnanna, ádur enn þau fá ad smacka nockra tegund mjólkur, ad frátekinni módurmjólkinni, annars skémma þau mjólkina, og verdur hverttveggja ad megnri ólifjun, sem orsakar enar sárustu innantøkur, óróa, harda teppun til baksins, og sídan á eptir daudlegt búkhlaup med flogum a), af hverjum qvølum og þjáníngum, samt innískl nna skémmdum líkaminn verdur blár eptir daudann, fyrir nedan bríngsmalirnar og vídar. Þessi høfudregla, á hverri svo mikid rídur, er í øllum løndum, þar tilveit, betur adgætt enn hér á landi, hvar yfir maklega má klaga; því litlu eptir fædínguna er børnum géfin annadhvert kúamjólk edur þau eru løgd á brjóst*), þar þad er vandi, hversu, sem hér um

*) Sé hreina mjólk komin í módur-brjóstin, er varlegra ad bornin hreinsist vel, ádur þau séu løgd á brjóst, en alkunnugt er nú á døgum, ad broddur mædranna er besta lækníng afqvæmum þeirra í þessu efni, þegar þær ann-

ástadt er, verdur svo þessi fyrsta lífs-næríng margra barna hér, einhver hin fyrsta og helzta orsök til þeirra vidskilnadar úr þessum heimi.

a) Flog kalla eg hér Sinar-drætti (insultus epileptici) þá børnin teygjast sundur og saman, med en-um mestu harmqvælum.

## §. 10.

Eg sagdi §. 9, ad børnunum ætti engin mjólk ad géfast, fyrr enn ugglaust væri ad þarmar þeirra væru vel hreinsadir af øllum medfæddum saurindum. Sú regla verdur aldrei af mér eda ødrum of opt ámálgud eda qvennfólki voru innrætt. Pad er ecki nóg, þó ad eins sjáist koma nockud lítid frá nýfæddu barni af þess-háttar saurindum, heldur má þad vera nockud tøluverdt. Adrar þjódir brúka hér til hver sitt medal, hvad eg ecki uppteikna vil, því vér Íslendíngar gétum látid oss nægja med bláysta mysu úr samfenginni kúamjólk; hún gjørir ad minni reynd allt þad, er annara, med kunnst tilbúnu dryckir, verka, þegar hún ad eins er ecki látin súrna. Mjólkin sé hleypt med lifjum á vetrum, en á sumrum má brúka lifjagras; mysan sé ætíd géfin børnum heldur volg enn køld *), þar med hreinsast magi þeirra og þarmar einkar vel, og í þessum dryck er hin hollasta næríng fyrir ómálga børn þær fyrstu vikur, næst módurmjólkinni. Þótt barnid med engu móti renni mjólk nidur, þá hefi eg bædi séd og vitad þau þiggja þenna þeim svo holla dryck; hin líflitlu endur-lífgast þarvid, og óska vildi eg, ad Prestar vorir

ars eru nockurnveginn heilbrygdar ad ødru leiti. Sam-anber Ísl. Lærd. lista Fél. R. 15 B. bls. 133. P.

*) Mysan má aldrei vera hid minnsta súr, hvert heldur úngbørn eda sjúklíngar eiga í hlut. P.

vildu sjá eptir, ad þessari reglu væri fylgt af øllum barna- og ljós-mædrum. Kynni svo tilbera, ad eitthvert barn ecki nógsamlega hér af hreinsadist, hvad þó mun sjaldnar reynast, ætti sérhver ljósmódir ad hafa talsverdt af Púdursykri og Rhabarbara Sýrópi undir høndum, edur og Hvítasykri, sem nýfæddum børnum er nærsta hollt, hvar af teknar séu 1 eda 2 matskeidar og blandad í mysuna, þar til nægilega hefir verkad*). Eg veit þær konur hér á landi, sem plaga ad géfa børnum rjóma, þá þau annadhvert ecki hafa náttúrlegar hægdir til baksins, edur þau fyrstu saurindi ecki hafa burthreinsast, og gjørir hann víst nockud gott um stund, en er eptirá skadlegur (sjá §. 9) í því, ad þó hann lini þenna kvilla, þá gétur hann ordid orsök til annara, og nær því má segja hid sama um brædt smjør.

## §. 11.

### Um Módurmjólkina.

Módurmjólkin er, án efa, nýfæddra barna hid hollasta og náttúrlegasta næríngar-medal, þegar módirin annars er ad øllu leiti heilbrygd; hún hreinsar optlega þau medfæddu saurindi svo vel, ad annara medala þarf sjaldan vid; væri því óskandi ad allar heilbrygdar barnamædur, sem annars hafa gód næríngar medøl,

*) „Hvítt sykur mátulega brukad" — segir Hufeland — „uppleysir magaslím, en eykur ecki, og fyrirbyggir fjølda „nyfæddra barna sjúkleika; hálfpeli af vatni med 2ur „lódum af sykri, er sá hollasti dryckur fyrir únga og „gamla, sjúka og heilbrygda." Barnapúlverid, Nr. 1 eda 2 í Recepta listanum aptan vid bókina, er nú almennt brúkad í þessu tilfelli, 1 theeskeid hrærd út í volgu vatni med sykri. P.

leggdu børn sín á brjóst, eins og í ødrum løndum er venja vídast hvar.

§. 12.

Lángt er frá því, ad eg rádi nockurri módir, sem sjálf ecki lifir af sæmilega gódum og hollum mati, ellegar er ecki ad øllu leiti heilbrygd, ad leggja børn sín á brjóst; því reynslan hefir svo opt sýndt, hvad af því leidir, þó børnin annars hafi lifad, og menn kunna enn í dag, einkum í sjóplátsum, ad sjá afleidíngarnar, ennþótt sumir meti þær ad litlu, er bædi landi voru og líka enna fátæku ásigkomulagi í því, eru ókunnugir. Þad er engin nýlunda, ad heyra og sjá úngbørn deya í sjóplátsum hér og máské vídar, af mjólk mædra sinna; þau detta nidur, fá flog med stórhljódum, teygjast øll sundur og saman, kroppur þeirra verdur blár eptir daudann, á øllum hinum sømu stødum, sem barnanna ørendu líkamir, §. 9, og þá magi þeirra er opnadur, finnst hann upptrodinn af allt of kostugri mjólk, samanhlaupinni í harda hnikla, sem apturbyrgja gángvegi gallsins, svo þad kémst ecki inn í magann, til ad gjøra þar sína náttúrlegu verkun.

§. 13.

Um Næringuna.

Þad er alkunnugt, ad þau flestu úngbørn hér á landi eru nærd med kúamjólk øndverdlega æfi sinnar, hvad viss madur, er þar um nýlega ritad hefir, ecki einúngis fordæmir, heldur leitast vid ad rekja þadan alla barna sjúkdóma og þann mikla barna-dauda hér á landi, med sérlega eptirtektaverdum ordum; en dagleg reynsla vyrdist honum ecki svo medmælt. Ecki er þad víst ad mjólk-

in sjálf sé børnum skadleg, heldur medferd hennar, um hverja eg hér ecki tala vil, heldur géfa fáein heilrædi, er náqvæmlega adgætast egu, bædi í tilliti til barnanna og líka mjólkurinnar.

## §. 14.

Børnum á aldrei ad géfast mjólk, heldur volg mysa, fyrr enn þarmar þeirra eru vel hreinir ordnir, §§. 9—10. Allra hollast er, ad næra þau hina fyrstu viku og jafnvel hálfann mánud á mysu einsamalli; ad þeim tíma lidnum, skyldi blanda mysuna med samfenginni kúamjólk og auka hana jafnan, en mínka mysuna, þar til þeim væri um sídir géfin tóm mjólk. Þessi adferd mundi vel géfast, væri hún almennt brúkud; en fólk er ofurtregt til ad láta af vana sínum.

## §. 15.

Oll kostug mjólk er børnum skadleg, §. 12, og því skadlegri, sem hún er þeim fyrr géfin. Ad mjólka þau sídustu høgl úr kúm og géfa þau børnum, kann ecki annad, eptir náttúrlegum hætti, en verda þeim uppspretta til marghátttadra skjædra sjúkdóma, ef ecki bráds bana, einkum þá barnid í øndverdu er líflítid. Súr mjólk er hin mesta óhollusta fyrir børn og má þeim aldrei géfast; varast ætti og líka, af géfa børnum kalda mjólk; þarámóti vyrdist sem flóud, eda og nýbæru mjólk egi betur vid þeirra náttúru, þar hún er brúkud, heldur enn óflóud eda fornbæru mjólk *); því þynnri og kost=

*) Reynslan sýnir optar, ad flóud mjólk ollir børnum fremur hardlífis, enn óflóud, og hollust er hún spenavolg, úngum sem gomlum, nema þeir einhvers sérlegs vegna ecki þoli hana, sem dæmi géfast til. P.

minni mjólkin er, því fyrri má hún börnunum gefast. Askurinn, sem barnsmjólkin er í látin, sé vel þveginn á hverju máli, og þess á milli bakadur í heitu vatni, svo aldrei nái ad súrna.

## §. 16.

Þeir, sem ecki vilja fallast á mín rád í því, ad gefa börnunum mysu lengur enn þángad til inníbli þeirra eru vel hreinsud, skulu vita: ad sú góda mjólk er þeir svo mjøg elska, verdur opt súr í barnana veika maga, ad litlum tíma lidnum, og þegar hún er þad ordin, fá þau uppsølu, sárar innantøkur*) flog (teygjast sundur og saman), búkhlaup og ad sídustu daudann sjálfann, nema menn, undireins og þeir verda einhverra hér taldra tilfella varir, strax, á medan ennþá er lífsvon, gefi børnunum mysu, af hverri þau ad nýu hreinsast kunni, ásamt Rhabarbara sýrópinu §. 10, og frelsist barnid af þessu, er líklegt audveldara verdi ad sannfæra almúga um mysunnar nytsemi. Nockra stund eptirá — sé súrinn mjøg mikill í maga barnsins, er optast merkist af vindi þeim, sem upp frá brjóstinu kémur, hverred þá lyktar sérlega súrt og allteins saurindin — er opt þørf á ad gefa einusinni, 2svar eda jafnvel 3svar á dag nockud af púlverinu No. 2 í Receptalistanum, sem eydir súrnum ágjæta vel.

## §. 17.

Børn eru margopt eptir fædínguna þjád af vindi og magaverk, einkum þegar þau drecka kostgóda mjólk, hverja maginn ecki fær melt á hinum fyrstu mánudum,

*) Hér meinast Qveisa þar Búkhlaup kémur sídar. Sjá Skíríngargr. vid §. 20.

á medan hann er sem veikastur. Af þessu verda børn hardla óspok, núa sig allavega og kreppa fætur ad qvidi. Í þessu tilfelli er gott ad setja stólpípu, sem talad er um §. 1, og leggja prjónasaum*) yfir lífid, undinn upp úr volgu Vallhumals seydi.

## §. 18.

Það er mjøg óvarlegt, ad géfa børnum, strax eptir fædínguna, of opt ad drecka; það þarf ad athuga fleira enn einúngis ad fylla maga þeirra; mjólkin verdur ad hafa tíma til ad meltast í maganum, annars ackast hún þar saman í harda hnikla, eins og sagt er §. 9, og tilbyrgir gallsins gángvegu, §. 12; en børnin fá hin sømu tilfelli, sem segir §. 16. Vid þessu er eckért betra rád, enn géfa børnunum eitthvad það, sem verkar uppsølu, svo sem er: volgt vatn med litlu bræddu smjøri, edur, sem ennþá er audveldara, ad kitla querkar þeirra med fjødur, vættri í bómolíu. Vid uppsøluna sjást þá koma upp stór stycki af samanhlaupinni mjólk úr maga þessara vesælínga, svo undrum gégnir. Það er líka ad øllu leiti óhætt ad taka 2 grøn af Uppsølu vínsteini**), uppleysa þau í 4um mat-

*) Trúi menn ecki þessum gømlu undirlækna reglum, um ull, prjónasaum, veipu og fl., má þó trúa líflækni og Hofrádi Hufeland um það efni. Samanber Klpost. 1825, bls. 111, einkum hvad viðvíkur svo kalladri Eptirburdar-sótt mædranna. P.

**) Nú á døgum leyfist Apóthekurum ecki ad láta á burt Uppsølu Vínstein (Tart. emeticus eda Stibiatus), né ønnur þvílík sterk medøl, nema med ordulegs Læknis rádi og leyfi. Á medal þeirra, sem í bók þessari nefnast, eru: Uppsølu Vínsteinn, Uppsølu-rót, Saffran, Qvikasilfur, og það þaraf er tilbúið, Antimonium, Aloë, Gummi gutta edur Gambogia,

skeidum af volgu vatni eda mysu, og géfa barninu þar af nockrar theeskeidar í senn, uns þad selur vel upp; en á milli uppsölu hvidanna sé dreypt á þad volgri mysu; þar eptir má brúka púlverid §. 16 nockrum sinnum, en fordast ad géfa barninu kostmikla mjólk, af hverri sjúkdómurinn mundi koma fram á ný. Engin módir fær géfid augljósara merki hinnar miklu elsku er hún hefir á áverti qvidar síns, enn med því ad vera einkar náqvæm í því, sem hér ad lýtur og framanskrifad er, hinum hafa menn minni orsök ad hrósa, er engu þvílíku skeyta, þótt þær annars viti betur.

## §. 19.

Ospekt, brennandi hita og fleiri þesskyns qvilla á børnum, sem almúgi, segir sumstadar komi af Adsókn, eru eckért annad enn verkanir af því, er nú hefi eg talid í 3ur nærstu §§, og læknast øldúngis uppá sama hátt og þar er sagt.

## §. 20.

Mér dettur nú í huga þad almenna svar, sem fólk er vant ad géfa, þá eptir er grennslast ásigkomulagi þeirra úngu barna: fáir vita ómála mein! þar í er ad sønnu nockud satt, en viti menn! Gud hefir géfid þeim ómálga børnum þeirra egid mál, med hverju þau qvarta um naud sína. Þetta þeirra mál ega bædi mædur og ljósmædur ad leggja síg eptir ad skilja, og ber þeim því ad gaumgæfa, hvert barnid hefir velgju, uppkøst, edur hvert mjólkin sem þad uppkastar, er yst eda ecki, hvert

---

Opium og hvad þaraf er tilbúid, Jalappa harpix, Blysykur, og svo frv. P.

þad hefir innantøkur,*) sem ætíd þeckist á því; ad þad kreppir fætur ad qvidi, hlóдar mikid og akar sér tídum, sefur lítid og er ætíd órólegt; hvert þad hefir óhægd fyrir brjósti og hixtar; hvert andi þess luktar súrt; hvert þad hefir hósta; hvert þad hefir oflitlar eda ofsterkar hægdir til baksins; hvert saurindin eru hvít, græn eda gul af gallinu; hvert þad hefir hita edur þorsta, bólur eda ákomur í munninum; hvert þad hefir nidurfalls sótt, flog, mænusótt**); hvert þad er ad fá tennur; hvert lífid er hardt áþreifíngar og skinnsliturinn gulur. Hverr allt þetta adgætir, finnur, sem optast, hver ad séu ómála mein. Þó eru hér ecki meintir þeir sjúkdómar, sem børn taka í arf eptir foreldra sína.

## §. 21.
### Um Búkhlaup Barna.

Medal allra barna-sjúkdóma hér á landi, er enginn almennari enn þessi, og úr honum deya børn sífellt,

*) Vída sunnan- og austan-lands kalla menn — midur réttilega — Búkhlaup, innantokur, en vidarst meinar Hofundurinn Ydra-qveisu, hvar hann nefnir Innantøkur, §. 16, og 26, og svo frv. P.

**) Þessar Brotfalls edur Sinadrátta tegundir barna allar, er nú hér eystra almennt farid ad kalla því vitlausa Vestmannaeya Ginklofa nafni, þar allir meina sýki þessa þadan komna í nærstliggjandi fastlandssveitir. Samanber Isl. Lærd. l. Fél. Rita 15 B. bls. 144. Med áhyggju væntа menn eptir opinberri Læknisskírslu, um Vestmanneya Ginklofann, sídan Hra Candid. Medic. O. Thórarinsson, dvaldi þar í Eyunum vid heilt ár á opinberann kostnad, til ad ráda bót á honum, og hvad þá ecki nú — 1828 — ad þángad er settur fastur útlendskur Læknir, hverjum vor núverandi skarpgáfadi og undireins náttúrubesti Landphysicus gefur gódann róm. Betur! ad þessum audnadist ad þeckja undirrót og edli Ginklofans einsog þad er. P.

hvar í allar mér meddeildar Skírslur geistlegra eru samhljóda. Þad kalla eg hér Búkhlaup, þegar barnanna saurindi gánga frá þeim margopt á dag, og vyrdast ad sínu leiti meiri, enn svari því, er børnin nærast á, hvar af þau missa alla krapta, hafa innantøkur med velgju og hita. Hitt kalla eg ecki búkhlaup, þótt barnid hafi 3svar eda 4sinnum hægdir á dag til baksins, ef þad þar hjá ad ødru leiti er líflegt; þvílík hreinsan er meiri til gagns enn skada, medan sømu fer fram; en undir eins og út af því ber, ega menn ad leita hjálpar, því ella er lífid í hættu.

## §. 22.

Illa úthreinsúd saurindi, sem um er talad §. 9, ofþúng, of mikil og ískøld mjólk, eru hér til en stærsta orsøk, sem engum þarf ad vyrdast undarlegt, því þótt børnin séu þegar ordin veik, þá eru mædur og fóstrur á hverju augabliki ad neyda þau til ad drecka þá kostmestu mjólk, sem þeim er skadlegust og þartil sárkalda og máské súra, sem — því midur! — dæmi munu finnast til*).

## §. 23.

Undireins og merkist ad barn hafi búkhlaup fengid, hreinsast þad med barna-púlverinu §. 10 No. 1 í Recepta-listanum**). Líka eru 1 eda 2 dropar af Anís-olíu í 1 theeskeid af Sykurmysu, gódir. Nockur

*) Gømul og góð læknis-regla er: ad hvers sem neytt er, sé hollast þad sé vidlíka volgt, eins og innvortis varmi heilbrygdrar skepnu, eda andardráttur er. P.

**) Þad fæst tilbúid á Apóthekum, af jafnt af hverju Sykri, rhabarbara púlveri og Magnesíu (sjá No. 2 eda 3 í Recepta-listanum). P.

sjóda Anís-fræ í léreptspoka í dryck þeirra; sama má segja um Blódberg. Þar hjá sé barninu sett Stól-pípa med volgri mysu, í hverri ádur sodid sé lítid eitt af sundmaga eda Stífelsi*). Barninu sé haldid vel þurru og hreinu, og fordad øllum sodhita og kulda; þad má drecka þunna, vatni blandada mjólk, í hverri sodid sé nockud af hveitibraudi. Þá búkhlaupid er svo magnad, ad því fylgir uppsala, velgja med ropum og hixla; saurindin eru seig, mikil og ónáttúrlega lukt-andi, eins og af nockurskonar súr, þá er audvitad ad barnid hefir fengid ofmikla mjólk til lífsnæríngar, og þarf uppsølu medals vid, hvartil taka má 10 grøn af uppsølu-rót**), sjóda þau í litlu af mysu, sía svo frá, en gjøra mysuna sæta med litlu af húnángi; af þessu gefist barninu 3 eda 4 theeskeidar í senn, uns þad verk-ar; en sé þetta ecki fáanlegt, verdur ad vekja uppsøluna med fjødur, sem segir í §. 18, ellegar géfa því uppsølu vínstein, sem ádur er sagt, svo þad hreinsist vel upp og nidur. Í barnanna dryck mætti uppleysa litla tegund af sundmaga-límí, eda blanda þar vid litlu brædddu vaxi. Vilji eckért skipast vid þessa adferd, er þørf ad leita ráds hjá æfdum Lækni, en sé í tækann tíma byrjad med þad hér talda, mun þess sjaldan vidþurfa***).

*) Stífelsi er í køldu vatni vel útþvætt siktad bygg-mjøl, og fæst á Apóthekum. P.

**) Um Uppsølu-rót (Radix ipecacuanhæ) er sama ad segja, sem Uppsølu vínstein. Sjá Sk. gr. vid §. 18. P.

***) Vitad hefir eg dæmi til, ad barni, sem lengi hafdi qval-ist af þessu, batnadi vid Blódberg í mjólk, nidur-seyddri um þridjúng, og géfid volgt ad drecka, opt, en lítid um sinn; en betra mundi ad brúka upp- eda nidur-gángs medøl á undan, þó med Læknis rádi, sjá §. 18. P.

## §. 24.

### Um ofhardar og ørdugar hægdir barna.

Þad væri ecki skynsamlega gjørt, ad vilja lækna sjúkdóm nockurn med því, ad láta hinn veika fá annann verri í stadinn; en þad verdur þó optast þeim, er med sterkum búkhreinsunum vilja lækna þenna qvilla, því strax á eptir verda bædi børn og fullordnir verri. Hafi úngbørn ecki lidugann vallgáng einusinni eda tvisvar á dag, þarf ætíd adgjørdar. Eg hefi varla annad brúka látid, enn volga mysu, hvar í gott væri ad blanda svo miklu af púdursykri, ad sætt finndist meir eda minna, til þess hægdirnar fjølgi, af hverri børnin hafa opt mikid druckid; þar hjá má smyrja líf þeirra vid eld daglega, med nýu smjøri eda blautasápu, en þvo lærin og høndurnar med køldu vatni. Erlendis er brúkad 2 eda 3 theeskeidar á dag af Manna Latvergi (Syrupus è manum), er fæst á Apothekum*), ellegar Laxersaftina No. 3 í Receptalistanum, og tálga til laglegann tappa af kértis-dás, sem hamprak er í, og pota inn í endaþarminn, og væri ecki sídur, ef vidþyrfti, ad hann væri vættur í Bómolíu, edur þá hrálýsi edur bræddu smjøri. Þad er mikilsverdt ad hafa gódar gætur á því, á medan børnin eru úng, ad þau sífellt hafi náttúrlegar hægdir, hvar til søl eru einka þénanleg børnum þeim, sem nockud eru stálpud, annadhvert etin ellegar í mysu sodin.

## §. 25.

Vid ber þad á stundum, ad endaþarmur barna er til-

*) Manna-sykur má lengi geyma, en ecki Latvergid. Sykrid siálft má uppleysa í volgu vatni, eptir þørfum, en er miklu dýrara enn Púdur-sykur. P.

gróinn þegar þau fæðast, að hverjum ljósmæður ega að gæta strax og barnið er fædt og vita að opna; því ecki er ætíð hægt að ná til læknis *). Stundum sígur børnum til bakfíns, þá er þau hafa hárdann stólgáng til lengdar; verdi því, sem sígur ecki hæglega innkomið með fíngrunum, gjørist þar til bakstur af smáskornu **Blódbergi** og **Vallhumli** í víni soðnum; þar á er gott að bera **sjálfrunnið lýsi**, og leggja þar á ofan volgann **Grjóna**= eða **Bánkabyggs**=**bakstur**, og líka vel **feitar pørur** af **saudakjøti**.

## §. 26.

### Um ydraqveisu og innantøkur barna **).
(Passio colica, s. Tormina infantum.)

Þessi sjúkdómur þeckist þar af, að børn verda mjøg óspøk, kreppa fætur að qviði, sprikla mjøg með fótunum; eru annaðhvert þvíngud af búkhlaupi, edur géta sér ecki hægt; andardrátturinn verður ørðugur; upp frá brjóstinu gánga vindar, sem lukta súrt; saurindin eru grænleit og verða að ystíngi, komi þau annars í ljós. Þessi saurindi verda á stundum svo skørp, að þau eta holur í mundlaugar, nái þau þar í að standa; sé blandað saman við þau **Vínsteins olíu** (oleo tartari per deliquium), missa þau sinn græna lit og verda

*) Aðgætsla um þetta, er ljósmóðurinnar vafalaus skylda, en að gjøra við, sé fyllilega samangróið, er lángt frá af þeim sé heimtandi, að fráteknu, þegar gløgglega sést, að himna ein lykur gatið, sem brádum tútnar út af saurindunum innan frá, og er þá óhætt með vel beittum og mjóum knífi, að spretta á himnuna í kross svo saurindin komist út, og halda síðan gatinu opnu, sem þarf, með áðurnefndum básar=tappa, um hvern opt sé vitjað á dægri. P.

**) Sjá Skíríngargr. við §. 20. P.

gul. Þeſsum ſjúkdómi fylgja þau hørduſtu tilfelli; børnin teygjaſt ſundur og ſaman í flogunum, og ſvo frv. Eptir hér upptøldum kénnimerkjum, er þeſsi veiki audþeckt frá búkhlaupi, eru orſakirnar nærſtum því enar ſømu, en þeſsi þó ecki ſízt, þá børnum er géfid kaldt ad drecka á nóttum, ſem lengi hefir ſtadid og tekid ad ſúrna, ſvo og, þá er þau liggja vot, og hafa lengi haft tregar hægdir til bakſins. Stundum orſakaſt þetta af ormum.

## §. 27.

Hafi børnin ecki hægdir til bakſins, géfiſt þeim þad, ſem um er gétid í §. 24, þángad til þad verkar góda opnun; þeim ſkal og ſetjaſt Stólpípa, ſem ſegir í §. 23, og á þeim døgum búkhreinſandi medøl ecki brúkaſt, géfiſt þeim Sykur-vatnid eptir §. 10; útvortis ad lífinu má gjøra bakſtur af Blódbergi og Vallhumli í myſu ſodnu, allrahelzt ſé þad hardt og af vindi uppbláſid. Børnin drecki þá eckért annad enn myſu, nema því medfylgi mikid búkhlaup, því þá mega þau drecka þad um er talad í §. 23, en í bádum tilfellum er gott ad drecka ſeydi af Vallhumli, med ſykri eda ødru þægilegu ſætt gjørt. Þeſsi ſjúkdómur er hér á landi, eins og búkhlaupid, almennileg drepſótt á børnum, vid hverju fleſtir eckért leitaſt, ſvo mér ſé kunnugt.

## §. 28.

Um hixta og uppkøſt, edur þá børnum heldſt ecki nidri.

Bædi hixti og uppſala barna kémur af því, ad þeim er géfin ofmikil mjólk, ſvo hún gétur ecki meltſt, ádur enn barninu er géfid ad drecka á ný, því maginn má

naudsynlega af slíku draga sig saman og leitast vid, fyrir uppsøluna, ad skilja sig frá honum ofþúngri byrdi; hér af koma drættir í þyndina, sem orsaka hixtann, og því eru þessi tilfelli allopt samferda. Stundum hjálpar hér til kuldi, og svo þá, er børn egu bágt med ad fá tennur. Í øllum þeim tilfellum, þá mjólkin hledst hvad ofan á annad í maganum, skémmist hún brádlega, og kann bædi ad verka mátalausa uppsølu og líka ádurtalda sjúkdóma, og er ætíd í þvílíku tilfelli hættuleg, því þegar uppsalan magnast, fylgja henni flog og nidurfalls-sóttar tilfelli. Annad er þad, þá er børn drecka í mikilli ákéfd ofmikid og goppast strax upp aptur, sem ógjarna sakar, því þau eru, ad uppsølunni endadri, alltéins glød, sem eckért hefdi í skorist.

## §. 29.

Í þessum sjúkdómi liggur mikid á náqvæmri adgætni á því, er barnid kastar upp, hvert heldur þad luktar súrt, úldid eda þrátt, hvert þad er osturinn úr mjólkinni ómeltur, eda þyckt slím og vilsa. Sé þad súrt, sem upp er kastad, grænleitt og lítid eda eckért melt, er þad nærstum best, ad uppleysa 1 qvintín eda 2 af Vínsteins-salti*) í 1 pela af køldu vatni, og géfa barninu þaraf 3svar eda 4sinnum á dag 1 theeskeid í køldum vatnssopa. Auk þessa skal barnid annanhvern dag laxera med Rhabarbara dropum (anima Rhei aquosa)**), af hverju úngbarninu eru géfnar 2 eda 3

*) (Kali carbonicum) gott vid magasúr; en vid børn er púlverid í §. 16, óhultara. P.

**) Þessa dropa verdur vandlega ad geyma, því þeir vilja dofna, og er barnapúlverid §. 10 miklu vissara, og má, ef vill, blanda í þad nockru af Vínsteins-rjóma, ecki sídur enn dropana. P.

thesskeeidar í Fenikul-vatni (aqua feniculi), sem allt verdur ad fást á Apótheki, og dugi ecki sá skamtur, verdur ad bæta vid svo verki. Sé luktin af uppkastadri vilsu úldin, skal barninu géfast anima Rhei, med litilli tegund af Vínsteins-rjóma (cremor tartari), þad skal og drecka þunna ósura mysu; er þá gott þar eptir ad géfa púlverid af Magnesia alba §. 16, med sterku, en þó sættgjørdu Vallhumals-seydi.

§. 30.

Þad er margopt hér á landi, þegar barnamædur eda fóstrur leysa børn, ad þær láta þau vera nakin um stund, eda einúngis med skyrtuna og smockinn utan um sig, sé þad nú í kaldri badstofu um vetur, þá fá børn hixta, er þeim þá gésid strax ad drecka, sem þau kasta þá upp aptur optastnær. Þessar umbreytíngar einar og adrar verda børnum opt ad heilsu-tjóni*). Stundum fylgir uppsala barna qvidsliti, en þar um talast á sínum stad, því hún læknast þá um qvidslit er búid, sem vera skal.

§. 31.

Sé madur viss um ad snøgglegur kuldi sé orsøk til uppsølunnar, þá má leggja barnid í volgt rúm, géfa því ad drecka volga mysu, leggja vel volgann eda vid eld heittann prjónasaum yfir líf barnsins, og núa þad lidugt med heitri hendi. Þetta lítilfjørlega rád er opt af mikilli nytsemi, bædi í búklaupi og ydraqveisu**).

*) Hvad skadleg sé hastarleg breyting frá hita til kulda fyrir únga sem gamla, er af ofsáum adgætt, sem skyldi. P.

**) Svo bar vid í Kaupmannahøfn, ad úng heidursmeya sýktist vid máltíd og fiell í aungvit; þá er þad afleid, vóru gánglimir hennar svo hardkrepptir, ad ecki gat uppstadid, né þoldi ad snerta þá. Merkis-læknir

Annars er venja í ødrum løndum, ad smyrja líf barna og jafnvel hrygg þeirra, med ýmsum balsømum og olíum, sem í engu taka ádursøgdu framm.

## §. 32.

### Um tannkomu Barna (dentitio).

Svo audveldt og létt, sem þad gengur sumum børnum ad fá tennur, svo þúng tilfelli fylgja því hjá sumum, er því mikil þørf ad hafa gódar gætur á þeim, í þessum naudsýnjum þeirra.

## §. 33.

Tannkomu tími barna er mjøg misjafnt; sum kunna ad fá tennur á 3ja mánudi, sum á hinum 4da og á 7da sum, og nockur ecki fyrri enn eptir heilt ár. Almennast er þad nálægt 20tu viku aldurs þeirra. Á þessum tíma verda børn óspøk og heit, stundum fá þau uppkøst og búkhlaup, stundum fá þau hardlífi og hafa litlar hægdir; er þad sjaldan góds viti, því þar med fylgja flog og á stundum nidurfalls-sóttar tilfelli, hvaraf þeim liggur opt vid dauda, nema þeim sé náqvæmlega adhlinnt og hjálpad. Um þenna tíma tanna þau og naga allt, er þau finna hardt. Tannholdid bólgnar, og rodnar annadhvert edur hvítnar; af munninum flýtur mikil slefa og vetzi.

## §. 34.

Hafi børnin ecki búkhlaup í þessari tíd, eda ad minnsta

Scheel var kalladur, er med nockurskonar kulda einúngis baud ad bera hana í rúmid og géfa volgt Grænthee ad drecka. Þetta þókti hlálegt rád af þvílíkum Lækni, var samt hlýdt, og stúlkan jafngód morguninn eptir; ser svo um fleira, sem fólki vyrdist léttvægt og lítid í varid. P.

kosti gódann og linann vallgáng, á þeim ad géfast Barna-púlverid edur Sýrópid §. 10, ellegar púdursykurs mysan §. 24, og þaradauki setjist þeim annadslagid Stólpípa af Hafurgrjóna seydi edur mysu, med litlu bræddu smjøri. Adgæta skal vel, ad børnin eti ecki ofmikid um þessar mundir, því bædi er magi þeirra veikur og gétur ecki vel melt matinn, og líka hafa þau opt sóttverkjár snert, hverr snøgglega kynni aukast, ef fædan væri ecki mínkud, heldur aukin; þarámóti er betra, ad géfa þeim nockud meira ad drecka, hvar til mysa, enn sem fyrri, ecki er fátækum óhentug. Þeir ríku géta brúkad lindeblómstur (flores tiliæ) og géfa þau í theevatni. Á þessum tíma er ecki ópénlegt ad børn tyggdu nockud, sem samansnerpti tannholdid og gjørdi þad strídt eptir tønnunum, svo þad því fyrri opnadist, hvar til hinn franski tannlæknir Boardet rádur ad taka Citrónu-saft. Sortulýng í víni sodid, kynni nærstum gjøra þad sama. Séu tilfellin mjøg þúng og verkirnir sárir mjøg, er hid besta rád, ad skéra opnun fyrir tønnunum; því undir eins og þad er búid, lina tilfellin, sé sárid badad med svampi, vættuin í volgu víni, og er þar engin hætta vid. Flog, sem á stundum fylgja tannkomu barna, linast vid þad, séu þeim géfnir 3 eda 4 dropar af Hjartarhorns Spiritus (Spiritus cornu cervi). Yfir alla hluti framm er þad naudsynlegt, ad børn hafi hægdir 2svar eda 3svar á dag, og brúkist þar til ádurtalin medøl og Stólpípan; en hafi børn búkhlaup, má þad ecki stillast, því þad gétur kostad líf þeirra, ef svo er gjørt; þó er einsætt ad gjøra þar nockud vid, gángi þad úr hófi fram.

## §. 35.

### Um orma með børnum, niðurfallssótt og flog.

Þess er áður gétið, §. 18, hvern skaða børn hafa af því að drecka of opt og ofmikið; það skémmir mikið matar-meltíngar krapt magans, af því fyllist hann og þarmarnir með vindi, súr, nagandi skérpu og slími. Þegar þarmarnir eru fylltir með allt þetta, qvikna ormar í þessum saur, og byggja sér hreiður í slíminu a), en aldrei í hreinum inníblum. Af øllu þessu tilsamans teknu, kémur niðurfalls-sótt barna; þessir, bæði úngum og gømlum svo skémmdafullu géstir, plága og pína únga og fullorðna hér á landi lángtum framar, opt og íllilegar enn fólk ímindar sér; því søkum þess þeir eru svo fáir, sem þeckja meinsemdir þessar, verða margir einfaldir til að eigna íllum øndum þá sjúkdóma, sem einúngis eru verkanir af náttúrlegum orsøkum.

a) Hér skulu barnfóstrur sjá ávöxt verka sinna, þegar þær með engu øðru þykjast géta sýnt þeim nýfæddu børnum þeirra aðhjúkrun og meðaumkunarsama hjartalag, enn strax eptir fæðínguna að fylla þau af mjólk, og meina þau kunni ecki án þess að lifa, sem børnum gjørir þó stærsta skaða; já, hata og vanvirða þá, sem þar á móti mæla, og segjast fyrri hafa sýslað með børn; en — hversu fer um þau børn, sem í fyrstunni eru hin hraustustu og þrífast yfrið vel, verða þó, eptir nockrar vikur hin vesælustu, ellegar deya?

## §. 36.

Ormar þessir, sem hér er umtalað, eru einkum þrennslags, nefnilega: 1) Nálgur eða Spolormar (lumbrici teretes), hverjir þrálega finnast með børnum; 2) Spríng- eða Smá-ormar (ascarides), sem eru mjóir og litlir, og hafa sitt aðsetur í endaþarminum; 3) Kéðju- eða Band-ormar (Tæniæ), sem

optast eru margir í einu, lángir, þunnir, breidir og med lidum samanvaxnir.

§. 37.

Ad vísu eru mørg teikn, hvaraf ráda má, ad ormar séu med edur í manni; en eckért af þeim øllum er fullkomlega víst og óbrygdult, nema þad, er þeir gánga annadhvert upp eda nidur; þó plaga þeir, sem af ormum þvíngadir eru, ad hafa hægan magaverk eda stínghvot frá nablanum upp undir hjartagrófina edur flagbrjóskid, einkum fastandi ad morgni dags, þar med fylgir opt vatnsspýtíngur og undarleg andfýla. Þetta allt ollir því, ad þvílíkir menn géta ecki lengi dags verid fastandi, heldur mega súpa á einhverju køldu, og þetta er á almørgum nockurnveginn víst teikn til orma. Þessir hafa opt nasakláda edur kríngum þarfagánginn, og óreglulega matarlyst, því stundum eta þeir mikid, en stundum lítid eda eckért; þeir hafa íllt fyrir hjartanu og fá stundum uppkøst; margir þeirra hafa og med øllum jafnadi enar hørdustu hægdir til baksins, ecki síst þá, er ormarnir hafa adsetur í endaþarminum. Sjaldan veit eg þá hér á landi, er fái búkhlaup, svo þar af kunni takast nockurt teikn, en vidber þad, ad saurindin eru lin og fædan gengur á burt hálf-melt. Á børnum er lífid ærid stórt, en útlimir holdlitlir; þau hafa, eins og margir fullordnir, mikinn þorsta annadslagid, hverjum varla er unnt ad svala, og þetta er undanfari floganna. Opt eru þvílíkir menn ángurværir, andlitid er ílla litkad, og breytir litum á litlum tíma; þeim sýnist þoka fyrir augunum og sjá stundum verr, stundum betur, og sjest opt til bláma kríngum augun; þeir sofa med þeim hálfopnum; þá dreymir opt ílla, ad

þeir detti fyrir bjørg nidur, stundum á gjábøckum, vilja komast yfir um, en géta ecki, falla, kippast vid og þykjast sveyma í vatni, og svo frv. Børn, sem hafa orma, géta aldrei kyrr verid; þau gnýsta opt tønnum í svefni; þvag þeirra er hvítleitt; þau hafa hjartslátt, aungvit, flog, lémegni og út um þau slær snøgglega køldum svita. Stundum fá þessir sjúklíngar eins og sóttarvímu, verda um stundarsakir mállausir, ega bágt med ad svara, þá til þeirra er talad; þeir hafa sljúgandi verki híngad og þángad um sig, dofa og máttleysi í høndum og fótum, handleggjum og lærum, sem á fullordins árum breytist í vond sár, hvar um á sínum stad talast þarf. Á nockrum er tannholdid og gómurinn óheillegur, fá opt hixta; stundum kémur á þá villa edur sem órád, ecki sízt þegar af svefni uppvakna; séu þeir snøgglega vaktir, verdur þeim bilt vid edur fá flog; lífædin slær óreglulega, stundum lítid og lint, stundum fljótt og hardt; þeir hafa ydugloga þurra hósta med saurindum og slím uppgángi. Nockrir telja hér med sára verki fyrir lífinu, er selja sig til graftrar-meina, hvar med ormarnir stundum grafa út úr lífinu.

## §. 38.

Ormar valda optastnær þeim háskalegustu tilfellum, medal hverra er ójafn og óreglulegur svefn, andvøkur, hrædsla, flog (convulsiones), mænusótt (opistothonus), nidurfalls-sótt, galinskapur, og sl. Auk þessa bæta ormar miklu íllu vid adra sjúkdóma, þegar þeir eru þeim samfara, einkum á børnum medan þau eru ad taka tennur, edur adra sjúkdóma, svo sem bólu og þesshháttar fleiri.

## §. 39.

Børn eru margopt undirorpin dráttum í líkamanum,

í hverjum þau teygjast sundur og samgn. Þetta tilfelli kalla eg flog; það er að sønnu líkt niðurfallssótt, jafnvel þó mismunurinn sé þéssi: flog kémur af ýmsum orsøkum, stundum einusinni, stundum mørgumsinnum hvað eptir annað, og mínkar síðan. Niðurfallssóttin *), sem eginlega svo kallast, kémur opt án þess menn viti þar til nockrar útvortis orsakir; hún liggur þýngst á með hverjum stórstraum. Børn, sem hana hafa, eru osjúk og lífleg í milli þess hún þau heimsækir, en í sjálfum hviðunum, froðufella þau, vita eckért af sér, kreppa þumalfíngurnar í lófann og kreysta fíngurnar utanum. Í flogum eru almennast øll þéssi tilfelli minni, þau koma opt af verki og pínu í maganum, og linast, ef menn setja børnum stólpípu með volgu vatni og litlu bræddu smjøri, og géfa þeim þar hjá meðølin §. 10 **). Þegar børn hafa haft krefdu, kláða, høfuðskurfur og annað þésshattar, sem einhverra orsaka vegna slær inn í líkamann, svo sem, af íllum aðbúnaði, kulda og fl., þá fá þau flog, er eckí læknast, nema hinu sé látið slá út aptur. Flog koma opt með øðrum hørðum sjúkdómum, svo sem í bólu, fleckusótt og fl., hvar til brúkast skulu stólpípur og volg bøð.

## §. 40.

Allt þetta gétur komið af skemmdri fæðu er safnast í maganum og verður størp, verkar uppá og ertir magann og þarí liggjandi sinataugar, þar af kémur ónáttúr-

*) Niðurfalls-sótt er hærsta trappa af, en sama slags, sem Floga-veikin. P.

**) Nýlega (og þó er það eldgamalt ráð) er reynt og sannað, að flog þéssi lina, sé fast gripið og haldið um þá útlimi sjúklíngsins, er hann mest hreysir, þegar flogið byrjar, eða jafnvel fast umbundið. P.

leg hræríng í taugarnar, annadhvert í øllum líkamanum edur einúngis nockrum pørtum hans, hvaraf hinir miklu dræettir koma, sem ecki eru annad enn vødvanna mótviljugu hræríngar (motus musculorum involuntarius). Þessi skémmdu og skørpu óheilindi, géta ecki komid af ødru enn ofmikilli, óhollri og þessk‌yns fædu, sem úngbarnanna veiki magi ecki hefir krapta til ad melta. Hér til kann ad styrkja óhockaskapur og ódráttar fýla, er nýklakin børn sjúga í sig med andardrættinum, en fólk, sem því er samdauna, géfur engann gaum ad.

## §. 41.

Vid flogum einúngis, hvar ecki eru ormar med, er sú §. 39 tilvísada lækníng opt ánægjanleg; en hvar ormar eru og nidurfallssótt leidir af þeim, má taka til annara ráda. Þetta íllyrmi verdur ad burthreinsast úr líkamanum, og þar til á ad brúka uppsølu- og búkhreinsandi-medøl, (sjá Skír. gr. vid §. 18). Stærd inngiftarinnar verdur ad skamtast eptir barnsins aldri og krøptum. Þeir, sem annadhvert eckért uppsølu-medal fá, edur ecki géta komid því ofaní barnid, verda ad brúka fjødur, sem fyrr segir, og kitla þar med háls barnsins, auk þessa sé því géfid 2svar eda 3svar á dag, lítid eitt af muldu salti, sem almennilega brúkast til matar, edur af Vínsteins-rjóma, uppleystum annadhvert í mikilli mysu eda vatni. Til ad laxera af má brúka fylgjandi saft til hér um 2gja ára barna, yngri þurfa hana ecki alla; en fyrir eldri má hún gjørast sterkari.

Tak: 2 grøn af Jalappa harpix*); þetta rýsist vel smátt med 12 grønum af hvítu sykri, og

*) Adgæt Skír. gr. vid §. 18, um þau varhygdarverdu medøl. P.

12 ſtyckjum af ſætum Mandelum (amygdalæ dulces), af hverjum ádur ſé tekinn børkurinn í heitu vatni; þá þetta er vel ſmátt ſteytt og blandad, má láta þarí 1 eda 2 ſpæni af køldu vatni; þetta ſættgjørt med einhverju Sýrópi, géfiſt inn í einu.

Mjøg úngum børnum kann þetta verda nockud ſterkt, og því er ecki ſídur ad géfa þeim Manna latvergid, §. 24, eda barna-púlverid, (ſjá Skír. gr. vid §. 10). Af þeſsum hreinſandi medølum taki barnid inn til ſkiptis ſitt hvern 14da dag; þad er og gott ad géfa því 3 eda 4 dropa af Qvikaſilfri (mercur. vivus) í nýmjólk, eda nockrar Ormakøkur, ſem fáſt keyptar á Apótheki*), á hverjum morgni, þángad til barnid er ordid hreint, og menn í 6 eda 8 vikur í rød hafa ecki hid minnſta ordid varir vid ſjúkdómſins tilfelli, og ega børnin ſvo lengi ad brúka umtølud medøl, annars kann ſjúkdómurinn ad taka ſig upp aptur. Séu børnin nockud yfir 2 ár og viſsa ſé fyrir ad þau hafi orma eda nidurfalls-ſótt, má þeim géfaſt 1 lítil theeſkeid á tómann maga ad morgni og jáfnvel optar, af Orma-olíunni No. 4 í Recepta-liſtanum**).

*) Þeſsar kokur munu nú varla tilbúaſt lengur án Recepts, og gjøra traudt meira enn ádurnefnd Barna-púlver, ellegar ſídar- og ádurnefnd Laxer-olía. Dæmi fáſt til, ad hreint Qvikaſilfur gengur óumbreytt nidur af manni, þótt gleypt ſé, en óþarfi er ad leika ſér ad því. P.

**) Í ſtadann fyrir Orma-medøl hjálpar nú ſú Ameríkanſka Laxer-olía (Ol. ricini americ.), hvaraf inngiftin er 1 til 4 ſpænir til fullordinna ad laxera af, en hún er heldur dýr og væmilig. Vidlíka nytſemi gjørir hvern morgun faſtandi tekinn 1 ſpónn af bræddu, vel hreinu, nýu ſmjori, og jafnframt 3ſvar daglega innteknir 20 til 60 dropar (eptir aldri) af Malurtar-Eſsents,

## §. 42.

Barnanna fæda má náqvæmlega adgætast í þessum tilfellum, ad hún sé þunn og vatni bløndud, hvar til þéna kjøtsúpur, grjónavellíngur og þesshättar. Brúkast kunna hèradauki, kál, laukur*) og gular rófur bædi hráar og sodnar, einnig mjólk, í hverri Orma-fræ (Sem. cinæ) sodid sé, en hún verdur ad gjørast sæt med hunángi eda sykri. Allskyns nýtt fiskæti í súpu sodid, eda med litlu smjøri vel steikt, er einnig gott. Hér á móti egu børn ad fordast allt súrt, úldid, háugid, morkid og feitt, líka svo mjølmat og braud, því þad fyllir þarmana med vind**).

## §. 43.

Auk ádurtaldra medala, eru ad vísu mørg ønnur, um hverra gódu verkun í orma-sjúkdómum menn eru sannfærdir; en þar sum þeirra eru ecki øllum í hendur fáandi, er betra þar um ad þegja, enn vera orsøk í ad verr fari; þó vil eg hér nefna Chínabørkinn (cor-

móti Smá- og Spol-ormum. Qvikasilfur lifandi, sem nefnt er §. 41, er óhult ad gefa, eins og þar er sagt, en bædi þar um og eins Uppsølu medølin, er einsætt ad hafa rád af Læknir, en leika sér ecki ad þvílíku uppá egin hønd. Nockud um Ormamedøl er ad lesa í Kl. pósti 1825 bls. 110. P.

*) Hvítar laukur, hvaraf ein tegund vex hér á landi á einstøku stødum villt edur ósád, prísast mjøg í sídar, §. 67, lofadri Rósensteins bók, móti ormum, hrár etinn og gleyptur, smá flísum saman; ad vísu mundi þad óhultara enn Qvikasilfrid. P.

**) Þó má þar frá skilja Skonrok, Tvíbøkur og yfirhøfud þad braud allt, er bakad flyttst til vor frá ødrum løndum, því þar vid er allur gángur úr því (udgjæret) er þad er híngad komid, og því hardbakadra, sem braudid er, þess minni vinda gjørir þad í maganum. Th.

tex peruvianus); hann er í alla stadi hættulaust medal, og med hverju helzt móti hann verdur børnum inngéfinn, er hann ætíd kroptugt medal; þó á hann ecki fyrri ad brúkast, en børnin eru vel hreinsud og þad nockrum sinnum. Tilbúid Járnsvarf (Ferrum pulveratum), sem kaupast verdur á Apótheki tilbúid, er og rétt gott*).

## §. 44.

Þad er naudsynlegt þeim aumíngjum, sem þjádst hafa af ormum og nidurfalls-sótt, hid mesta møgulegt er, ad athuga þad náqvæmasta þeirra matarhæfi, heilt ár, eptir þad sjúkdómurinn er batnadur, og venja þá jafnan til ad eta saltann mat.

## §. 45.

### Um þúngann andardrátt, hryglu í hálsi og fyrir brjósti barna (Rouchus) **).

Þessi sjúkdómur sýnist af litlu verdi í fyrstu, og leidir því opt daudann eptir sér, ad oflítid er um hann hyrdt

*) Samanber hvad talad er um Orma-sýki í Lærd. L. Fél. Rit 15da Bd. frá bls. 101. Þess er ad gæta hér eitt sinn fyrir øll, ad Járnsvarf má ecki vera blandad med enu minnsta af rydi né ødrum óklárindum, er því vandgeymt og óhultast ad kaupa frá Apótheki. Ecki heldur mega nein járn-medøl brúkast, nema þar, sem hægdir eru lidugar til baksins, ecki fyrr enn eptir blódtøku vid blódrika, edur í hitzugum sóttum, og med mestu varhygd vid meinlætafulla, og þá er þjást af innvortis Stýslum, allt med rádi orduligs Læknis. P.

**) Líklega horfir vid, ad hér meinist Barna-fárid, sem hér vída stack sér nidur, sem faraldur, árin 1820 og 21, og aptur med og á eptir Skarlats-sóttina 1827 og 28, er af Læknirum nú kallast: Angina membranosa s. polyposa, Barka-hósti. Hann þeckist í fyrstu varla frá almennum qvefhósta, en brádum kémur óveniu-

í øndverdu. Í þessu tilfelli er ætíd gott ad koma børnum til uppsølu, sem ádur er sagt §§. 23, 41, sídan skulu þeir, sem maturtir dýrka, taka rófur, flysja børkinn af, skéra svo í þunnar flísir, sá þar yfir sykri, og þá er þad er runnid, taka vøkvann og géfa børnunum, þad er fyri þau ágjæt brjóst-saft. Auk þessa géfist barninu púdur-sykurs mysan, sem um er talad §. 10. Á sama hátt, sem nú var sagt um Rófu-saftina, má tilbúa Hvannaróta-saft á sumrum af Brjóst-hvønninni*), láta í glas og geyma vetrarlángt, til ad brúka vid brjóst-sjúkdóma barna og annara.

## §. 46.

### Um Magahósta (Tussis Stomachialis).

Á stundum ber þad vid, þá er børn hafa hósta, vilja þau hverki eta né drecka, en annadslagid eta þau mikid, hafa þýngsli fyrir brjóstinu, en maginn er hardur og uppþembdur. Í hósta-hvidunum fá þau velgju og stundum uppsølu; þetta kallast almennt Magahósti, af því

leg hæsi, kjølturs-hósti og einskonar hrygla, líkust því, ad himnur hlokti í andrúminu, edur eins og blakti í skjáglugga; slím setur sig svo hardt og mikid innan í barkann, ad børn þau, eckért er vidgjørt, missa andrúm og líf, opt á 3ja degi. Hjá fáum losnar þetta slím, eda flysjar sig innan úr barkanum í smá styckjum, og jafnvel heilum hríngum og pípum, seigt eins og ostur. Nockrum únglíngum batnadi af sterku Kúmens-róta seydi, og flestum, sem í tíma vóru tekin, af púlverunum No. 6 og 7. Þetta dugdi, sem optast, handa einu barni, géfinn inn 1 skamtur hvern kluckutíma, med 1 eda 2ur dropum af Tinct. opii simpl. í hverjum skamti, ad brúka eins um nóttina, sem daginn, en adgætast verdur Skír. gr. vid §. 18 í tilliti til opium-dropanna. P.

*) Svo kallar Author þá almennu Hvonn, þad nafn hefi eg aldrei heyrt, og gétur þad verid eyfirdskt. P.

hann verdur jafnan verri eptir hverja máltíd. Túnga þeirra, er hann hafa, er óhrein, andinu luktar ílla og allteins ſaurindin. Hér vid má brúka þau ſømu medøl, ſem í hinu fyrra tilfelli, §. 45, og þaradauki ſetja ſtólpípu af myſu og ſápu. Nockrar theeſkeidar af Sjólauks-ſaft*) eru rétt gódar, annadſlagid inntcknar, því þad loſar ágœta vel ſlímid, einkum ſé ecki Hvannarótar-ſaftin vid høndina.

## §. 47.

### Um andarteppu-hóſta (Tussis convulsiva s. ferina).

Þeſsi ſjúkdómur mismunar varla frá Magahóſtanum í ødru enn því, ad hann gengur, ſem landfarſótt, er ſem optaſt annannhvern dag linur, er annannhvern dag hardari. Hinn ypparlegi Herra af Róſenſtein og fleirſlir adrir, halda þenna ſjúkdóm líkann í því Bólu og þeſskyns ſóttum, ad hann yfirgengur heil lønd á viſsum tímum, grípur hvern af ødrum, ſem hinir nœmu ſjúkdómar, og flytſt ſveit úr ſveit. Þannig gengur hann tídaſt hér á landi, og flytſt híngad optaſt med

*) Mun vera Oxymel Squilliticum frá Apótheki. Af Hellunodra má búa til ſaft, eins og af Róſum §. 45, ſem góð er í þeſsum og fleirum tilfellum; ellegar enn þá betra þannig:

Tak: Helluhnodra 16 lód, ſkér ſmátt og ſet á 4 potta af gódu Ediki, lát ſtanda á í 8 daga, ſía ſvo edikid frá, og geym í vel tilbundnum floſkum.

Tak aptur afſkúmad Hunáng 15 lód, Helluhnodra-edik, ádurſagt, 6 lód, ſjód þetta tilſamans í glaſserudum leirpotti, med hœgúſtu ſudu, þángad til þad verdur eins og þynnra lagi Sýrop og geym á floſku.

Verdur þad á bord vid marga hverja Brjóſt-ſaft, og brúkadiſt, morgum til nota, af ſáluga Landphyſicus Jóni Sveinsſyni, eptir og í Eldqvillunum árid 1783.

skipum frá útløndum. Menn þykjast og vita, ad þau børn, sem hann eittsinn fengid hafa, fái hann ecki aptur, eins og almennt gengur med Barna-bólu. Pad sjá menn og, þegar hann gengur, ad hann grípur marga fullordna, liggur miklu þýngra á sumum enn sumum, er annannhvern dag verri, já, 4 eda 5 daga gódur á sumum, hverja hann hafdi ádur lengi þvíngad, en kémur vid litla yfirsjón aptur, varir þá lengi og er hardur vid þá, hann þannig qvelur. Bædi maga- og andarteppu-hósti, eru svo ákafir, ad børn ná varla øndinni, halda sér jafnvel daudahaldi í hvad, sem fyrirverdur, þrútna og blána í andliti, og opt springur blód af vitunum; í andarteppu-hósta ýlir eda lætur svipad hanagali í manni, þegar andinn lokfsins næst ad sér. Peir, sem fá møg mikinn andarteppu-hósta, og ecki brúka nein medøl vid, bera opt menjar hans møg lengi, og hafa lengst af þurrt hósta-kjøltur. Uppgángurinn frá brjóstinu er á sumum møg lítill, en á sumum fyllist bædi háls og qverkar med seiga og slímfulla vilsu.

## §. 48.

Hér vid ega menn ad brúka øll hin sømu medøl, sem ádur er sagt vid Magahóstanum; bædi uppsølu og púrger-medøl egu her, í hid minnsta, hvern 14da dag ad ítrekast, jafnvel uppsølu-medalid 4da hvern dag*), og

*) Yngri Læknar ráda til uppsølu annanuhvern dag í øndverdu sjúkdómsins, og fyriskrifa, ad 1 gran af Uppsølu Vínsteini sé látid renna í 2 matskeidum af hreinu vatni, og barni ýngra enn 2ja ára géfnar þaraf 3 theeskeidar í 1 matskeid af sætu theevatni, en ældra barni 5 theeskeidar, og 2 meira fyrir hvert alddurs ár frá 3ja. Vilji ecki verka, má bæta 1 eda 2ur theeskeidum á, þángad til verkar. Pessu er óhætt ad framhalda, ef þarf, á adra viku. Gott er og ad nýa nockru af svo kolludu

øllum blódríkum er blódtaka ómissandi, einkum þeim fullordnu, hverjum optlega má blód taka 3svar eda 4sinnum, því pad er í øllum þeim, er þenna sjúkdóm hafa og eg hefi blód tekid, furdanlega þyckt og slímmikid. Auk þessa er Kínabørkurinn í øllum þessum tilfellum hid ágætasta medal, hvar af fullordnum sé géfid hálft qvintín 3svar eda 4sinnum á dag. Ungbørnum er bágt ad géfa þetta medal, á medan hráblaut eru, en í þess stad má setja þeim stólpípu, þá dagana, sem þeim er skárra, en hina ecki, og sama er ad segja um adra, sem taka þad inn, ad brúka ena sømu reglu *).

## §. 49.

Í sérhverju því tilfelli, sem lúngun eru full af ofmiklu slími, sem brádlega kynni orsaka køfnun, svo sem í Køfnunar-hósta (Catharro suffocativo) **), eru uppsølu-medølin ómissandi, ásamt stólpípum, hverjar engum er vorkun ad hafa sér vid hønd, og setja þær jafnvel 3svar eda 4sinnum á dag, med ríflegu

Uppsølu Vínsteins Salve (ungv. stibiatum) inn í hjartagróf barnsins, hvaraf koma smáblødrur eda kaldavera. (Sjá Klpóst. 1825 bls. 111.) P.

*) Í grófum andarteppum eru þau svo kølludu Moschus-eda Des-púlver, einkar gód á eptir uppsøluna; þau fást frá Apótheki eptir No. 7 í Recepta-list. Þessi púlver ega ad géfast inn 1 skamtur annannhvern tíma, en bædi þetta medal og Kínabørkurinn, mun fátækum finnast nærsta dýrt. P.

**) Þad sem enir eldri Læknar nefndu þessu nafni, sýnist vera samanblandan af ádurnefndum andarteppu-hósta, edur og brjóstveikis tegund þeirri, sem ýngri Læknar kalla Asthma convulsivum, med almennum qvef- og hæsis-hósta, má þad skilja af því rádid er ad brúka, hvar á ecki verdur ødru bætt enn aflaungum Spansflugna-plástri, løgdum á bríngu-beinid. P.

salti, svo lengi sem hóstinn er mestur á ferdum, og fjødur vættri í olíu eda lýsi, géta allir brúkad; þad kostar ecki nema adgætni, náqvæmni og uppápøssun, en gèfur þó mørgu úngbarni líf, er ella mætti deya. Í øllum þvílíkum tilfellum, er þunn, hrein og ósúr mysa børnunum yfrid holl, en mjólk þar á móti skadleg a). Því fljótara sem bót verdur rádin vid øllum sjúkdómum, svo vel barna, sem fullordinna, því léttara veitir þad. Ad núa brjóstid med ullar-tøyi, sem ádur sé heitt vid elld, og líka svo sídur og herdar, er rétt gott. Kaplamjólk er í øllum brjóstsjúkdómum óhætt og gott medal, því hún er bædi þunn og tær og yfirgengur lángt kúa-mjólk, sem hér er, eins og ádur er sagt, ofþyck og kostmikil.

a) Þad er skadlegur þánki á medal fólks, ad þad meinar ad sjúklíngar fái ecki lifad, er ecki fái eitthvad kostgott í magann á degi hverjum, eru því bædi børn og fullordnir þvíngud til ad eta og drecka eitthvad þvílíkt á medan þau fá uidurrennt, þeim sjálfum til þess meiri skada og qvalar, sem sjúkdómurinn er hættulegri. Annad er þessu líkt: menn meina sjúkir, sem ecki borda kostugann mat, þurfi ecki daglega vallgáng ad hafa, og meta því, øll búkhreinsandi medol til einkis annars nýt, enn einúngis til ad þyuna og úthreinsa þau hordu saurindi þarmanna í eitt edur annad skipti; en ad þeirra verkun til ad þynna og hreinsa og burtfæra skérpu og adra óhollustu úr blódi og sostum, gæta færstir, og því munu þeir þykjast hafa aflokid skyldu sinni, er setja stólpípu einusinni á dag; èn þad er fráleitt því, er á ad gjørast, eins og ádur er sagt í þeim tilfellum, hvar þad ætti ad ske 3svar eda 4sinnum ef hrífa skal.

## §. 50.

**Um hjarta-spenníngu Barna*) (Tabes abdominalis).**

Hjartaspenníng kalla eg þann sjúkdóm barna, í

*) Þetta kallar nú allþýda blátt áfram: Bríngsmala-

hverjum þau þyckna um bríngsmalirnar, ſlagbrjóſkid, og nedſtu rif í ſídunum gánga út, þar med fylgir órói, hiti, ſvefnleyſi. Hér á móti kann madur ad brúka uppſolu-medalid §. 23, og púlverid §. 16 med ſeydi af Vallhumli, ſvo barnid hreinſiſt vel bædi upp og nidur; þar eptir má géfa barninu nockra dropa af Anís-olíu*) á ſmáſteyttu hvítu ſykri, og núa þad jafnadarlega yfir hrygginn og um bríngsmalirnar med volgum prjónaſaum; þad reyniſt og gott, at leggja vid bríngsmalirnar heitt braud, ſem bakſtur, ellegar gjøra bakſtur af Vallhumli, Einirberjum og Blódbergi til ſamans ſøxudum, ſvo og í millum ad ſetja ſtólpípu af Vallhumals-ſeydi med ſmjøri.

## §. 51.

### Um Gulu á Bǿrnum (Aurigo infantum).

Hún þeckiſt almennilega af þeim gula lit, ſem hørundid fær og þad hvíta í augunum; þvagid verdur þyckt og litar hvítann pappír gulann; ſaurindin eru hérhjá hvít edur ſvørt, ef børnin eru mjøg úng. Hér vid brúkaſt medalid §. 10 til ſkiptis med púlverinu §. 16**) nockra daga í rød.

veiki, er tídum ſnýſt uppí meinlæti (ſulli eda graftrar-mein hér og hvar í líſinu), nefnt med nafninu ótímgun í Isl. Lærd. l. Fél. R. 15 B. blſ. 139, og náſkyldt þeim hér eptir í §. 61 umgétna ſjúkdómi. Sjá enn fremur §§. 69 og 216. P.

*) Odýrri og fullt eins gód er Rosmarin-olía, 4 til 10 dropar. P.

**) Tilbúid Skéljapúlver (conchæ præparatæ Ph. D. 1772), eda fínt ſkafin krít, er í ollu falli eins gott og Magneſía, en helſingi ódýrri. P.

## §. 52.

### Um Munnsvida, Munnbólur (aphtæ).

Þetta er sjúkdómur einn, sem lítid er umhyrdt hér á landi, en rædur þó margt úngbarn af døgum, ecki sídur hjá oss enn ødrum þjódum, þegar hann er rétt megn. Munnsvidi er ad sønnu álitinn sem nockurskonar qvilli, en hann kémur þó aldrei nema þar, hvar maginn er óhreinn og vetzarnir skarpir; því er ávalt naudsynlegt ad hreinsa inníbli þeirra, er hann heimsækir, hvert þeir eru úngir eda gamlir; hér meinast eginlega sú hvíta skorpa, sem Danir kalla Trødske, og úngbørn allopt fá, helzt á túnguna, og opt verdur ad leidinlegum munnsvida; og sé þeim þá géfid medalid §. 51, þar til verkar nógann vallgáng; þeim sé og géfinn þunnur dryckur ad jafnadi, þar til heil eru; munnurinn sé ydugleag pensladur eda þveginn med sterku seydi af Sortulyngi og Rósa-hunángi samanbløndudu, edur Alúni og Kandís-sykri til helfínga í rjóma uppleystu*).

## §. 53.

Munnbólurnar eru almennastar á børnum, í hverjum tannholdid, túngan og gómurinn verda full med smábólur, sem annadhvert eru hvít- edur gul-leitar; því færri, sem þessar bólur eru, því léttari er sjúkdómurinn og hægri vidgjørdar, enn því fleiri, holóttari og døckleitari þær eru útlits, því heldur, sem þær hindra børn-

*) Þegar álúnerad skinn, er bestillt fæst hjá útlendskum, er brúkad í pípuvaf barna, og skipt um þad eptir þørfum, verdur sjaldan vart vid þetta. Gott er og ad fínmylja saman 20 grøn af Burísi og hálft eda heilt lód af hvítu sykri og sá því á pípu-trafid vott, edur og svo nefnda Tátu edur Sugu barnsins, þegar hún er brúkud. P.

in ad renna nidur edq nærast, og þess sjúkari; sem þessir smælíngjar eru, því hættuligar eru þau stødd og bída opt daudann, af því allur hálsinn ad innan, vælindid, já, hin gjørvalla renna næríngar gángveganna verdur fullsett af þessum smáu bólum og blødrum; þar med fylgir hixti, uppsala og búkhlaup, í hverju mjólkin gengur ómelt frá þessum sjúklíngum. Stundum eru børn undarlega hás, hvad heyra má á hljódum þeirra eda veini, þau eru óspøk og sóttveik. Í þessu tilfelli má þeim eckért búkhreinsandi medal gésast, því vita má þad, ad sé mesti partur inniblanna þakinn med bólum þessum, þá kann búkhreinsanin olla daudlegum tilfellum. En þá er sjest hrúdurinn, sem kémur ofan á bólurnar, bædi í munninum og annarsstadar, gánga burt í saurindunum, þá er fyrst tími til ad gésa lina búkhreinsun.

## §. 54.

Séu munnbólurnar ecki mjøg miklar, ecki heldur illa artadar, gésist børnunum medalid §. 10, og barnapúlverid §. 23 eda §. 16, og gód, ósúr, med lifjum yst mysa ad drecka. Sé barnid mjøg veikt innvortis, og hasi mikid búkhlaup og innantøkur, þá séu tekin Fjallagrøs*) og límsodin í hreinu vatni, sii þau sídan frá og blandi vid seydid þridjúngi af mjólk og láti ennþá sjóda lítid. Þetta Grasa-seydi á ad gésast barninu smámsaman; þad linar verkjum og tekur burt eymsli innvortis; þar vid er gott ad blanda nockru af Rósahunángi, jafnódt og inn er gésid. Til ad hreinsa og þvo munninn, er Salvíu-vatn med Rósa-hun-

*) Á sama hátt má brúka svo kallada Engia-skóf, Geitaskóf og einkanlega Jardar-skófina (Lichen aphthosus), sem barnfóstrur í Svíaríki láta liggia í barns-mjólkinni, vel hreinsada ádur. P.

ángi gott. Að miklu leiti mætti koma í veg fyri sjúkdóm þenna, ef barnfóstrur hefði athygli á opt og tíðum að skoða uppí børnin, og undir eins og sæu þar nockra bólu eða hvítann farða, gæfu børnunum inn þau meðøl, sem við munnbólum ega að brúkast og áður er um talað.

## §. 55.

### Um Krefðu Barna (Crusta lactea).

**Krefða**, er útsláttur á høfði barna, með miklum hrúðri, vot augu, bólgnir eða harðir háls-kyrtlar og eyrna-særi, eru alltsaman á landi hér algengir barna-sjúkdómar, jafnvel þó þau børn finnast kunni, sem mjøg lítið fá af þvílíku, þá eru hin þó langtum fleiri. Skarpir vetzar og óhreinindi í þeim eru orsøk hér til, og koma opt af ofmikilli og ofkostugri mjólk, sem børnunum er géfin, hvar um áður talað er. Krefða er sá útsláttur, sem kémur, eins og áður er sagt, á enni, á kjálka og á andlit, jafnvel allann uppkroppinn, og fylgist þá optast með, að háls- og hand-kyrtlarnir bólgna mjøg, þá krefðan er mikil, hvar af børn verða óspøk, þvílíku fylgja og ætíð eymsli og sárar tilfinníngar*).

## §. 56.

Það er ecki svo mjøg að lasta, þó ecki séu brúkuð mørg meðøl, á meðan børnin eru sem ýngst, en þá er þau vyrðast til þess fær, og þeim verður hæglega komið til að drecka það, sem ber, má einusinni í viku géfa þeim **Barna-púlverið** §. 23, með eins mørgum grønum af sætgjørðu **Qvikasilfri** (Calomel)**), sem barnið

*) Ur þessu verður hér tíðum veiki sú, er kallast **Kyrtla-krøm** (Scrofula), sem traudla er læknanleg þá mögnuð er orðin. P.

**) Aðgæt Skíríngar-gr. við §. 18. P.

er gamallt til, en gánga þó ecki yfir 6 grøn, þó barnid sé eldra. Yfir þá bólgnu kyrtla skal leggja Gúmmi-plástur, sem annadhvert dreifir þeim, edur lætur grafa út, líka má flýta þeim til graftar med því, ad leggja vid þá volg lif, og græda sídan, ef út gjørir, sem opid kýli.

## §. 57.

Þad ber vid hér á landi, ad børnin verda húdlaus á mestøllum líkamanum, og rennur út úr þeim þunn vatns-glæta. Séd hefi eg barn eitt med þessum qvilla, og skal hér hin sama medferd brúkast, sem í fyrirfaranda §. sagt var, en til útvortis brúkunar er hin alþeckta Péturs-mold eda sá fíni Pottamakara-leir ólastandi *).

## §. 58.

Ecki skédur þad opt, þad tilveit, í sveitum, ad børn fái útslátt edur sár í kríngum munninn og jafnvel í nasirnar, er þeir Landphysicus B. Paulsson og Vice-Løgmadur E. Olafsson hafa kallad Munnkrabba; þó er þvíumlíkt ecki óheyrt í Nordurlandi eda annstadar, vídar enn á Alptanesi í Gulbríngu-Sýslu, hvar qvilli þessi er heldur ecki almennur. Þar, sem vart verdur vid hann á nýkløktum børnum, eru þau allt í módurlífi þaraf saurgud, hvartil foreldranna skémmda sædi hefir lagt grundvøllinn, og þetta hygg eg optastnær svo vera, því þau børn deya mjøg úng. Eg hefi vitad eins þvílíks barns vetza svo banvæna, ad þegar ljósmódirin, eptir landsvana, tók barnsins vit

*) Þetta er annad enn sá venjulegi hørundssvidi barna, sem mest kémur af hyrduleysi, og allir þeckja, hvar vid brúkast sífeldur þvottur úr køldu vatni. P.

med munni sínum, kénndi hún sársauka í nedri vørinni, hvar eptir hún mátti mikla þjáníngu lída, en af barninu rotnadi nockurr partur andlitsins, ádur þad deydi, er þó skédi innan 14 daga. Í þesskonar tilfellum er lángt frá eg rádi til nockurra medala, sem øll vildu verda til ónýtis. En ljósmædur ættu varlega ad taka med munninum vit barna, nema því ad eins þær hefdu líknarbelg fyri sér *).

## §. 59.

Þegar útsláttur þessi kémur laungu nockud eptir fædínguna, og lítur ecki mjøg ílla út í fyrstu, má tilgéta ad þvílíkt komi af óhreinum og skémmdum maga og þaraf uppstígandi bítandi dømpum, hvar vid brúka mætti fylgjandi medal:

Tak: 10, 15 til 20 grøn af steyttri Jalappa-rót, sjód í litlu víntári, sía sídan frá; þetta gjørist sætt med sykri og géfist inn smámsaman, þartil vel verkar búkhlaup.

Vilji hér vid ekért skipast, brúkast ádursagt púlver §. 56, og þess í millum púlverid §. 16; útvortis má brúka lítid af bláu Victríli (Victriola de cypro), uppleyst í Meyran-vatni (Aqua majoranæ) 2svar á dag til áburdar. Í þessari tíd á barninu engin mjólk ad géfast, og heldur ecki feitt, heldur einúngis gód mysa og lítid af sodnu braudi.

---

*) Þegar fyrstu tennur barna eru, sem fólk kallar, Bruna-tennur, er ecki lángt frá átu géti þaraf leidt; á því strax ad brúka Uppsølu medal, jafnvel nockrumsinnum á vikufresti, og géfa barninu mest dryckjar mysu. Varlegasti og hreinlegasti máti, ad hreinsa vit nýfæddra barna, er kénndur í ádur §. 1 nefndu litla Riti, um Léklitil børn. P.

## §. 60.

Þegar børn géta ekki látid þvagid, er gott ad taka óelta ſaudar-blødru, fylla hana af volgu vatni og leggja nedarlega á líſid milli læranna. Sé vatnsgánguriun ſamangróinn, má tafarlauſt kalla þar til Læknir.

## §. 61.

### Um Uppþornun Barna (Atrophia).

Þeſsi ſjúkdómur er nákominn orma-ſjúkdóminum og honum opt ſamferda. Hann þeckiſt þar af, ad holdid á øllum líkamanum viſnar, þornar og veſlaſt upp, einn dag eptir annann og kraptarnir þverra jafnódum, en líſid vex og hardnar. Þeſsi uppþornan byrjaſt fyrſt á handleggjum og fótum; andardrátturinn verdur ørdugur; matarlyſtin þverrar og verdur ójøfn; liturinn blár og bleikur; maginn er uppbláſinn, hardur áþreifíngar og ſtundum hnútóttur. — Stundum hafa aumíngjar þeſsir engar eda litlar hægdir til bakſins, ſtundum mikid búkhlaup; maturinn gengur hálf- eda ómeltur burt; þorſtinn er mikill; ſvefninn er órólegur, og þeſsi þjáníng endaſt med daudanum.

## §. 62.

Sá engelſki Sjúkdómur (Rachitis, Beinkrøm) á børnum og ſá næſt á undan nefndi, eru mjøg líkir, því bádum fylgir líkamans ſjúkdómur og uppþornan med máttleyſi; en þá ſkilur þetta: í hinum fyrra er líſid hardt, uppbláſid og jafnvel hnútótt, ſem er venjulegt audkénníngar teikn. En í þeim engelſka ſjúkdómi er opt hrygguriun boginn og fæturnir, lidamótin þrútin og fyriferdar mikil.

## §. 63.

Uppþornunar-sjúkdómur kémur opt þaraf, ad børnum er géfin ofmikil mjólk eda annar matur, sem maga þeirra er ofþúngur, svo sem er eptirmjólk og rjómi; líka af órækslu, og stundum er það erfda-veiki frá foreldrunum*).

## §. 64.

Undir eins og vart verdur vid sjúkdóm þenna, er mjøg naudsynlegt ad géfa børnum þunnar súpur, mysu, kaldt vatn mjólkurblandad; bada þau fyrst í volgu vatni rétt upp til bríngsmalanna, en sídan í hálfkøldu og jafnvel í køldu vatni sídast; edur og núa þau qvøld og morgna med lérepti, undnu uppúr køldu vatni, láta þau laxera hvern 8da dag med Laxer-víninu §. 59, eda med Laxer-olíunni No. 4, ellegar og Saftinni No. 3 í Recepta-listanum, hálfri til heilli theeskeid í senn, eptir barnsins aldri. Ad sjóda Wallhumal í dryck þeirra, er ecki ad lasta; þeim er og gott í millum nockud af Raudavíni, þar þad er ad fá. Hreinlæti og hræríng í góda og hreinu vedri, er þeim holl. Eptir ad þau eru núin, má bera á bakid Kamille-olíu (Oleum chamomille), edur samsudur af Wallhumli og Blódbergi. Yfir hofud ad segja: ber ad leita reynds Læknis, bædi í þessu og fleirum vandasømum tilfellum, og aldrei forsóma þad, sem kostur er á, strax í upphafi sjúkdómsins.

## §. 65.

Sá engelski sjúkdómur, sem um er talad, hvert hann er nú annad enn mjøg møgnud Uppþornan, læt

*) Þessum qvilla er fyri nockrum árum ránglega af nafninu til, slengt saman vid Barna-sjúkdóminn í Vestmannaeyum, hver allir vita ad ecki er **Rachitis**. **P.**

eg ósagt, edur hverſu lengi hann heſir verid hér í Nordurálfunni; hitt er nockurnveginn víſt, ad hann er fyrſt adgættur á Englandi, og hinn fyrri ſjúkdómurinn umbreytiſt opt í þennann, hverr ed þeckiſt af því ádur er ſagt §. 62. Paradauki er høfud þeirra barna, er hann fá, fyriferdar meira enn vera á. Hálsædarnar eru þrútnar; yfirliturinn bleikur; rifin og brjóſtbeinid hnýta; andardrátturinn verdur þúngur; beinin bogin, og ſtundum ſvo blaut, eda ſem brunnin*) ad þau brotna af litlu tilfelli, rétt eins og vel súrsud fénadar bein; ſkinnid liggur lauſt utan um beinin; vodvarnir hafa nærſtum engann krapt, géta því aumíngjar þeſsir hverki ſtadiv né gengid. Ofan á allt þetta fá bornin tærandi sótt (febris hectica), er brádum dregur þau til dauda. Þeim, ſem ecki eru í læknis-kunnſt æfdir, er varla unnt ad lækna þenna ſjúkdóm, og ſjaldan enda Læknirum; þó vil eg meddeila hér nockur heilrædi:

§. 66.

Allt þad, ſem orſakar orma og uppþornun, kann og ad valda þeſsum ſjúkdómi; þyck, kreptug og ſúr mjólk, ſuddi og óþockaſkapur, þar børnin eru, ſvo og allskyns fýla og ódaun, kuldi og votir leppar, ſem bornin megu liggja í, og margt annad þeſsu líkt; ſømuleidis eru og foreldranna ſpilltu vetzar opt orſøkin; ſé nú ecki í tíma komid þeſsum ſjúkdómi til hjálpar, þá er hann ólæknandi.

§. 67.

Þeſsum veſælíngum verdur ad halda þurrum og hreinum; hús þad, í hverju þau eru, ſé ydúglega reykt med

*) Hvar fyrir Læknar nú géfa honum nafnid Beinkrom (mollities ossium), og telja ſérlega ſúrſkérpu, ſem ſetur ſig í beinin, nærſtu orſøk hans. P.

Einirlimi eda Næfra-berki; yfir þeim reyk sé prjónasaumur reyktur og velgdur, og þau þar med núin frá hvirfli til ilja. Fordast skal ad géfa þeim opt þad volgt er, eda mjølmat, ecki heldur feitt né þad, sem brádlega súrnar, og hverki mjólk né mysu. Súpur af møgru kjøti, rjúpna og fleiri landfugla, sømuleidis annara ætra sképna, sem gras eta, má þeim géfast; þó er þad ecki sídur, í mjøg litlu feitu vel steikt; sama er ad segja um alla steikta smáfugla: kaldt vatn med víni er rétt gott medal, edur og einsamallt vatn, jafnvel kaplamjólk. Af braudtagi er hveitibraud hollast, sé þad vel hardt og ómyglad. — Hinn nafntogadi svenski Herra af Rósenstein, sem skrifad hefir bók eina um Barna-sjúkdóma*), géfur þad rád: ad taka 1 lod Pottøsku (cineris clavellati), sem kaupast skal á Apótheki, láta þad í 1 pott vatns og géfa børnum þar af, eptir aldri, 4ra morgna í rød 20, 40, 80 til 100 dropa í køldu vatni; adra 4ra morgna géfist þeim eckért þaraf, fyrrenn ad þeim lidnum, þá aptur eins í 4ra morgna, og þessum hætti skal sem lengst framhalda. Héradauki kaupist Pillur, eptir No. 8 í Recepta-listanum, frá Apótheki. Af Pillum þessum géfist 4 í senn 2svar á dag, litlu eptir ad barnid nærist. Pillurnar séu látnar í vel tilbundid glas og geymdar í úthýsi á milli þess brúkadar eru. Fyrir utan þad, sem ádur umtalad, ad núa børnin med reyktum, volgum prjónasaum, séu þau þess á millum núin, sem segir §. 64. Ad sjóda Vallhumal og Blódberg í vatni, og géfa børnum, ásamt Kaplamjólkinni, er rétt gott; sømuleidis Grafa-

*) Þessi ágæta Almúga-bók er á Donsku snúin af Dr. Medic. P. Chr. Abildgaard, og prentud i Kaupmannahøfn 1769. P.

seydid §. 54, einkum þá børn vyrdast vera í aptur-bata, ásamt enum køldu bødum, sem ádur er til-rádid í §. 64.

§. 68.

### Heilrædi um Barna uppfóstur.

Af øllu því híngad til sagt hefir verid, nærígu barna vidvíkjandi, má sjá, hversu naudsynlegt þad sé, ad géfa børnum af gódum skamti, og venja þau strax frá fæd-íngunni, ad drecka á vissum tímum, en aldrei mjøg opt, sízt á nóttunni; og er þetta víst audveldt, ef þar med er strax byrjad. Eg hefi einusinni adgætt, ad ljós-módir gaf barni 4sinnum ad drecka af eptirmjólk, strax ofaná fædínguna; en þvílíkt er háskalegt. Allir megu skilja, ad barnanna magi, sem á þeim tíma er mjøg óstyrkur, gétur ecki melt svo megna og mikla fædu. Menn segja hér til: barnid drecki ecki mikid í einu; þad er satt! en þau þurfa ecki mikils med, og þad litla af skornum skamti, er þeim miklu betra til nota heldur enn annad miklu meira. Þau kunna vel ad þýngjast og þríf-ast fyrst framan af, en þau léttast aptur fyrir þann muninn. Svo hefi eg vitad barn, sem vog viku gamallt 18 merkur, en 12 vikna 14, og eru dæmi þessi ofmørg, ef þau skyldu tiltínast. Nockrir meina: ad kúamjólk vor sé skuld hér í, og egi því ecki ad géfast børnum, sakir hennar óhullustu, en þad er ecki svo hægt ad sanna; til medferd á henni gjørir óhullustuna, hvar um hér er ecki verdt meira ad tala. Konur skyldu velja mjólk undan þeim grip, sem þunna, kostlitla og létta mjólk gæfi og skammt væri frá burdi; hún skyldi í fyrstu blandast litlu, sládu vatni jafnódt og hún kólnar. Ad blanda rjóma vid dryck barna, er skadlegt. Ad breytla

margar kýr eptir handa børnum, er ílla gjørt. Ad neyda børn hvert skipti, er þau hrína, til ad drecka, ber øllum barnfóstrum ad varast, og vita skulu þær, ad børn gráta sjaldnast af sveingd, heldur af qvøl þeirri, er þau fá innan um sig af ofmiklum mjólkurdryckjum. Þegar þau verda snøgglega óspøk, er best ad géfa þeim volga mysu, uns þau verda vel hreinsud, eda einhverja umtalada búkhreinsun, sem eydi súr og slími. Ad børn séu látin totta fisklifur, vafda í ríu, med ødru fleira, sem aumíngjar í sjóplátsum neydast máské til ad gjøra, ætti hardlega ad bannast. Barnfóstrur ega af øllum kroptum ad fordast allt óhreinlæti og varna allri fýlu, med því ad brenna hjá sér og barninu ydduglega Einirberjum, Einirlimi, Reykraberki, Harpixi edur Lacki. Ad barnfóstrur séu látnar tyggja í børn, hversu vænar konur, sem þær annars vera kynnu*), ætti aldrei ad ské; því þótt skadsemi þess verdi ecki strax opinber, kémur hún þó engu ad sídur framm vid barnid eptir lángann tíma. Konur géta haft nóg rád til þess ad skéra og steyta þad, er þær vilja géfa børnum, þó ecki tyggi þær þad. Vaxin børn, sem alla æfi þeirra hafa

*) Ørdugt mun verda ad koma þessum vana af hér á landi hjá fátækum einyrkjum, eins og hinu, ad géfa børnum Sugu eda Tátu; þetta gétur ecki heldur skadvænt ordid, veldu menn fyrir barnfóstru og til ad tyggja í þau, úngann, gódlyndann og vetzahreinann qvenmann, sem á undan ætti vel ad skola munn sinn og tennur í hreinu, køldu vatni. Ad láta gamla, heilsulausa tannfellínga og gamalmenni tyggja í børn, eda hafa þau í rúmi hjá sér, er hættulegra, enn í stuttu máli verdi útlistad. Dýrmætustu hugvekjur þessu vidvíkjandi og fleiru vid barna medferd, hefir hinn aldrei oflofadi mannvinur og Læknir Húfeland géfid í bók sinni: Um vidhald ens mannlega lífs, sem af Þýdsku er á Dønsku snúin og prentud í Kaupmannahøfn, árid 1800. P.

verid vanin til ad eta á vissum tímum, halda því lengi, og ekkért er, sem hindrar þad, nema sjúkdómar, þá verdur ad breyta þeim tíma og géfa þá enga kostuga fædu, hvar um ádur er talad. Hér á landi hefir eg sjed þau børn, er eptir litla stund lidna frá almennri máltíd, hafa komid til mædra sinna, heimtad mat og etid nockra bita í einu, og þetta hefir gengid allann daginn, samt og ádur hafa þau øll verid megri enn hin, sem almennilega hafa matar neytt á vissum tímum. Sum af þeim hafa haft orma, og þar um er eg opt sannfærdur, en sum súr og slím í maganum, í hverju ad sønnu ecki hafa sjest ormar, nema saurindin hafi stadid nockra daga, þá hefir í þeim sjest ótølulegur fjøldi þeirra. Øllum þessum hefir skánad vid hentugt búkhreinsandi medal móti ormum, einusinni eda optar inntekid. Þeir, sem vanir eru ad maka nýfædd børn med smjøri, í þeirri meiníngu, ad þar styrkist þar vid, viti fyrir víst, ad þvílíkur vani er framar til ad gjøra þau vesæl enn sterk, og gétur ad sídustu fellt þau í ádur umtalada sjúkdóma edur og adra; því þad teppir svitaholurnar og hinn fyrr umgétna ómerkjanlega hørundsdampa, nema børnin séu þess á milli yduglega þvegin í sápu-vatni, hversvegna þeir, sem þad ecki vilja, hætti þvílíkri ydju, en taki upp adra þénanlegri, einkum yduglegann þvott í søltu edur sjóvatni, sem því hollari er, sem skémur á honum stendur um sinn*).

*) Ljósmædur, húsmædur og mædur má sannlega álíta kynsins fyrstu og helztu máttarstyttur, þar audsært er af øllum þessum kapítula, ad medferd úngbarna sé velflestra hér upptalinna sjúkdóma undirrót, en landi og lýdum er þó ecki þént med mørgum, heldur med hraustum innbyggjurum. O! ad þessar 3 mædur því vildu læra ad elska med skynsemi, ad elska, ecki einúngis med ordi og túngu, heldur verki og sannleika. P.

## §. 69.

### Um qveisu á uppvaxandi úngdómi.

Það er mjøg almennt hér á landi, þegar børnin eru 6, 7, 8 til 11 vetra, þar í millum og svo líka elldri, að þau fá hviður fyrir lífið, er fólk kallar Qveisu. Þessi litli qvilli er af mørgum einkis metinn, og hversu opt, sem hann kémur, og engra bragða viðleitað í fyrstu; en það er mikil yfirsjón, því þetta tilfelli kémur aldrei nema af óhreinindum, súr og slími í inníblunum hjá þeim únglíngum er mest lifa af mjólk. Með þessu fylgir matleiði, høfuðverkur, velgja og lítil uppsala sé qveisan mikil. Þessi tilfelli aukast með aldrinum, og koma hvað eptir annað; en með því þau eru lítils metin, og allfáum vorkénnt qveisa, qvarta sum børn þar sjaldan um. Á 10da, 11ta og 12ta ári taka þau loksins til að þyckna um bríngsmalirnar (sjá §. 216). Stúlkubørnin missa síðan lítið eða eckért blóð, þótt aldur hafi til fengið, og bæði karl og kona verða æ heilsulinari og vesælli, er þá hlaupið til blóðtøkumanna, hverjir tafarlaust eru fúsir á að úthella blóði. En þessir aumíngjar verða smámsaman ómagar og deya loksins úr meinlætum. Það er øldúngis víst, að fjøldi þeirra, sem á úngdóms árum hafa qvalist af qveisu, verða eptir á meinlæta sjúkir; það er: sumir fá bólgu og þrota í lifrina, aðrir í miltið, þriðju í ristil-kérfið, nockrir í maga-kyrtilinn og verða síðan vatnssjúkir, eða og holgrafa allir innan (sjá §§. 183 og 199). Um sérhvað af þessu, er ecki minn ásetníngur hér að tala; hins vil eg géta: að í øndverðu, þá børn qvarta um qveisu og innantøkur (hér meinast ecki búkhlaup), ættu allir, sem fyrst, að leita þar meðala við, hvar með opt hindrudust þúngir og dauðlegir sjúkdómar, og það án mikillar mæðu og

kostnadar. Hér til eru øll hin sømu medøl hentug, sem ádur eru talin, ad ómálga børnum skuli gésast í þessum sama sjúkdómi, í §. 27, nema hvad hér má brúkast lángtum stærri inngift eptir aldri og ásigkomulagi barnanna; og þar fyrir utan, ad eptir því, sem børn þessi, er hér um talast, eru elldri og vidrádanlegri, þá kunna þeir, er rád hafa á stórum og gódum Fjallagrøsum, ad taka þaraf gódann hnefa, frekar 2 matskeidar, eda, sem þeim svarar, af almennu salti, og 1 lód af hunángi, láta þetta í hreinann leirpott og hella yfir frekri hálfmørk af sjódanda vatni, hræra lítid í, þekja sídan pottinn og láta standa þar til kólnar*). Þetta skyldi gésast únglíngum snemma morguns, annadhvert allt í einu, eda nockud þar af, eptir alldri þeirra; þad hreinsar búkinn, burtfærir slímid og dreysir þeirri uppstoppun, sem ecki er mjøg møgnud. Søl og Fjørugrøs, eptir ádursøgdu tilbúin, ad frátekuu saltinu, hafa ena sømu verkun, og mega af øllum þeim ad ósekju brúkast, sem búa vid sjásarsídu, nockud lítid afvøtnud, søxud og þurkud. Sé túngan óhrein, íllur smeckur í munninum og aumleiki fyrir brjósti, er einka ágætt ad géfa þeim eitthvad hér ad framantalinna medala til uppsølu, ádur enn þeim væru géfnar þessar grasasaftir, og ætti ecki ad vanrækjast ad naudsynjalausu.

*) Maríu-vøndur (Gentiana campestris) er og ágætur vid þessari únglinga qveisa, druckinn sem thee. (Samanber Skír. gr. vid §. 157.) P.

4*

# II. Kapítuli.

## Um qvennlega Sjúkdóma.

### §. 70.

**Um mánada-hreinsun Qvenna** (Menstruatio).

Allt þad eg hefi hér ad segja um ónáttúrlegt ástand mánada-hreinsunar edur klædafalla qvenna, er innifalid í 4um fylgjandi greinum; því annadhvert koma þau óreglulega í fyrstu edur ecki; þar næst vita menn af reynslunni, ad þá, er þau hafa eitt sinn komid, eptir náttúrlegum hætti, halda þau ecki réttum tíma, eda koma ecki aptur og hætta ad øllu leiti; þau kunna einnig, sem menn kalla, annadhvert standa med qvennfólki, edur vera ofmikil. Um sérhvad af þessu vil eg fátt eitt tala.

### §. 71.

Þad er af Gudi áqvardad, ad qvennfólk skuli bera børn í skauti sínu; þar skulu þau um víssann tíma nærast og vaxa, og því eru þær undirorpnar tédum blódlátum, hver eginlega álítast kunna eins og brunnur, af hverjum børnin uppausa tilveru sína og vøxt í módurlífi. Almennast hygg eg blódlát þessi byrji hjá stúlkum hér á landi í fyrstu á 14da ári og þar eptir til þess 20ta. Nockrum tíma ádur þetta skédur, eru flestar stúlkur veiklulegar, sumar meira, adrar minna, vid hverju allt offljótt er leitad ráda til óforsjálla manna, er strax úthella blódi, án þess ad þenkja útí hvern skada sú blódtaka gjørir. Strax, sem lidid er hid 14 ár qvennfólks aldurs, meina fleirstir, ad allir þeirra sjúkdómar komi þar af: ad þær þá **ecki hafi fengid tídir sínar;**

en þetta er opinber villa; margir þeirra koma optlega af náttúrlegri — og eg voga ad segja — naudsynlegri óhreisti, er qvennfólki þá ad réttu lagi fylgja ber, og því er aldrei hægra ad gjöra þeim óbætanlegann skada, enn á þessum alldri, þegar klædafølllin skulu fyrst koma, og svo eins, þegar þau, eptir edli náttúrunnar, øldúngis hætta.

## §. 72.

Qvennfólksins kjøt-þrædir (Fibræ carneæ), eru þannig tilbúnir, ad þeir kunna, einkum í móburlífinu, bædi ad kreppa sig saman og togna útyfir, ecki einúngis heilt fóstur, med øllu tilheyrandi, heldur jafnvel fleiri; yfir høfud eru þeir mýkri, lausari og linari í þeim, enn karlmønnum, og því er blódsins umhlaup hjá qvennfólki mikid lidugra enn hjá karlmønnum, eins og blód þeirra er þynnra; vetzar þeirra kunna og heldur ad skémmast í inníblunum og stýflast þar heldur enn hjá karlmønnum. Þetta er allopt orsøkin, hvers vegna klædaføll ens elldra og ýngra qvennfólks verda óreglu-leg og stemmast. Dæmi nú allir skynsamir, hvad blódtaka muni verka í þesshátttar tilfellum! mun hún ecki verda til eintómrar fordjørfunar? því eptir blódtøkuna verdur blódsins umhlaup miklu minna enn ádur (sjá §. 275); þad missir hér vid sína eginlegleika ad mestu; vetzarnir spillast; líkaminn verdur óhæfilegur til allra náttúrlegra athafna; mattleysi fer í vøxt; þær verda þúnglífar; lítil hræríng gjørir þær ablvana, hver þó í øndverdu kunni ad vera medal til ad styrkja líkamann; matarlystin verdur lítil; þær fá smámsaman þá ónáttúrleguſtu þánka; magans verkanir trublast; matar meltíngin verdur hin lakasta. Í øllum þessum tilfellum er

blóðtaka — því miður! — hin einasta lækníng, sem gripið er til, en klæðaföllin koma þó ekki. Tvær eru orsakir þar til: 1) sá í øndverðu óhrausti líkami, er ofveikur orðinn til að géta framqvæmt þetta verk, og 2) eru engin klæðaføll í þeßu ástandi náttúrlig; þetta sanna eg með klæðafallanna egin náttúru: þegar qvenn-persóna nockur ecki er þúnguð, þéna klæðaføllin til þeß, þau skuli út-tæma það ofmikla blóð, sem qvennfólki er géfið til þeß, að þegar það verður ólétt, þá þurfi það ecki að næra fóstur sitt með því blóði, er það sjálft við þarf til sinnar lífsnæríngar. Nú er í áður áminnstum sjúklíngum, sem búið er, máské með hverjum straumi, aptur og aptur blóð að taka, engin ofur-gnægð af blóði, annars væru þær ecki ablvana orðnar, og því megu þær eckért mißa.

## §. 73.

Vel veit eg, að hín náttúrlega óhreysti qvennfólks, §. 71, kann, án nockurrar orsakar af blóðtøku að verða ofmikil, og þannig orsøk til þeß, þær fái ecki klæðaføll, samt villast þeir mikillega, sem tileinka þvílíkt ofmiklu blóði. Allt annað er um meyar þær, sem eru strax á únga alldri hraustar, holdugar, stórar og mjøg blóð-ríkar, þegar þær á réttum tíma ecki fá klæðaføll, þá or-sakar það þeim marghættaða mæðu, og øll þeßara harmqvæli verða miklu harðari enn hinna fyrri; hveru-tveggja géta fengið sérlega sjúkdóma, sem heimskíngjar eigna Konstra-mønnum, eða ætla þá Galdrakyns *).

*) Því er betur, að ímindanir þær fara óðum mínkandi, eins og Skáldið sagði: „aldin hjátrú út af deyr, „gjørníngum og galdra-list, gégna fáir „meir." P.

## §. 74.

Það er almenn plága á qvennfólki hér á landi, þó klædafollin hafi komid reglulega í fyrstu, hætta þau opt aptur. Fyrir utan ádurtaldar orsakir, kémur þad opt af kulda, sudda í sumum húsum, mikilli hrædslu, ofkøldum og ofþúngum mat, sárkøldum dryckjum, einkum þá líkamin er heitur, svo og af ofþúngu erfidi. Eg fæ ecki ordum adkomid hve skadlegt þad er qvennfólki, ad gánga til kirkju lángann veg, ellegar ad útiverkum í miklum snjó, frostvindi og illri færd, svo sem klædnadur þeirra er skjóllaus þar mest umvardar, þegar komid er nærri þeim tíma. Öll þau tilfelli, sem þessi tídastansan orsakar, eru miklu þýngri enn hin, sem koma af því, þó þær ecki í fyrstu reglulega komi, og fyrir lítla yfirsjón í mat og dryck, erfidi og þvílíku, verdur qvennfólk vort hér á landi hardlega straffad, þegar þad ecki gáir því betur ad sér um þann tíma, þá þess mánada-hreinsun er í vændum, endast eda yfirstendur*).

*) Ymislegt ástand og ørbyrgd lands þessa, gjørir mørgum qvennmanni ørdugt ef ecki ómøgulegt, ad fordast hér upptalin skadrædi hvad kulda í adbúd, mat og dryck áhrærir; en segja má hér um: ad ecki veit hvad átt hefir fyrr enn mist er! og því ætti þeim ad vera hugarhaldid, sem mest þær géta, og í tíma ad girda fyrir hér á vikid heilsu-tjón, og 1) láta sér enga nidrum vera, ad búa hlýtt og haganlega ad líkama sínum, hátt sem lágt, medal hvers eg tel svokallad Nærskjól, haganlega tilbúid, og einhnepptann brjóstadúk, svo vídann ad ofan, ad lítid, sem eckert þreyngi ad brjóstum þeirra, þegar úti þurfa ad vera í frosti og skaffjúki. Þeir einir spauga þar ad, sem alla heydvyrda qvennmenn mun einu gylda hvernig lát. Eg hefi og med ánægju sied qvennfólk, er úti þurfti ad vera í køfoldum, fara í vídar karlmanns reidbuxur, hnepptar utanlærs nidur og upp í gégn, utanyfir nidurhlut sinn og stuttúlpu ad ofan. Þótt qvennvalid Gudrún Osvífursdóttir slimadi Audun fyrir Set-

§. 75.

Nockrar fá klædaføllin, þrautalítid; adrar verda sjúkar hvert sinn þau koma; þær fá óbærilegann høfudverk, uppkøst, magaverk, bakverk, nasablód; já! eg hefi sjed qvennmann einn hér á landi, er féck aungvit og spýtti blódi; en þetta kémur af mørgum mjøg gagnstædum orsøkum, um hverjar allar eg gét hér ecki talad. Nockrir qvennmenn fá klædafall hvern mánud, nema barnsængin frii þær þar frá. Nockrar fá verki 2ann, 3ja eda 4da hvern mánud. Sumar taka í fyrstu mikid út med þessari afrás, en þad verdur strax léttbærara, eptir ad þær giptast, edur eptir hina fyrstu barnssæng. Af yfirsjón eda einhverri tilviljun er þad, ad sumar konur, sem lítid hafa þjádst med sínum klædaføllum, taka med þeim sárlega mikid út sídari part æfi sinnar. Allt þetta ætti qvennfólk ad taka sér til íhugunar, þvíad í sannleika ad segja: þeirra góda heilsa og náqvæma adgætsla um þennann tíma, áqvardar, sem optast heilsu þeirra barna, fyri hverjum Gud trúir þeim sídan.

§. 76.

Dagleg reynsla sýnir, ad klædaføll qvenna kunni ad vera ofmikil, og færa med sér marga sjúkdóma, hvad tídum skédur hér á landi; og ad sídustu, hversu sem þau hafa verid regluleg, hætta þau loksins jafnadarlegast millum þess 45ta og 50asta árs og jafnvel fyrri,

geira-brækurnar (Lard. S. 68 kap.), sjest þó, ad heldri heidurskonum engin hneysa hefir í því þókt. 2) Er øllum rádlegt, í tilliti til kalds dryckjar og spónamatur, ad venja sig á, ad drecka med ofursmáum sopum, og jafnvel halda því svo lengi uppi sér, ad úr því færi mesti kuldinn, og 3) ætti qvennfólk vort ad fordast kreppusetur nar lángtum meir enn þess sídur er til. P.

en sjaldan vara þau lengur, og sá tími, er þau hætta, er flestum qvennmønnum mjøg adgætsluverdur.

## §. 77.

### Í óreglu komin klædaføll.

Þegar ecki verdur vart vid klædaføll qvenna, ellegar þau eru komin í óreglu af ofmikilli óhreysti, §. 71, 72, 73, er ómissandi hlutur fyrir þær ad hræra sig med øllum jafnadi, en fordast allar kyrrsetur, og ad sitja mjøg lágt og kreppa sig saman; þar nærst ætti elldra fólk ad halda vakandi auga fyrir þeim, ad þær eti ecki allt, sem þær lystir, sízt mjøg feitt, súrt, úldid, morkid, hángid, mjøg vatnsmikid edur af mjólkurtagi, hvad þeim allt er óhollt. Umfram allt skal fordast, sem hinn skadlegasta hlut, ad géfa þeim Einirberja- eda Terebintin-olíur, sem nockrir plaga ad gjøra, og gjørt hefir hér á landi mikid íllt. Hinn allra hollasti dryckur þeirra, er vatn það, sem glóandi járn hefir margsinnis verid kjælt í; taka má líka járnsvarf af gódu, hreinu, óhýdgudu járni, edur púlverid No. 10, en ecki stáli, og géfa þaraf 15 til 20 grøn á dag, úngri stúlku; en sé qvennmadurinn fullordin má géfa henni hálft lód, allrahelzt sé hún nockud qvapholda. Súrbrunnar vorir og ølkéldur mundu hér vera hid allra þénanlegasta medal, ásamt hverjum í útløndum brúkadar eru Stahls opnandi pillur. Það kémur ecki svo mikid uppá medøl í þessu falli, sem gott og tilhlýdilegt matarhæfi, er styrkir líkamann, hvar til allskonar maturtir kynnu vera þénanlegar, med gódri tilreidslu; sømuleidis nýr, steiktur fiskur úr sjó og vøtnum; gódur og vel tilbúinn Grasagrautur og fleira þessháttar. Sá, sem lækna vill í óreglu komin klædaføll

qvenna, má fyrst, ádur hann vogar ad leggja hønd á verkid, umfram allt komast eptir hins veika qvennmanns lifnadarhætti, og rýma øllu því úr vegi, sem hindra, eda óreglu kann hafa gjørt í klædaføllunum, ella verdur hann aldrei heppinn í því verki. Eg hefi opt reynt þad og sannad hér á landi, þó qvennfólk qvarti um neyd sína, og segi: þad standi med sér blód, þá er þad einúngis verkan annars sjúkdóms, sem lækna þarf, án þess ad hafa minnsta tillit til klædafallanna, því þau koma af sjálfu sér fyrir utan øll medøl, þegar høfud-sjúkdómurinn er læknadur. Þannig hefir eg, t. d.: læknad Franzós einúngis, og ad því búnu komu klædafollin af sjálfu sér. Stýfla í lifrinni hefir ollad tídateppu á mørgum, hardar hægdir og íll matar-melting á sumum, vid hvørju sídasta nýr Vallhumall sodinn og druckinn hefir mér gagnad. Slím og óhreinindi í innýblunum hefir stundum verid orsøkin, og hefir þá hentugt uppsølu medal gjørt allt hvad eg hefi óskad, þegar hráar eda í graut sodnar Valla-rótar bløđkur*) hafa nockra stund eptirá etnar verid. Í øllum þvílíkum tilfellum og lángtum fleirum, er mjøg ílla gjørt ad géfa þau medøl, er drífa klædafollin, því handarvik þad, stendur sjaldan til bóta.

## §. 78.

### Klædaføll stemma (Menostasia) af kulda.

Þegar kuldi hefir ollad tídateppu eda óreglu þeirra, skal brúka volg fótbød, laugar eda bakstra gjørda ad lífinu**); þar fyrir utan skal núa lífid, lærin, fæturnar,

*) Eru Skarifífla-blød. P.

**) Gott er ad setja stórann meis eda hrip yfir 4ra fjórdúnga pott med sjódheitu vatni í, breida gisinn einskeptu lepp

med heitum prjónasaum qvøld og morgna í lángann tíma. Avalt eptir hvert bad, sé qvennmadurinn blódrík, skal opna henni æd á fæti eda handleggi, en þarámóti hafi hún mikla óhreysti, §. 77, gèfist henni þau medøl, sem verka þægar hægdir til baksíns, án þess ad veikja hana hid minnsta, og þar eptir gèfist henni járnvatnid ad drecka og sídan járnsvarfid §. 77, edur fylgjandi medal:

Tak: Járnsvarf og Sykur 2 lód af hverju, steyttann Anís 1 lód, edur eins mikid af smáskornu Blódbergi, blanda þessu saman og skipt því í 24 jafna parta, gèf svo þaraf 1 skamt 3svar á dag.

§. 79.

Medan medøl þessi brúkast, á ad fordast øll ønnur, hafa náqvæmustu gætni á fædu sinni; ad hún sé létt, þunn og volg; varast kulda; hræra sig med jafnadi, og helzt rída, ef færi er til. Komi þessi sjúkdómur aptur, eptir þad hann er læknadur, læknast hann á sama hátt, sem nú er sagt.

yfir meisinn, láta qvennmanninn setjast med vída hempu utanyfir sér, þar ofan á, þekja svo med fotum vel umkríng ad nedan, svo hvergi leggi gufu út; hofud sé ad eins uppúr og handleggirnir lausir ad innan. Þegar gufuna fer ad leggja upp af vatninu, á helzt ad stýra henni ad lífinu, og jafnframt med høndunum núa þad í hríng til og frá, gódann tíma, þurka sídan líkamann og leggjast sem skjótast í volgt rúm; þetta ætti því ad vera nálægt háttatíma, og gjørast nockur qvøld samfleytt. Finnist til blódverkja, en ecki meir, er sá besti tími til þessa, en varast á kulda í mat og adbúd medan á þessu stendur. A sumardag í hlýu vedri og logni, ad grafa sig upp undir hendur nakta nidur í hey, sem mátalega heitt er í, væri og reynandi, med tilhlýdilegri gætni, en vera alklædd ad ofan. **P.**

## §. 80.

### Um klædaføll stemmd af ofmiklu blódi.

Komi klædaføll í óreglu af ofmiklu blódi, þá er blóðtaka, sem ádur var skadleg, §. 72, í þessu tilfelli ómissandi, sømuleidis fótabad í hálfvolgu vatni, en ecki heitu; opt og tídum ad taka inn Saltpétur, 30 grøn í einu, edur 1 fulla theeskeid, og drecka mikid af volgri mysu; þaradauki má géfa hægt búkhreinsandi medal (sé ecki nærri þeim tíma, sem qvennmadurinn væntir tída sinna) *).

## §. 81.

Qvennfólk þad, sem hefir slímfullar saftir og þyckar, er þeckist af bláum eda grænleitum yfirlit þeirra, og þaradauki af hægum og linum slætti lífædarinnar, má ad ósekju inntaka púlver-skamtinn No. 12 í Recepta-listanum. Þess á milli brúkist Saltpétur 1 theeskeid, og dreckist yfirsljótanlegt af Mysu, Einirberja-seydi og, sé sumardagur, eti þær sjúku hnefa sinn á hverjum degi af Vallar-rótar-blødkum, og þá hvad mest, þegar þær finna til blódverkja **).

## §. 82.

### Um klædaføll stemmd af ofþycku blódi.

Séu klædaføll med þad lag í óreglu, ad þær optast missi svartlifrad, þyckt og slímfullt blód, þá ber fyrst

*) Sterkt Seunisblada-thee mun einhlýtt. P.

**) Blódbergs-seydi eda theevatn af Blódbergi (Thymus Serpillum), mætti vel brúka fyrir Einirberja-seydi; þad er bædi blódþynnandi og blódleysandi, og hjálpar mørgum eingaungu ydduglega druckid, jafnframt volgu fótabadi, eda einkum því í Skýr. gr. til §. 78, umtalada Gufubadi. Th.

og fremst ad géfa þeim mikid ad drecka af mysu, Einirberja-seydi og járnvatninu §. 77; en sérílagi væri Ölkéldur vorár framar øllu ødru þénanlegar, einkum sú, sem er hjá Raudamel vestra, eptir Landlæknis B. Pálssonar géfinni skírslu. Vallaróta-blødkur eru hér og nærsta gagnlegar, gjøri qvennfólk erfidi sitt mest á farals-fœti. Þetta tilfelli er mjøg almennt á svo nefndu hysterisku qvennfólki hér á landi, og þeim, sem hætt er vid flogum og sinadráttum. Vid þær er naudsynlegt ad brúka bleytandi og mýkjandi stólpípur, volg bød og bakstra. Þad er og ágætt ad leggja blødrur á lífid, fylltar volgu vatni og mjólk, eda vel sterku seydi af Kamillu-blómstri, Lifja-grasi, Lifrar-urt (Parnassia palustris), Althea-rót og fleirum þesshattar bleytandi urta-tegundum, vid hvad einúngis og stólpípuna, eg hefi vitad blódid losna (sjá framar §. 78).

## §. 83.

Þad er mikilvæg þørf, í allskonar mánada-tída stønsun qvenna, eins og þaradlútandi marghattudum tilfellum, ad byrja í fyrstu lækninguna med þeim hægustu og saklausustu medølum, eins og þeim, sem hér eru talin; auka sífeldt inngiftina, þá er blódverkirnir koma, og þá ad brúka bødin, sem optast.

## §. 84.

### Um ofmikid Blódfall (Menorrhagia).

Ecki er þad sjaldgæft á landi hér, ad klædaføll qvenna verdi ofmikil, af hverju þær verda máttlitlar, hjartveikar, gjarnar til lítil-leika og aungvita, samt annara fleiri veikinda og þúngra tilfella, er á stundum hafa daudann í fylgi med sér. Undir eins og qvennmadurinn finnur

á krøptum sínum, af þessu tilfelli, er henni naudsyn á ad leita sér hjálpar; er þá hid fyrsta rádid, ad vefja med breidum leggjabøndum edur lérepts-treflum, fæturnar, lærin, fyrir ofan kné, framhandleggi og jafnvel fíngurnar, en setja fæturnar sídan ofaní hálfvolgt vatn. Bønd þessi leysast ecki fyrri af, en blódid er stillt, þó ecki øll í einu, heldur smámsaman. Hin sjúka skal hætta allri gángvist, láta búa um sig á þófa, en liggja ecki á mjúku. Fidursængur eru í þessu og fleira falli óhollar. Eptir þetta taka nockrir hérum hálfmørk blóds af medían-æd hinnar sjúku; sídan gésist henni inn 30 grøn, edur 1 theeskeid í senn, af Saltpétri 6sinnum á dag, edur:

Tak: hálfpott vatns, 1 lód Saltpéturs og 8 lód af Citronu-saft, géf þaraf 1 matskeid 24 sinnum á dag, edur 1 hvern kluckutíma.

Auk þessa taki hin sjúka smámsaman 1 theebolla af fylgjandi dryck:

Tak: hálfmørk bygg-grjóna, sjód þau í 2ur pottum vatns uns þau springa, med 2ur qvintínum Saltpéturs, sía svo grjónin frá, en blanda vid seydid 6 matskeidum af gódu Vínediki*) og 3ur lódum af hunángi**); þetta er ágætur kjælandi dryckur.

Þeir, sem ecki géta veitt sér hann, kunna ad brúka gamla góda sýru og vatn til almennilegs dryckjar, þó ecki sárkaldt; þad er vissulega saklaus, hollur dryckur, ódýr og í mørgum tilfellum ágætt medal, ecki síst þar, sem kjælandi

*) Um Edikstins margfoldu nytsemi og tilbúníng, sjá Isl. Lærd. l. Fél. Rit 15da B. bls. 169. P.

**) Almennt er nú á tímum, ad géfa blódstemmudropa, eptir No. 13, 3svar á dag, 40 dropa í senn, í toluverdu koldu vatni. P.

medøl þurfa ad brúkast. Þegar blódlátin eru ofmikil, er gott ad gjøra sterka bløndu af sýru og vatni, væta þar í trøf, klúta edur handklædi, og leggja yfir um lífid og jafnvel lendarnar og bakid, eins og fædíngarstadinn sjálfann, og jafnódt og þeir hitna, leggja annad kaldt vid. Pillur gjørdar af Vallhumli eru og ýfrid gódar, til ad taka, ásamt hinum ádursøgdu medølum. Þessar Pillur mega tilbúast þannig: Tak svo mikid, sem vill af Vallhumli, ádur hann springur út í blómstur, brytja nockud, hell þar á smámsaman nockru af hreinu vatni og elt úr løginn í mortéri; hell seinast 6føldu vatni á, eda sem svarar 1 pela vatns á hver 3 lód af Vallhumlinum, lát þetta sjóda í leirpotti yfir eldi og med sífelldri íhrærslu, svo sem fjórda part úr tíma, sía svo þann løg frá, sjód aptur urtina eins lengi í hálfu minna vatni og sía enn saman vid fyrra løginn; loksíns skal mallseyda þenna løg nidur, þar til hann er ordinn svo þyckur, ad ecki renni, þó pottinum sé hallad. Þessi Vallhumals Extract geymist í vel tilbundinni kruckú, og þegar vill, má blanda sem smærst skornum edur duptsteyttum Vallhumli saman vid, svo miklu ad gjørdar verdi pillur af, sem vegi hér um 3 grøn hver, og inntakist 4 í seun edur meir, kvøld og morgna til skiptis vid hitt.

## §. 85.

Sé hin sjúka mjøg máttvana eptir blódlát, er best ad búa um hana, svo hún liggi, sem ádur er sagt, á einhverju hørdu, nærstum fløt, og hafi varla hærra undir høfdi enn fótum; sífeldlega skal hún lykta af ediki, edur einhverjum sterkum vínanda, drecka lítid edik í millum vatni blandad, edur ádur umtalada bløndu. Þær, sem

ráð hafa til, géta tekið til sín nockra spæni víns; til að styrkja líkamann og auka kraptana þénar mjólk, rjómi og ný egg, þá til eru; þunnar kjøtsúpur, einkum af úngkindum tilbúnar, og jafnvel steikur af smáfugla kjøti; það er og gott að setja stólpípu af volgu vatni og litlu víni, með nockru salti í; géfa hinni sjúku seyði af Hyldeblómstri, Vallhumli ellegar Grájurt*).

## §. 86.

Þeir, sem líða í ómegi, af hverri heízt orsøk sem er, séu látnir lukta af einhverju fylgjandi meðala: Hjartarhorns-salti (Volatili cornu cervi), Hjartarhorns Spiritus, Brennuvíni, Salmíak-Spiritus, Kamphóru-Spiritus, skornum Lauki eður Pipar-rót og fleiru þesshátttar; það er og gott að væta ríu í Brennuvíni og leggja yfir bríngsmalirnar.

## §. 87.

### Þá klæðaføll enda taka.

Eg hefi áður, §. 71, sagt: það væri hægt að gjøra qvennfólki skaða, þegar klæðaføll þess lokfins hætta. Þenna sannleika hefir eg því í ljósi látið, að konur taki sér þess heldur vara fyrir þeim tíma, á hverjum margar þeirra hafa dáið, eður og mist heilsú sína. Veit eg þær géfast, er upp frá þeim tíma verða hraustari enn áður, þó ecki sé það almennt. Hafi qvennmaður haft mikil blóðlát allt til þessa tíma, og klæðaføllin halda síðan uppi rétt í einu, þá er nauðsynlegt, að hún láti taka sér blóð hvern 4ða eður 6ta mánuð; þessum er og ómissandi að eta litla og léttu fæðu að jafnaði og

*) Gnaphalium alpinum og uliginosum, er vex við fjalllendi. P.

fordast kyrrsetur; taka opt inn Vínsteins-rjóma ad morgni dags, því hann eykur bædi þvagid, vallgánginn og þann náttúrlega dampa og gjørir þá sjúku minnur blódríka. Stundúm verda klædaføllin ofmikil ádur enn þau hætta, og þá er ecki blódtaka naudsynleg, heldur athugasamt um matarhæfi og ádurtalinn Vínsteins-rjómi, líka endur og sinnum þægilegt búkhreinsandi medal til ad ráda, §. 80. Allir menn fordist í þessum, sem ødrum blódlátum qvenna, ad brúka þau medøl, sem stemma blód og samansnerpa holdid (adstringentia), því þau eru skadleg, og hafa opt orsakad enar sárustu pínslir, medal hverra telja má krabba í módurlífinu, og svo frv.

## §. 88.

### Um ofmikil blódlát edur hreinsun (Lochia) eptir Barnburd.

Þad skédur á stundum, ad konur fá ofmikil blódlát eptir barnburd, hvaraf sumar missa lífid; annars er þad eginlegt þeim, sem vanar eru ad missa mikid blód, ad þær fái þessa hreinsun í frekara lagi. Hinar þarámóti, sem hafa lítil klædaføll, missa þad optar lítid med børnum. Reglulegast varir þessi hreinsun 6 til 8 daga, verdi hún ofmikil, skal brúka alla hina sømu adferd, sem §. 84 og 85 bjóda *).

## §. 89.

### Um oflitil edur stemmd blódlát eptir barnburd.

Þad er ecki minn ásetníngur ad vera margordur um

*) Hér vardar mestu, ad Nærkonur vandlega athugi, hvad yfirsetu-frædin segja um blódlát fyrir og eptir fædíngu; ad þær taki fylgjuna med mestu varhygd, og sjái til ad módurlífid þar á eptir dragi sig saman eins og vera á, og konan varist sterkar gédshræríngar og áreynslu. P.

sjúkdóma barnsængur-qvenna, því þar til útheimtist meira rúm, enn eg hafi mér hér afmarkad; þó med því eg veit þetta tilfelli þvíngar allmargar konur, má eg ecki med øllu fram hjá því gánga.

## §. 90.

Hreinsan barnsængur-qvenna verdur annadhvert oflítil edur stemmist med øllu, af fylgjandi orsøkum: hafi konan átt hardt í barnburdi, svo þaraf sé komin bólga og þroti í fædíngarstadinn, svo og líka, hafi hún brúkad medøl nockur, hvert heldur Brennuvín edur Olíur til ad flýta fædíngunni, þá held eg þetta einkum koma af 1) køldu lopti, sem hér hafi komist ad fædíngarstadnum medan á fædíngunni stód; því allir vita, hversu athugalausar sumar yfirsetu-konur eru med þvílíkt mørgum sinnum, einkum á vetrum í sterkum kulda. 2) eru sjálfar barnamædurnar ásamt hinum skuld hér í, þegar þær drecka mikid kaldt og jafnvel súrt. 3) er þad mjøg sjaldan vandi yfirsetu-qvenna, þar eg hefi adkomist, ad binda hinu minnsta um líf sængurqvenna eptir barnburdinn, því til styrktar og varma, hvad þó af øllum upplýstum mønnum alvarlega bodid er, eins og ómissandi hlutur; þess er og heldur ecki ad vænta af þeim persónum, sem hverki hafa lært eda viljad læra nockud nýtilegt, hversu þarflegt sem vera kynni. 4) er þad kunnugt hve háskalegur hlutur þad hefir verid haldinn allt til skamms tíma hjá oss, ad taka þúngudum konum blód, af hverri vitleysu enn þá eldir eptir hjá allmørgum; en eg tel þad þó hér fyrir orsøk til þess, ad barnsængur-konur fái oflitla hreinsun, þegar þær ecki láta taka sér blód, þá er lídur undir barnburdinn, séu

þær annars blódríkar *). Þad er margopt naudsynlegt, bædi þegar kona nockur veit ad hún er ordin þúngud, og líka þá lídur ad hennar fædíngar tíma, ad hún láti taka sér blód; en þó skulu menn vita, ad þad er þar fyrir ecki øllum hendt, þad á og ad gjørast med varhygd, svo konan missi ecki þar vid sína náttúrlegu krapta. Allar þessar orsakir, hvert sem af þeim er tekin ein eda fleiri, kunna øldúngis ad stemma umtalada hreinsun.

## § 91.

Mørg illsku tilfelli verkar teppa þessi hjá oss; stundum blæs lífid upp og verdur hardt med verkjum og qvalar tilfinníngu; stundum koma hér af margskonar hættulegar stýflur innvortis, máttleysi, kuldi og allrahanda lángvarandi sjúkdómar, jafnvel med sinnisveiki, hver opt kémur í ferdina med, þar sem inniblin eru dádlaus og veik ordin. Þetta kann ad valda bólgu, sárum og hørdum hnútum í módurlífinu, krabba og ødrum þvílíkum tilfellum, sem ávalt enda med qvalafullum dauda.

## §. 92.

Eg fæ ecki ordum ad komid, hvernig fólk fer med þenna sjúkdóm; mér er nóg, ad eg géfi til vitundar hvad vid hann skal gjøra: strax, sem sængurkonan verdur vør vid, ad hreinsan hennar ecki gengur reglulega, eda teppist offnemma, láti hún taka sér blód, sem svari 3ur

*) Þad er margreynt hérahauk, ad sumar konur, einkum blódríkar, gédørar, og ecki sem haganlegast lagadar ad skapnadi til ad fæda, koma hægar nidur, láti þær opna sér æd seint á 9da mánudi, eda jafnvel fyrst þegar þær kénna sín. P.

eda 4um theekoppum; strax þar á eptir setjist stól-pípa af hálfvolgu vatni, hvaraf undir eins væri gott ad sprøyta nockru inn í sjálft módurlífid; sídan leggi nærkona prjónasaum, hvad eptir annad undinn upp úr heitu vatni, yfir lífid; þaradauki ætti sængurkonan ad drecka tøluverdt, annadhvert af Bygg-grjóna-seydi eda mysu, med 1 qvintíni Saltpéturs uppleystu í hverjum potti; þetta gjøríst ydugléga, uns sjúklínginum hægir. Þeim, sem tamt er, ad géfa drífandi medøl í þessháttar tilfellum, sé hér med sagt: ad undir eins og þeir hafa þad gjørt, skilja þeir þá sjúku konu vid alla adra mannlega hjálp, er hún hefdi fá kunnad, ef tilvill.

## §. 93.

### Um Léttasótt í lærum.

Bólgu sú og verkur, er ýmsar konur fá í lærin og mjadmirnar, máské af ógætilegri medhøndlun*) og fleirum orsøkum í barnburdinum og barnssænginni, linast mikillega, sé strax vidgjørt, og þær látnar drecka seydi af Hundagras- og Skarpsætu-rótum**), jafn-

*) Optar valda þessum tilfellum ørdugar og lángsamar fædingar og ofmiklar áreynslur, sem einyrkja konur neydast til á sig ad leggja, bædi um medgaungu-tímann og eptir ad þær verda léttari, sem enginn fær vidgjørt. P.

**) Hundagras, af sumum kallad Qvikróta-puntur (Triticum repens), vex almennt í húsa-rústum og bæaveggjum á Sudurlandi, en sjest ecki Nordanlands, þad eg man, og er hin stærsta Punt-rót hjá oss. Rætur hans eru med lidum, eins og Mel-rætur, og brúkast á Apóthekum med nafninu Rad. graminis. — Skarpsætu-rót kallar og meinar Author rætur undan Burkna, einkum þeim þyck- og fá-bladada (Blypodium vulgare), sem varla sjest nema í kletta-bólum og skútum hér Sunnan- og máské Austan-lands, og nefnist af sumum Køldugras, þar seydi af rótinni er sagt gott vid umhlaupandi giktar-verkjum, sem fólk almennt

miklu af hverju fyri sig samanskornu; yfir verkinn skal leggja bakstur, gjørdann af steyttu **Hveitibraudi** og **Kamillu-blómstrum**, smátt núnum og í mjólk sodnum, hvad eptir annad vidlögdum. Sé nú ecki strax ráda leitad vid qvilla þessum, er ad óttast fyrir íllum afleidíngum, máské alla æfi.

## §. 94.

### Um bólgu i qvennabrjóstum eptir barnburd.

Bólgur í konu-brjóstum eptir barnburd, géta verid tvennslags, annadhvert af stálma, og eru þá bædi brjóstin uppbólgin; ellegar af því ad mjólkin, sem menn kalla, stimlar eda stýblast í enum smáu mjólkurædum og verdur þar spillt, er þá optast annad brjóstid frí, en úr bólgunni verdur brjóstmein, sem grefur. Margar géta verid orsakir til ens sídara, t. d.: kuldi ad brjóstum um stálma-tímann; ad hardt kémur vid þau ad utan; þraungur upphlutur, sorg og ýmsar gédsmuna hræríngar og svo frv., líka gétur þad ordid út úr ofmiklum og ílla medførnum stálma. Þegar óttast er fyrir, ad bólga dragi sig saman á einhverjum stad í brjóstunum, er einkum **Melilót-**, **Skarnurtar-** og **Gúmmí-plástur** gódir a). Þegar ecki fæst annad, er deig af **Heimulu-rót**, muldri og eldri saman vid nýtt

kallar **Køldu**, en Læknar Rheumatismus. Þessi urt er meira part sætsmedjuleg, en vid sudu finnst fyrst í henni nockur skérpa, svo vera kann hún gjori lík not og stipites dulsamaræ frá Apóthekum. Vid þessu leidinda tilfelli er annars reynt gott, ad opna sína æd á hverjum fæti, þad fyrsta konan stígur á fætur, samt brenna aptur og aptur med **Spansflugum** utan og nedan til vid mjadmarlidi, á mjóhrygg og nedan vid þyckasta kálfann. P.

smjør í volgri pott-løgg, gott að leggja við, hvert sem farið er grafa eður ecki.

a) Það er harla nauðsynlegt, að allar upplýstar ⸗firsetu⸗konur, hefðu ætíð talsverðt af Skarnurtar⸗plástri (Empl. conii maculata), hvar með þær kynnu að hjálpa þeim konum, sem til þeirra næðu, undireins og þær viðþyrftu; þar með vendist fólk til að brúka þetta ótvíluga medal, svo svipt yrði mikilli mæðu af qvenn⸗fólki því, sem opt á vanda til að fá íllt í brjóstin; líka væri þá komið í veg fyrir það er ýmsir gjöra, að géfa og ráðleggja þeim meira til skaða enn bóta öll⸗um fjølda, jafnvel þó nockrir hafi gott af. Einn hnesi af sjálfri urtinni látinn í þunnann poka, soðinn lítið í vatni, og svo yfirlagður, og hvað eptir annað velgð⸗ur á ný. Þetta er, fyrir fátæka, ódýrara enn plást⸗urinn, en gjørir þó eins góða verkun.

## §. 95.

Í báðum þessum tilfellum er gott að taka Hundagras og Vegbreiðar⸗rætur*) — Vegbreið (cichoreum) vex hér í landi — 2 lóð af hverri fyri sig, (eður og 4 lóð af søxuðum góðum Fjallagrøsum, og fara með, sem segir §§. 69 og 295), sjóða stundarkorn í hálfri mørk af vatni, sía ræturnar frá, og uppleysa svo í seyðinu 1 lóð af engelsku eða seydlitzer salti og 4 lóð Manna. Þegar þetta er samanblandað síast það að nýu; af þessu géfst lítill theebolli í einu, og annar eptir lítinn tíma; þetta skyldi ítrekast þrimsinnum og géfast einusinni í hverri viku uns umgétin tilfelli mínka. Þeir, ecki megna að kaupa Manna, sem er nockuð dýrt,

*) Cichorium hefir hverki í neinu túngumáli, það eg veit, Vegbreiðar nafn, né vex á Íslandi, enn þótt Græðisúra vor (Plantago major) af Dønum kallist Veibred, eru hennar rætur hér þó ecki meintar, heldur Cichoríu ræturnar, í hverra stað líklega mætti brúka Skarifífla⸗rætur. Um Hundagras⸗rætur er áður talað §. 93. P.

skyldu brúka Sennesblød med Saltpétri, af hverjum taka skal hálft qvintín til hálfs lóds Sennesblada og sjóda eins og theevatn*).

*) Her vyrdist undanfellt bad, sem mest á rídur, vid brjóst sængurqvenna, ennþótt fleirstar viti það, nefnil: ad sjúga brjóstin, svo ad mjólkin sem fyrst nái sínu rennsli. Á virkilega stálma-bólgu, med hverri fylgir hiti og sóttar-hrollur, er gott ad rýda odruhverju Blýhvítu Salve, eins og á allar heitar bólgur, sem — vel ad merkja — ecki eru farnar ad grafa. Þegar konan fær ecki hægdir til bakfins sjálfkrafa innan 3ja dags frá fædíngunni, á ad setja henni opnandi Stólpípu, og verdur þá sjaldan stálminn skadvænn, en verdi hann samt mjøg mikill, á ad halda áfram med Stólpípuna, þar til konan fær buganlega opnun, og þaradauk géfa henni 1 spónblad af svo nefndri Kamphórn-blørun, hvern eda annanhvern tíma. Einstakir brjósta-eitlar og bólgur, sem komid géta án barnsængur, þurfa meira med, og þar er Empl. cicutæ opt gódur. Reynt er gott vid brjósta-bólgum og fleiri, ad leggja hnefa-korn af Vélants-urt nýrri (Talictrum alpinum) vid bólguna bera; hún vex helzt nálægt klettum og klúngri til heida, lítil vexti. Varast á ad brúka mjøg eggjárn vid brjóstamein, og best eru þau farin ad komast undir gódar hendur. Framvegis í tilliti til sængurqvenna veikinda, stólpípna brúkunar og fl., vísast til Vidbætirsins aptan vid þann íslendskada Saxtorphs Yfirsetuqvenna Skóla, prentadann í Kaupmannahøfn 1789.

Þá ádurnefndu Kamphóru-blondu, sem ágætast medal er í fleirstollum sóttveikjum, einkum hvar bólga er samferda út- edur innvortis, géta menn tilbúid á þenna hátt: Tak: (til 1 pela) hálft qvintin eda 30 grøn af Kamphóru, lát í sterkann theebolla, og þarí drjúpa 12 dropa af gódu Brennuvíni, nudda svo lauslega sundur, sem smærst, med sívølum tréstautli, sem ávalur er ad nedan og hardt í. Myl í odru lagi $1\frac{1}{2}$ lód af Kandís-sykri og hell á litlu af heitu vatni, svo eins verdi og Sýróp ad þyckt; blanda þessu smátt og smátt saman vid Kamphóruna í bollanum, og elt þetta þángad til ad þad verdur eins og ad þyckri qvodu; smáhell sídan saman-vid í bollann 1 pela af volgu vatni, hvarí ádur sé sodid lítid eitt af Hyldeblómstrum og látid seinast í 1

## §. 96.

### Um hvít klædaföll (Fluor albus).

Nú vill eg tala nockur ord um plágu eina, sem hér og vídar gengur medal qvennfólks á øllum aldri; hún er þar í fólgin: ad hvítt slím flýtur út af módurlífinu, annadhvert í stad þeirra náttúrlegu klædafalla, edur milli þess þau edlilega koma.

## §. 97.

Sé slím þetta hvítt og seigt, en þar hjá ecki ílla luktandi edur mjøg bítandi, svo þad eti af hørundid eda húdina, komi þess á milli lítid eda alls ecki, svo má kalla sjúkdóm þenna, hin velørtudu hvítu klædaföll. Þau íllaørtudu þeckjast af því, ad þeim fylgir nockurskonar sársauki edur svida-tilfinníng, rétt þar um, sem blødruhálsinn er, þegar konan kastar af sér vatni. Þessar tegundir klædafalla þeckjast frá módurlífsins meinum þaraf: ad graftar-vilsan flýtur úr þeim án aflátts, og konur þær, sem hafa mein í módurlífinu, finna brennandi verk í ødrumhverjum smáþarminum med øllum jafnadi, sem leggur ofan í lærid samamegin, og þar

matskeid af Ediki, litlu í einu, og elt vel sundur og saman, þar til allt verdur jafnþunnt; hell svo á pelaglas, og afgánginum af vatninu samanvid, gutla til og brúka, sem ádur er sagt.

Blýhvítu Salve má svo tilbúa: Tak: nýtt Smjør, 8 lód, bræd ad eins yfir hægri glöd, í krucku, og lát þarí 4 lód af smátt-skafinni Blýhvítu, hrær med tréstautli í og elt vel saman, uns storkna fer; lát þar saman vid 1 qvintín af Kamphóru, mulinni sundur í nockrum dropum af Bómolíu, verdur þá salveid kroptmeira, en betra er ad búa ecki meira þaraf til í einu, enn hér segir, því smjørid vil súrna, sé lengi geymt. Um Brjóst-a-mein er verdt ad lesa Kir. Hjaltalins rád í Klpóstl 1820 bls. 174. P.

fyrir utan hafa þær tærandi köldu-sótt. Þau velörtudu hvítu klædaföll koma opt á vissum tímum, svo sem fyrir og eptir þau náttúrlegu tídablódlát, en hætta svo í millum. Opt fljóta þau líka án afláts, en eru mest fyrir og eptir þau náttúrlegu. Þá fylgja þeim ávalt ílla þolandi verkir yfir um lendurnar og krossbeinid, ásamt máttleysi í öllum líkamanum. Þau íllaörtudu hvítu klædaföll hætta aldrei af sjálfum sér; þeim fylgir ydduglegt máttleysi og nagandi verkur í fædíngarlimnum, optlega hjartverkur, þúngur andardráttur, þreyngsli fyrir brjósti med hjartslætti, og stundum köldu og fótabólgu.

## §. 98.

Þau velörtudu hvítu klædaföll ásækja jafnadarlegast konur og eckjur, hverra náttúrlegu klædaföll í óreglu komin eru, svo og líka meyar þær, sem sitja ad jafnadi og eru þaradauki qvapholda.

## §. 99.

Orsakir þessa sjúkdóms géta verid margar, svo sem: vetzafullur-líkami, hörd og slímfull fæda, sem treglega meltist, vosbúd og suddasöm hús, ofmiklar kyrrsetur qvennfólks hér á landi*) og þetta: ad þær kreppa sig ofmjög saman í sessi; lifrad blód og kéckir, sem verda stundum eptir af barns-fylgju í módurlífinu og svo frv. Margopt er þad sterkur kuldi, sem gagntekur lærin og lífid upp ad nafla; reykjar-stibba í bæum af vondum eldividi, of-fast bundin styttu-bönd, sem qvennfólk gengur

*) Þad mætti máské heita svo í Nordurlandi og austur allt ad Axarheidi, en þadan og um allt Sudurland og eg veit ecki hvad lángt vestur, þarf qvennfólk ecki ad berja sér um hreyfíngu; en ad þær stígi sjaldnar Vikivaka hér enn erlendis, má madur manni segja. P.

med allann dag á stundum, við hvað blóðsins náttúrlega hræríng hindrast og gétur leidt af sér allrahanda stýflur.

§. 100.

Þessi sjúkdómur er mjøg svo ørdugur viðureignar og margopt ólæknandi, einkum hafi hann lengi varað, og taki konan, sem læknast skal, sig ecki því betur í vakt; hann leiðir og opt þúng veikindi eptir sig.

§. 101.

Kunni sjúkdómur þessi annars að læknast, er varla svo krøptugt meðal til, sem Súrbrunnar vorir, §§. 77 og 82; þarnæst megu reiknast øll þau meðøl, sem af af járni tilreidd eru, svo sem járnvatnið, §. 77, og meðølin §. 78 †), en hjálpi það ecki, þá hafa nockrir brúkað fylgjandi meðal:

Tak: mjólk gjørða af hørfræi a), vatn af lifandi kalki b), jafnmikið af hverju fyrir sig, blanda saman og géf þar af hálfa-mørk, aðra qvøld en aðra morgun.

Þenna skamt má smásaman auka, uns komin er 1 mørk í hvert mál; þetta skal hin sjúka brúka lángann tíma í sífellu. Sumum skánar af ýduglega etnum, bæði hráum og í mjólk soðnum Smærna- eður Smára-rótum.

a) Mjólk af Hørfræi er þannig tilbúin: tak svo mikið Hørfræ, sem vill og steyt í mortéri, smáhell svo

†) Seyði af Sarsaparilla-rót, sem fæst á Apóthekum, þannig tilbúið: að taka skal 2 lóð af henni og sjóða í 1 potti vatns nockra stund, sía seyðið frá og drecki hin sjúka þenna skamt daglega, blandaðann með 60 dropum af útþynntri Svovelsýru, sem kallast á Apóthekum **Acidum vitrioli dilatum**, mun fleirstollu betra á móti þeim hvítu klæðafollum, sem Hofundurinn umtalar. **J. Hjaltalin.**

sjódanda vatni þar yfir, hérumbil 1 potti vatns, móti 6 lódum hørfræsins og steytist svo eda núist ad nýu, hvert skipti ad vatninu er á hellt, uns vatnid er ordid eins og mjólk; þar eptir síist vatnid frá og pressist sem best.

b) Kalkvatn er almennt kallad, þegar tekid er ósløckt eda lifandi kalk og hellt yfir þad vatni, þángad til þad er ordid ad dupti, tekid sídan vatnid frá, og síad hvad eptir annad, til þess þad er tárhreint ordid. Brenna má líka Kúskeljar*) til þess ad kríhvítar verda, og fara med, sem nú var sagt um kalkid. Taka má líka leskjad kalk og brenna á ný og brúka, sem ádur sagdi.

## §. 102.

Þad er einka naudsynlegt í þessu, sem øllum ødrum qvennlegum tilfellum og ad amandi sjúkdómum vidkomandi, ad taka náqvæmlegann vara á matarhæfi sínu, fordast allann þann mat, er treglega meltist, samt þunna og volga drycki, en lifa af gódri en léttri fædu, hvar med reiknast allt fiskakyn úr vøtnum og sjó, einkum medan þad er sem nýast, bædi sodid og steikt, allslags fugla-kjøt og fleira þesshattar.

## §. 103.

Verdi vart vid ad þessi sjúkdómur komi af einhverskonar veneriskú eitri, læknast hann eins og ønnur þesshattar kránkdæmi, hvar um engra er ad fjatla, nema Læknara einna**).

*) Annad enn þvílíkt Skélja-kalk brúka menn sjaldan inntoku. Leskt eda leskjad kallast kalkid, þegar þad annadhvert hefir lengi legid, frá því þad var brennt, og er búid ad draga í sig loptsýru og dampa, ellegar þad nýbrennt hefir slockt verid med vatni. P.

**) Um Fransós er nóg sagt almenníngi í Ísl. Lærd. l. Fél. R. 15 B. bls. 74, hvar vid bæta mætti inntaki úr Advørun þeirri, sem Cancelliid gaf almenníngi til varhygdar 1806, um merki þessa sjúkdóms, sem helzt eru

## §. 104.

### Um Júngfrúr Gulu (Chlorosis).

Þessi sjúkdómur er þar í fólginn: ad meyar og úngar eckjur verda mjøg blá- eda jafnvel grann-leitar, þær fyrri um þann tíma, þegar klædaføll þeirra fyrst egu ad koma.

## §. 105.

Á þeim, er þenna qvilla fá, blána fyrst varirnar, og eins litur hríngur sjést kríngum augun, bædi blár og bleikur, sídan breidist farvi þessi um andlitid og loks yfir líkamann, hvar med opt fylgir þroti í andliti og fótum. Þær qvarta um mattleysi, óhægd og þýngsli fyrir brjósti; matarlystin er lítil, en girnast stundum þá hluti, sem ádur vóru þeim vidbjódslegir; stundum fá þær sára laungun til ýmislegrar fædu; slagædin slær í fyrstu mjøg linlega og óreglulega; þvagid er í fyrstu þunnt og tært, sem vatn, en verdur mjøg svo lítid, og eptir því, sem sjúkdómurinn eykst, allt jafnþykkt, án þess þar af nockud setjist til botns. Þótt eg hér kalli sjúkdóm þenna Júngfrúr-gulu, þá er hann þó aldrei þeirri almennt kølludu Gulu líkur ad útliti, orsøkum né ødru.

---

þessi þrjú: 1) Þegar eptir tilefni, sem menn sjálfir vita til, rennur seig, slímkénd vilsa út úr þvagrennunni, og til svida og verkjar finnst, þegar kastad er af sér vatni. 2) Vart verdur vid smærri eda stærri sár í fædingarlimum qvennfólks, edur framanverdt á leyndarlim karlmanna; og 3) þegar annarhverr eda bádir lærkyrtlar bólgna. Hvert af þessu er fullnóg vissa um sjúkdóminn, einkum viti menn sig nýlega haft hafa holdlegt samrædi saman, edur sofid á misþenktum stødum, og ber þá strax ad segja reglulegum Læknir til, vilji menn ad ecki verdi verra af. P.

## §. 106.

Þessi qvilli heimsækir mest ógipt úngt qvennfólk, sem af náttúru er líflegt og hraust, en strax á únga aldri er pínt til kyrrsetu, og lifir allt of reglubundnu eda klaustra-lífi; en þá er þessar qvarta um naudsyn sína, er strax leitad til blódtøkumanna, hverjir, án þess ad hafa ena minnstu þeckíngu á veikleikanum, sem heldur ecki er af þeim heimtandi, eptirþánkalaust úthella blódi, jafnvel í potta-tali margur hverr, af hverri medferd sú veika fellur í þá þýngstu hysteriska eda módursýkis sjúkdóma, sinnisveiki og þessháttar, sem hjátrúarfullir álíta gjørnínga eda galdur. Eg minnist þessa hér, søkum þess, eg vildi óska: ad fólk mætti vita ad fordast hid vonda, sem af vanvitsku þessari leidir, ecki hvad sízt vestanlands, hvar sjúkdómur þessi er tídari enn annarstadar hér á landi, þad tilveit.

## §. 107.

Allt þad eg hefi ádur talad um óhreysti úngra og ógiptra qvennsnifta, gétur og híngad heimfærst; má og líka byrja lækníngu sjúkdóms þessa á sama hátt, sem þar er rád fyrir gjørt*); skal þá bera mesta umhyggju fyrir því, ad styrkja hin veiku innífli, bædi med tilhlýdilegu matarhæfi, og líka med þénanlegum medølum. Ecki má gleyma ad láta þvílíka sjúklínga hreyfa sig eins og kraptar þeirra þola; þurr matur er þeim heilnæmur, svo sem: magurt kjøt, hveitibraud og fl.; hollast er kjøtid steikt í þvílíkum tilfellum, einkum sé þar med nockud af

*) Extract og Pillur af Horbløðku eda Hófrót má tilbúa eins og kénnt er §. 84 um Vallhumal, og er hverttveggja þénanlegt þessum sjúklíngum, eins og Vallhumallinn. P.

Pipar, Ingiferi, Kúmeni og þesskonar styrkjandi hlutum. Daglegur drykkur sé af köldu Járnvatni, §. 77. Þeir, sem ecki géta veitt sér ádurnefnt kryddiri, láti sér nægja Hvannarót og Blódberg.

## III. Kapítuli.

### Um almennustu Sjúkdóma á körlum og konum.

§. 108.

Gyllini-ædd stemmd og fljótandi (Hæmorrhoides, cæcæ et apertæ).

Eptir því látínska ordi, má þetta skiljast um sérhvert blódlát af mannlegum líkama, fljótandi edur stemmt; en þad er þó ecki; heldur meina Læknar hér med sérlegt blódlát, sem kémur út af enda-þarminum, gégnum svo nefndar Gyllini-ædar (Vasa hæmorrhoidalia). Þessi blódkér eru tvennslags: innvortis (interna) og útvortis (externa); hverutveggi samanstanda þau af blódædum og slagædum, er samgaung hafa med sínum líkum í ýmsum ydrum, helzt þarmkérsinu nedanverdu, módurlífinu og hlandblødrunni, hvar af menn géta gjört sér nockra ímindun um, hvernig klædaføll qvenna, í einhverja óreglu komin, géta flotid gégnum þvagrásina edur endaþarminn optar en fólk ætlar, og hvernig þad kémur til, ad menn, sem gyllini-ædar blódlát stemmast hjá, kunna ad pissa blódi, hvad þá kallast Hæmorrhoides vesicæ.

§. 109.

Þegar Gyllini-æd kallast ad vera fljótandi, opna

sig adur áninnst inn- og út-vortis blódkér; en þegar hún er stemmd, þenjast þau edur bólgna, stundum meira stundum minna; þar med kann fylgja kládi edur sidríngur, jafnvel verkur, med ødru fleiru. Þegar Gyllini-æd flýtur sjálfkrafa þvíngunarlaust, er þad ad álíta, sem náttúrunnar velgjørníng*). Þetta skédur og opt í ýmsum sjúkdómum, hvar vid þeir stundum merkilega linast edur batna med øllu, en ef hverigt skédur, bodar þad ávalt mikla hættu. Þetta blódlát kémur stundum á vissum tímum, og hefir því kallad verid Hæmorrhoides periodicæ. Stundum er þad ecki bundid vid vissa tíma, og kallast þá Hæmorrhoides erraticæ; þegar þad er hverki mikid né neinum íllum tilfellum ollandi, þá kallast þad Hæmorrhoides ordinariæ; sé þad þaramóti mikid, lángsamt og komi optlega, kallast þad fluxus hæmorrhoidum nimius. Reglulegast er þad hreint blód, sem af þeirri fljótandi Gyllini-æd kémur og fagur- eda døck-raudt, þó er þad stundum slími blandad.

## §. 110.

Margir hér á landi villast mjøg í því, ad þegar Gyllini-æd bólgnar, meina þeir sér sígi til baksins, vid hvad eg hefi var ordid; en tau tvø tilfelli eru þó nærsta ólík, því gyllini-æda bólgan er ætíd uppmjó, raud og bláleit, og þegar hún annadhvert vill renna og gétur ecki, eda hún ætlar ad renna, fær madur þryckjandi edur

*) Svo er þad ad álíta, af íllu til, þegar þetta leidinda tilfelli eittsinn er uppáfallid, sem þó ætíd er fullkominn sjúkleikur af sjálfu sér til. Um þetta efni hefir sá ópennalati ypparlegi læknir og Prófessor í Kaupmannahøfn, Joh. Clem. Tode, ritad ágæta bók á Donsku, sem þrentud er 1802. Veikleikinn er annars hér á landi sjaldgæfur. P.

pressandi verk yfir um lífid, undirsídurnar og yfir um bakid, nálægt krossbeininu, líka kémur sú tilfinníng í endaþarminn, ad manni finnst, sem þar standi eitt hvad hardt; lífædin slær hardt, og þá plagar blódlát þetta ad koma. Þegar madur hefir haft hardann vallgáng, svo sjest ad ofan á saurindunum edur í kríng þau, hefir runnid blód eda blód-slím, en ecki ásamt edur innan um þau, hvar á ecki bar, medan hægdir vóru lidugar. Vid kann samt bera, ad blódrákir sjáist í hørdum saurindum, einúngis af þessu tilfelli. Um þessar mundir verdur sá þetta fær, bleikleitur; med þvaginu gengur burt raudleit sandvera, edur mjøg fínt dupt, svipad á lit vínsteini. Á þeim, sem ecki géta misst þetta blód, aukast ádurtalin tilfelli mjøg svo; þeir fá verk í fæturnar og nedarlega yfirum sig, hvar med fylgja stundum sina-teygjur og teppa til baks og qvidar; þeir verda máttlitlir; matarlystin og svefninn mínka og þar med fylgir opt sóttar snertur; nockrir missa hér vid ofmikid blód í einu, komast í lífshættu og fá þau tilfelli, sem fylgja ofmiklu blódrennsli, hvadan sem þad svo kémur af líkamanum.

## §. 111.

Blódríkt fólk, karlar og konur fá þenna sjúkdóm, þó ecki sízt qvennfólk, hvers klædaføll eru hætt eda komin í óreglu, svo og þeir, sem á úngdóms-árum hafa þvíngast af nasablódi.

## §. 112.

Til sjúkdóms þessa géta ad vísu verid margar orsakir yfir høfud, svo sem: ofmiklar kyrrsetur med álútum líkama, sem hindrar blódsins umgáng í portædinni; vanræktar blódtøkur; ílla og á óhendtugum tíma brúk-

ud búkhreinsandi medøl, einkum þau, í hverjum er Alóe og Jalappa harpix; sífellt hardlífi og kuldi á lífinu. Eins og mátalegt blódlát um þenna veg kann vera heilsusamlegt, svo er líka þad ofmikla skadlegt, og gétur leidt af sér uppþornun og vantssýki. Sé þad á óhentugum tíma stemmt, kann ad orsaka blódgáng og hættulega augna-sjúkdóma; þad kann og ad orsaka graftarpípur í endaþarminum (fistula ani).

## §. 113.

Þegar Gyllini-ædin er stemmd og madur finnur þar þvingun af, hvar um er talad §. 110, þá brúkist Grasa-Extraktin §. 69, edur og Urta- og Sennesblada-seydid med Saltpétri, §. 95; þaradauki má drecka Blódbergs-seydi edur theevatn þaraf í millum. Þeir, sem qvapholda eru, mega brúka Járnvatn og Járnsvarf, §. 77, en þó helzt Súrbrunna-vatn, þar til þeirra verdur nád. Utvortis brúkist volg bød, bleytandi klýster og blódtaka. Þeir, sem eru blódríkir, leggi á bólguna bakstur af volgum drafla, velgdum lifjum, eda flísir af feitu kjøti. Sé madurinn bædi heitur og blódmikill, takist inn af þeim kjælandi medølum, er umtalast §. 84, eptir þørfum.

## §. 114.

Sé þad slími blandad, sem géngur frá manni til baksins, takist ydugleaga smá-púlver af Rhabarbara, sem vega hér um 10 til 12 grøn, og á medan þetta yfirstendur, skal hinn sjúki fordast ad eta þad, sem mjøg er feitt; í þessu falli eru og Súrbrunnar þénanlegir. Þad segir sig sjálft, á medan þetta blód flýtur af sjálfu

sér, og menn fá léttir þar af, byrjar þeim að borða lítinn og léttann mat, og varast kulda. Hafi þetta blóðrennsli verið vant að koma á vissum tímum, en breytist í eitt eður annað skipti, er hinum blóðríka opnuð æð á fætinum; gjørt bað af volgu vatni, og taki inn 10 eða 12 grøn að Aloe*) bløndudu með litlu dupti af Sennesbløðum.

## §. 115.

Verði þetta blóðlát úr hófi mikið, brúkist øll hin sama aðferð og meðøl, sem áður er sagt, §. 84, um ofmikið blóðlát. Þaraðauki má sjóða Blóðrót eður Burnirót í vatni, og með því volgu setja stólpípu, en leggja Blóðarfa (Blygonum aviculare)**) að utan, sé sá tími að hann fáist. Nockrir sjóða Eikar-svampinn (agaricus chirurgorum), smáttskorinn í vatni, og setja með því volgu stólpípu. — Þeir, sem þenna sjúkdóm hafa, drecki ydduglega seyði af Vallhumli og Rjúpnalaufi.

## §. 116.

### Um Nasa-blóð (Hæmorrhagia narium).

Þegar nasir blæða ákaft, skal binda bøndum um limina útvortis, sem áður er sagt §. 84; síðan drecki hinn sjúki mikið af køldu vatni; þar eptir takist klútur, vættur í vatni og góðri sýru, og leggist bæði við ennið, hnackagrófina, hálsinn og lífið neðst, eður við vinstri síðuna, nærri hjartanu. Auk þessa gjørist tappar úr

*) Sjá Skíríngar-grein til §. 18. P.

**) Kallast líka: Veggja-hrís og Rauð-arfi, og af sumum Hlað-arfi og Oddvari; nockrir kalla Hyrðis-tøsku eða Hjart-arfa (Thlapsi bursa past.) Blóðarfa, eins og Author hér meinar. P.

Eikar-svampi og stíngist inní nasirnar; edur og vætist línskaf í Hoffmanns-dropum og brúkist á sama hátt*). **)

## §. 117.

### Um Qvefsótt (Febr. catharralis).

Qvef er stundum svo léttur sjúkdómur, að þótt engra ráða sé vidleitað, þarf eckért að óttast; en opt leiðir það meira íllt eptir sig, en margur hyggur. Þegar það er mjøg mikið í fyrstu, eda varir mjøg lengi, er vant þaraf að leida margskonar sjúkdóma fyrir brjóstinu. Qvefgjarnt fólk er sjaldan heilsugott, því hinn náttúrlegi dampi verdur strax óreglulegur af litilli yfirsjén í mati eda dryck og ýmsri adbúð.

## §. 118.

Qvefi er opt samfara sóttarsnertur, verkur og sárindi í hálsinum og fyrir brjóstinu; þar með fylgir og tøluverður høfudverkur, einkum medan hóstinn er mikill en uppgángurinn lítill, hvað vara kann viku og jafnvel lengur. Af því svo fáir leita sér hjálpar vid qvefi, varir það á mørgum lengi, sem fleirstum er skadlegt; því sá mikli hósti umbreytir øldúngis útliti mannsins og spennir blódið upp í høfudið, meir enn ber; sjúklíngurinn gétur ecki sofið; hann missir matarlyst; lúngun reynast of-

*) Naudsyn býdur opt, ad opna æd á handleggi eda fæti. Blódarfa brúka Færeyíngar hervid. Samanvid Hoffmanns-drópana láta sumir til helfínga Vitriól-Spiritus. Almenn trú er, ad þetta tilfelli eldist af med Nef-tóbaki. P.

**) Ad leggja kaldann vatnsbakstur aptur og aptur jafnódt og hann volgnar, vid fædingar-limina og nedan til á lífið, er gott ráð vid nasa-blódi. Th.

mikið af hóstanum, og missa af því sinn náttúrlega krapt.

## §. 119.

Tíðast kémur Qvef af ofmiklu og helzt ofþykku blóði og slímfullum søstum, og sem Landfarsótt, við ýms veðrabrygði, einkum kulda eptir hita; er því nauðsynlegt að hinum sjúká sé gésið ríflega að drecka af volgri mysu, grasa-seyði og øllu þesskynns þunnu, með 1 qvintíni af Saltpétri í hverjum potti. Neyta má hinn sjúki allslags maturta, þar dýrkaðar eru, en forðast kjøt og allann þúngann mat. Þar eð qvef kémur af því, að útdampanin hindrast, eða verður á einhvern hátt óregluleg og grípur mest blóðríka, er velfleirstum nauðsynlegt, að láta opna sér æð á handleggi og brúka fótbað af volgu en ecki heitu vatni. Í stað qvøldmatar taki hinn sjúki 20 til 30 grøn Saltpéturs. Minki ecki qvefið og hóstinn við þetta, er óhætt að géfa enum sjúka Stórax-pillur*) undir svefninn, svo framt hann hafi ecki køldu. Hafi qvefið tilbyrgt nasirnar, skal sjúklíngur sjúga volgt vatn uppí þær, mysu eða theevatn, nockrumsinnum á degi hverjum, edur dampana þaraf. Þeir, sem qvef hafa, skulu forðast alla áfenga drycki, sterkann kulda og mikinn hita, þeim er heldur ecki þénanlegt að borða á qvøldtíma**), sjá framar §. 123.

*) Í staðinn fyrir þessar úreldtu Pillur, má í þrálátum hósta eptir blóðtøku, brúka Pillurnar Nr. 14, eptir enum franska Dr. Pariset, af þeim gésist morgna og qvøld 2 pillur eða 3 í senn. P.

**) Ecki er þeim óráðlegt að reykja tóbak undir svefn og sofa með brínguskjól, edur bót af loðnu ullar-tøji á brjóstinu, bundið upp um hálsinn að ofan, og aptur fyrir búk að neðan, edur í einhnepptum brjóstadúki; liggja með Anis-tuggu uppí sér, og svo frv. P.

## §. 120.

Til eru menn, sem fremur ødrum er hætt vid qvefi; þetta kémur þar af, ad útdampanin er í óreglu komin og maginn ásamt lúngunum er kraptminni enn ber, hversvegna hinir slímfullu og skørpu vetzar géta audveldlega þángad safnast, því þar er minni fyristada enn annarsstadar. Þessir menn megu fordast mikinn hita; sofa í svølu húsi; eta med jafnadi kaldann mat; drecka kaldt; þvo fæturnar opt í køldu saltvatni. Auk þessa, taki þeir 2 lód af hinum besta Kína-berki, skipti í 16 parta, og taki inn 1 skamt ad qvøldi og annann ad morgni dags í lángann tíma. Þeir fátæku, sem ecki hafa efni til ad kaupa þetta medal, sjódi Vallhumal í vatni, og drecki þad seydi ydduglega kaldt, brúki líka Vallhumals-pillur, §. 84, edur tyggi hann ødruhie ju og renni nidur løgnum.

## §. 121.

### Um Lúngnabólgu (Pneunomia).

Þessi sjúkdómur, sem hér umtalast, er bólga edur þroti í lúngunum; hann kémur tídum af lángvarandi kulda, sem gjørir hinn sjúka mjøg órólegann; þarmed fylgir annadslagid kulda-hrollur, annad hiti; lífædin slær stundum sterkt og fljótt, stundum lint og óreglulega; hinn sjúki finnur til eymsla ødrumegin í brjóstinu. Stundum finnst honum, sem eitthvad þrycki eda pressi brjóst hans og jafnvel hjarta; þar med fylgja beinverkir*),

*) Ad enum innvortis verkjum, brjóstþýngslum og hósta fráteknu, eru þau fleirstu, í þessari grein, upptøldu tilfelli, fleiri edur færri, þad, sem almennt af læknirum kallast Sótt eda Feber, sem þrátt fylgir óteljandi veikinda tilfellum, meir edur minna, en ecki kalda. (Sjá Skír. gr. vid §. 93, um køldugrasid, samt Landph. J.

sem hvad sárastir finnast í hrygggnum og lendunum. Sjúklíngar þessir géta ecki legid nema á bakid; stundum hafa þeir þurrann hósta; stundum fylgir þar med lítill uppgángur, annadhvert blódmeingadur eda tómt blód, høfudþyngsli og jafnvel órád. Kjálka- og kinnar-beinin eru raud, bleikar rákir ofan med nefinu og millum kjálkabardsins og kinnbeinsins; augun inndregin og yfirbragdid stórum umbreytt; húdin, varirnar, túngan, gómurinn, þurrt, en andinn heitur; þvagid í fyrstu litid og raudt, en eptir nockra tíma meira og ljósleitara, og þá er þad hefir nockra stund í hreinu iláti stadid, setst á botninn gul-leit sandvera. Hinn sjúka þyrstir mikid; stundum hefir hann mikla ógledi og velgju; líkami hans er heitur mjøg; á hverju qvøldi er honum þýngst, og þá er þurri hóstinn ákafastur. Stundum gengur lúngnabólgan rétt uppundir barka í lúngunum, sem qvelur mjøg sjúklínginn, svo hann gétur ecki án þrauta nidur-rennt a); honum liggur opt vid køfnun, svo hann má med flýti setjast upp og rétt sem gleypa í sig vedrid, annars er honum búid vid skyndilegri andarteppu. Hann hefir sífeldann herdaverk; líkædin slær hér ofurlítid, en furdanlega fljótt. Andlitsins yfirlitur er blár; hinn sjúki kastar sér frá einni sídu til annarar; stundum er annarhverr handleggurinn abl-laus. Øll þessi tilfelli aukast, uns sjúklíngur géfur upp øndina, sem eg hefi nockrumsinnum vitad ské hér á landi á 7da og 9da degi.

a) Pad er yfir høfud ad segja: ad þessi sjúkdómur tekur lángt fleiri af lífi hér á landi enn nockurr afveit, hvad vafalaust má koma af því, hann þeckja svo fáir, brúkar svo hinn sjúki strax í byrjun sjúkdómsins þad, sem honum kann ad vera skadlegast. Fáa veit eg blód

Sveinssonar ágæta rit um Landfarsóttir, í Isl. L. l. Fél. Rita 4 B.) P.

taka, en fleiri géfa inn Einirberja- og Terebintín-olíur, og taki þetta ecki hreint lífid af hinum sjúka, umbreytist lúngnabólgan í marghåttud lúngnamein, hverjum margbreytt tilfelli fylgja. Otal hrylli-leg dæmi gætu tilleidst, er sýndu, hversu hollt þad muni vera, eda hitt þó heldur, ad brúka í þvílíkum sjúkdómum onnur medøl enn vera egu. Fyrir illa og ógætilega brúkud medøl í þessu tilfelli, sem mørgum ødrum, hefir margur mátt missa lífid, bædi hér á landi og annarsstadar.

## §. 122.

Komi þessi sjúkdómur mjøg brádt ad, sóttin í fyrstu sé mikil og vari nockud lengi; komi þar eptir mikill og brennandi hiti med órádi; eyri hinn sjúki ecki í rúminu; smá-tutli hann lóna á rúmføtunum; fái hann búkhlaup; húdin verdi mjøg þurr og augun hvøss, þá er sjúkdómurinn optast daudlegur, nema hinn sjúki sé í því betri læknis høndum.

## §. 123.

Undir eins og vart verdur vid sjúkdóm þenna, skal hafa bestu gætur á því, ad hinn sjúki drecki ecki annad enn volgt vatn, edur volga mysu med Saltpetri, sem segir §. 119; þunnt grasa-seydi miklu vatni blandad, en þó einkum eptirfylgjandi grjóna-seydi:

Tak: 12 lód Bygg-grjóna, sjód þau í 4um pottum vatns, med 3ur qvintínum Saltpéturs, til þess grjónin eru sprúngin, sía þau sídan frá og lát hinn sjúka drecka smámsaman volgt, svo lengi hann er veikur.

Strax, sem kulda-hrollinum, §. 121, linar, séu tekin 24 lód eda 3 pelar blóds af handleggi ens sjúka, eda sem svarar 4um medalmáta theekoppum (samanb. §. 138); sídan sé honum sett stólpípa, í hid minnsta 2svar á

dag, med seydi af bleytandi urtum (Species emollientes), er fást á Apótheki, edur straxnefndu grjóna- edur sterku arfa-seydi. Opt þarf ad taka blód 2svar eda 3svar hvern daginn eptir annann, má þá ad ósekju blæda nockud meira enn ádur er sagt. Strax ad afstadinni hinni fyrstu blódtøku, géfist þeim sjúka 6sinnum á dag 1 theebolli af eptirfylgjandi brjóstdryck:

Tak: gódann pott af vel sterku Hyldeblómstra seydi, og blanda þarí 4 lódum af Sjólauks-saft (Oxym. Sqvilliticum), edur Hellu-hnodra saftinni, §. 46.

Litla stund á hverjum degi séu fætur ens sjúka settur í vatn, sem litlu sé heitara enn nýmjólk, en vakta skal hann vel fyrir kulda. Auk þessa takist sjódandi vatn, þarí blandist nockud af víni edur øl-edike, og skal sjúklíngurinn gapa yfir því og anda gufuna, en yfir høfudid sé breidt fat eda traf medan á þessu stendur*); hvar þessu ecki verdur vid komid, fyllist óeltar kýrblødrur vel til hálfs med heitu vatni, og leggist yfir allt brjóstid ad utanverdu, hvad eptir annad hitadar, nær vatnid kólnar. Ad sýra dryck ens sjúka med Spiritus vitrióli**), er ávalt naudsynlegt, þegar tilfellin eru hættuleg.

## §. 124.

Þegar þvagid fer ad aukast og vart verdur vid, ad í því sé bleikraud sandvera, edur slímid, §. 121; upp-

*) Hér til eru og áburnefndar bleytandi urtir ypparlegar. P.

**) Einn peli af mysu, ellegar þunnu Hafra- edur Bygg-seydi, 1 lód af sykri eda sýrópi og 60 dropar af Vitriól-Spiritus er þægileg vokvun øllum bólgu-sótta sjúklíngum og besti sótta-dryckur. P.

gángurinn hægist og eykst, litlu eda engu blódi blandadur, þá lina øll hin þýngstu tilfelli þessa sjúkdóms; en ádur þetta skédur, verdur hinum sjúka opt svo þúngt, ad allir óreyndir búast vid bana hans, einkum hafi sjúkdómurinn þúngur verid frá upphafi. Þetta kémur af: ad hid skadlega efni sjúkdómsins dreifir sér, og vill sem fyrst á flótta fara af líkamanum, hvar eptir hinum sjúka ávalt batnar*). Á þessum tíma má enginn hindra náttúruna í hennar verki med neinum medølum; þad eina, sem ad ósekju má gjørast, er, ad setja þeim sjúka stólpípu, og breida 3 eda 4faldt fat, undid upp úr volgu vatni, yfir brjóstid og lífid. Hvertheldur hinn sjúki fær hóflegt nasablód, svita edur búkhlaup, má þad ecki stillast í þessari né ødrum sóttum.

## §. 125.

**Um graftar-sulli í Lúngum (vomica pulmonis).**

Þegar framanskrifadur sjúkdómur er ílla medhøndladur, hinum sjúka tekid ofmikid, oflítid edur offsíđla blód, gésin allt of hitandi medøl (sjá Skír. gr. vid §. 121); kaldut dryckur og sterk búkhreinsandi, edur líkamann samansnerpandi medøl, edur nockud þad, sem veldur því, ad þær bólgnudu smápípur í lúngunum, géta ecki vidskila ordid slímid og annad, er þær hefir stýflad, þá safnast þessi óklárindi saman einhversstadar í lúngunum, rétt á sama hátt, sem þá kýli eda mein dregur sig saman utaná líkamanum. Utan um þvílík lúngna-mein, eru

*) Hér mun Author meina merkitíma þá, edur umbrot er náttúran á vissum døgum gjørir í sóttveikum, bædi af þessari og fleirstum ødrum, sem Læknar kalla Crisis, og dæma eda ráda þaraf útfoll þeirra, hvad almenníngi mundi varla audskilid, þó fleirum ordum yrdi hér um farid. P.

margopt seigar himnur edur fulla-hús, sem naumast láta undan medølum fyrr enn máské ofseint. Séu fullarnir utarlega í lúngunum, géta þeir allteins sprúngid og þó innar væru, en grøfturinn lendir þá, þegar þeir eru utarlega, í brjóstholinu, edur hylki því, sem er á milli lúngnanna og rifjanna, edur himnu þeirrar, sem umklædir lúngun, en þyndin stendur fyrir ad nedanverdu, svo eckért gétur sígid nidur fyrir hana, og dregur þad opt daudann eptir sér (sjá §. 135); en sprýngi inn í andpípurnar, og hinn sjúki kafni ecki snøgglega, gengur grøfturinn upp, og þessum batnar oplega.

## §. 126.

Sé þvílíkur fullur mjøg stór og sprýngi hann snøgglega, en hinn veiki sé mjøg vesæll undir, þá er jafnan lífid í hættu, deya þeir menn opt skyndilega, en grøftur rennur af vitum þeirra eptir daudann.

## §. 127.

Enginn meina eg nái tølu á því, hversu opt þvílík mein orsakast hér á landi af illa medfarinni lúngnabólgu, og hversu margir þau fá kunna út úr qvefi, er óvíst. Þad eina gét eg sagt: ad hér lifa margir menn, sem þjást af daudlegum brjóst-sjúkdómum, og sem hafa mér sagt: ad brjóst-sjúkdóma sína hefdu þeir fengid þad og þad haust út úr lángsømu qvefi, en sem færstir hyrda um ad leita sér hjálpar vid.

## §. 128.

Þessi eptirfylgjandi teikn géfa grun um, ad grafid sé í lúngum manns edur fyrir brjóstinu: þegar hann hefir jafnadarlega eins og lítinn sóttar-hrylling; lífædin slær fljótt, en þar hjá stundum hardt, stundum lint, og slátt-

urinn finnst undir fíngrinum, svo sem væri það hrær-íng af vatnsbylgjum edur titrandi. Eg hefir adgætt hardann, fljótann og sem blaktandi slátt, á ødrum hand-legginum, en þvert á mót á hinum. Andardráttur því-líkra manna er þúngur; þeir fá opt og tídum hita og kulda-hvidur á víxl, kaldann svita, mikinn þorsta og vara-þurk; sumir fá sóttar-vímur á qvøldin, adrir um morgun-tímann; færri svitna um brjóstid, edur hvar meinsemdin liggur undir. Þegar øll þessi tilfelli aukast, má ætla ad lúngnameinin séu grafin, tvøfaldast þá hóst-inn og brjóstþýngslin, bædi vid minnstu hræríngu og lítilvæga matarnautn; þeir þola ecki ad liggja, nema á þá veiku sídu; stundum verda þeir ad sitja uppi vid herdadýnu, annars ná þeir ecki øndinni; svefnleysi ásækir þá, og finna jafnan til køldu-hrolls, eru órólegir og svitna af ángist, einkum um nætur; þvagid er raudleitt, opt med frodu og sem feitri himnu ofan á. Margir qvarta um vondann smeck í munninum; sumir segjast ecki þola ólyktina út úr sér; margir þeirra eru gul- og blá-leitir, fá opt snøgglega hita í andlitid; hafa sárann þorsta; munnur og túnga eru opt þurr, røddin hás og augun dregin inní høfudid; á nockrum sjest kúla fyrir nedan mædubrjóskid *); brínguteinarnir skaga meira fram og út, enn náttúrlegt er, og sú umgétna kúla er opt stærri enn hveitibrauds-kaka, þó hinn sjúki eckért hosti; opt finnst lífædin eckért slá.

*) Fullyrda má þad: ad á øllum helfíngi þeirra hér á landi, sem hafa graftar uppgáng og kallast brjóstveikir, eru lúngun ósjúk, en upptokin fyri nedan þynd, optast fyrir bríngsmølunum í lifrinni; hún grær vid þyndina, þyndin vid lúngnaseckinn og lúngad, og meinlætid grefur þar ígégnum uppí lungnapípurnar, og gengur svo upp. Sam-ander Lifrar-flód. P.

## §. 129.

Þegar finnast mørg edur fleirst áðurtaldra teikna hjá sjúklíngi einhverjum, má þaraf víst ráða, að graf-fullur sé í lúngunum, skal þá af fremstu krøptum leitast við að spreyngja hann; því má hinn sjúki ydúglega gapa yfir og sjúga ofan í sig gufu af heitu vatni, drecka vel mikið af Grjóna-seydi §. 123, edur miklu vatni blandaða heita mjólk, svo maginn sé sífeldt fullur; síðan sé sjúklíngi komið til að hósta, með því að láta hann lukta af volgu ediki, eða einhverju ødru, sem hefir sømu verkun. Hann má líka kalla hátt ellegar ríða spølkorn, ef hann það gétur, þaraðauk skal hann taka brjóstdryckinn, sem segir §. 123; því með þessu móti er helzt von að sullurinn sprýngi; verði það þá um síðir, og liggi við að svíma að enum veika, skal láta hann lukta af volgu ediki; það eitt nægir hér til, sé hann ecki fallinn í dauðans ómegi.

## §. 130.

Sé hinn sjúki mjøg máttlaus, þá er meinsemd hans opnast, grøfturinn allt of þunnur, gulur eða grænn, mjøg miklu blóði meingaður, ílla luktandi, og hinn sjúki hresðist mjøg lítið við uppgánginn, þá eru øll meðøl forgéfins; en hægi honum nockuð og sé hann ecki mjøg máttdreginn, þá er maður vonarbetri um að hann læknist af fylgjandi meðala réttri brúkun:

## §. 131.

Hann skal smáu saman drecka lítið af Bygg- edur Grjóna-seydi; en sé það, er uppgengur, mjøg seigt og þyckt, taki hann 6sinnum á dag af Sjólauks-saftinni og Hyldeblómstra-seydinu §. 123; annars þarf þess varla: spenvolg nýmjólk er øllu góð,

sé uppgángurinn mátalega þyckur, og ad drecka nockud af vel sterku seydi af **Vallhumli**, samt rída daglega spølkorn, eins og hann þolir, þegar gott er vedur.

## §. 132.

Í ødrum løndum þar tilveit brúkast **Kínabørkur***), annadhvert í púlveri, ellegar í vatni sodinn og frásíadur og vid seydid blandad litlu **hunángi**. Sé hann í púlveri inntekinn, er géfid 1 qvintín 4um eda 6sinnum á dag, edur þaraf gjørast pillur; en þess er ad gæta, svo gott og alprísad medal hann er, svo óbærilega dýr væri hann fátækum almúga hér á landi. Eg hefir med eins gódum notum brúkad ádurtalinn **Vallhumal** í nockrum tilfellum og jafnvel **Fjallagrøs**.

## §. 133.

Pad vardar miklu, ad hinn sjúki sé ecki í daunslæmu húsi né reykjarkasi; jafnadarlega skal opna glugga, kindt litlu af einir-limi, og jafnvel skvett kríngum rúm hans gódri sýru**). (Sjá §. 68.)

## §. 134.

Þegar uppgángurinn smámsaman þverrar, og sjúklíngïnum batnar undir eins, þá er fullkominn bati nockurn-

*) Ecki er tilrádandi almenníngi mikil **Kínabarkar** brúkan, nema ad fyrilagi reyndra og reglulegra Læknara; hann er ecki heldur géfinn! og má ecki brúkast nema hægdir til baksins séu nógar og þarmarnir vel úthreinsadir á undan. **P.**

**) Mørgum þenna veg veikum, reynist **fjós hiti** einkar hollur, þegar vel og ræksilulega er umgengid. Kérhold full af køldu, opt umskiptu, vatni med þvotu í, plaga menn í þessu, sem ødrum sótta tilfellum, ad láta standa umkríng rúm hins sjúka, og hræra opt í þeim. Samanber **Fausts Spurnínga-qver Heilbrygdinnar**. **P.**

veginn viss; en mínki lítid uppgángurinn, eptir lánganu tíma, sjái ílla út og hinn sjúki fái kolduhroll hvert qvøld, þá er ad óttast, ad meinlætid vilji ecki gróa, heldur eta meira og meira um sig, en hinn sjúki fái ólæknandi lúngna-tæríngu (Phthisis). Þar svo tilber, á ad leita sér hjálpar hjá æfdum læknir, þar sem þess er kostur. Þad ber stundum vid, ad hinn sjúki sýnist læknadur ad fullu, þar øll tilfellinn hætta um stund, en þau koma aptur þá minnst varir; gengur þá upp, sem fyrri, bædi fullahúss og annad, fer þetta á sømu leid nockra stund; en þad þarf ecki svo mjøg ad óttast, ef sjúklíngurinn heldur sig vel vid framanskrifadur reglur, og þetta skédur ecki mjøg opt.

## §. 135.

Ef lúngnamein sprýngur út úr lúngunum og sétur sig millum þeirra og rifjanna, §. 125, þá finnst þeim sjúka sem honum létti um stund, en léttir sá snýst án tafar í sárleg þýngsli, strída sótt, hita, þorsta, máttleysi, svefnleysi, aungvit og marghàttud þvílík tilfelli, sem hér er engin þørf upp ad telja, því þar á móti er eckért annad ráð, enn opna síduna milli rifjanna, sem einúngis er hendt þeim, sem því verki er vel vanur.

## §. 136.

Þegar bólga sú, er í lúngun kémur dreifist ecki né losnar frá brjóstinu, med uppgángi slíms, graftar, sulla, edur sprýngur úti brjóstid, þá skédur annadhvert af þessu tvennu: lúngun verda ad holdfúa, edur sem annad daudt kjøt, eda í þau koma hardir hnútar, sem kallast Briss-sullir, rétt eins og sjá er í ødrum sképnum. Hid fyrra tilfellid þeckist af því: ad hinn sjúki hefir óbærileg þýngsli fyrir brjóstinu, og þad, sem upp frá því

gengur, er døkkleitt og ílla luktandi vatn eda korgur; hinn sjúki fellur í aungvit, verdur máttlaus; hendur hans og fætur verda kaldar. Bris-fullunum fylgir þurr hósti, sem ætíd eykst þegar hinn sjúki etur nockud eda hrærir sig. Hverutveggi tilfelli þessi mega reiknast ólæknanleg; því jafnvel þó sumum hafi tekist ad lækna þessa hørdu hnúta í lúngunum, hafi þeir verid bólga eintóm, þá er hjálp sú ónýt og óviss, þar þeir eru ecki ætíd þannig. Lúngun eru ad sønnu stundum øll bólgin, og innan um þan øll hardir hnútar, svo ecki láta hid minnsta undan fíngrinum þótt kreystir séu; millum þeirra eru lúngun svo morkin, ad reka má fíngur í gégnum þau, eins og blautt brauddeig væri. Séu hnútar þessir opnadir, finnst himna utan um suma, svo føst og seig, sem skinn, innanundir henni, er eins og smá sandvera, gul ad lit. Í sumum er vatn, í sumum grøftur svo þyckur, ad ecki hnígur, og fleira þessu líkt, hvad optlega sjest hér á landi á sképnum þeim, er slátrad er, og ecki géta lifad søkum þvílíkra meinsemda*).

## §. 137.

### Um Tak (Pleuritis).

Þad Tak, sem hér umtalar, kémur med miklum høfudverki, hita og beinverkjum, edur (sem er hid sama) megnri sótt, hverri ad fylgir sár stíngur í annarihverri sídunni, er sumir eginlega kalla Tak, en sumir hverutveggja til samans Taksótt, edur landfarsótt med Taki**).

*) Nockud um þessar óttalegu, í útløndum algengu, traudt læknanlegu tærandi brjóstveikjur, er verdt ad lesa, medal annars í Kl. pósti 1825, bls. 14, og um Uppsølu Vínstein sérílagi hollann bls. 15. P.

**) Vara má sig á því, ad margir hér á landi nefna alla

## §. 138.

Orsøk þessa sjúkdóms er øll hin sama, sem lúngnabólgu, en audveldlega þeckist þó tak frá hinum fyrri sjúkdómunum, af þeim sára stýngi, sem hindrar andardráttinn og eykst, þá andinn dregst ad sér; því fylgir snøggur og stuttur andardráttur og mikill þorsti; hinn sjúki talar opt høfudóra; stundum er takid í tveim stødum i einu, undir eda nálægt annari geirvørtunni og vidbeininu sama megin, en sjaldan er stýngurinn eins sár á bádum stødum. Þá þessi sjúkdómur er lakastur, er brjósthimnan ecki einúngis inntekin af bólgu, heldur lúngun sjálf og innvortis brjóstvødvar, þegar fram í sækir, géngur blódid svo mjøg upp í høfudid, andlitid litverpist, og andardrátturinn verdur svo ópolandi, ad hinn sjúki hlytur ad géfa upp øndina. Eg þarf því færra hér um ad tala, sem eg var lángordari um lúngnabólguna, því med þenna sjukdóm á allteins ad fara og þar er frásagt, §. 123. Blódtaka, þeim megin hvar takid er*), yfirsljótanlegir, þunnir og bólgueydandi dryckir, eru í alla stadi ómissandi, og hvert heldur hinn

sára og snøgglega tilfallandi tilfallandi verki, eins i útlimum, sem innvortis, Tak; hér meinast bólga í himnum lúngnanna og brjósthvolfsins ad innan, er veldur svo sárum og føstum stýngi, ad sá veiki ecki þolir ad draga ad sér hálfann anda. Þad fyrra mætti, þegar þad er med sóttar tilfellum, nefnast Flugtak-sótt (**Febris rheumatica**), en hid sídara Bólgu-taksótt (**Febris inflammatoria**), sem í brjósthols-himnunum kallast **Pleuritis**, í lúngunum sjálfum **Pneumonia**, í lifrinni **Hepatitis**, og svo frv. **P.**

*) Í lúngnabólgu þarf ecki eins mikid ad blæda í senn, og þessari, en í bádum er þad ecki sjaldan, ad opna verdur ædina 2svar eda 3svar í sólarhríngi, uns verki svíar. Í þeirri minnilegu Taksótt frá Vesturlandi árid 1791, vár mátinn: ad láta blæda rennandi stóra Spolkommu,

veiki dreckur mysu edur annad, ætti honum fyrileggjast ad drecka 3 til 4ra potta med hverjum 2ur dægrum. Kaldt má hann ecki drecka, heldur volgt, því annadhvert verdur sá kaldi dryckur bani hans, edur hann veldur hinum þýngstu tilfellum, er allmargir hér á landi bera eptir taksótt allt til grafarinnar.

## §. 139.

Utvortis yfir Tak skal leggja bakstur, annadhvert af kýrblødrum, hálf-fullum af volgu vatni, edur velþyckum grjónagrauti í mjólk og vatni sodnum, sem hvad eptir annad má velgjast, í 2 poka innsaumadur, hverra annar liggi vid, medan hinn er velgdur *). Nockrir leggja Spansflugna-plástur yfir takid, og þar ofanyfir klædi undid upp úr heitu vatni, og hvad eptir annad velgdu, minkar þá optastnær takid, þegar plásturinn hefir blødru upphleypt.

---

og strax, er búid var um ad binda ædina, leggja Spansflugu-plástur, qvartil í ferhyrníng á takstadinn, og dugdi øllum, er í tima var gjort, sem ecki vóru innanveikir undir, eda meinlætafullir. P.

*) Bakstrar (Epithemata) eru yfir høfud þrennslags: þad, sem hér er umtalad, heitir Grauta-bakstur (Cataplasma) búid til úr allráhanda grjónum, muldu braudi, korntegundum og í smátt skornum urtum, og ýmsum løg; þaradanki eru þurrir bakstrar edur urtapósar Epithema siccum), þegar smábrytjadar urtir og ýmislegt dupt, er látid í gisna léreptspoka, og þurrt vidlagt; og votir (Epith. humidum), þegar margfaldir klútar, eda prjónasaumur, ullarløi og blødrur, §. 60, 2c. fylltar volgu vatni og þesshattar, er vætt í einhverjum løg. Bakstrar þessir eru þar fyrir utan heitir eda kuldir, hvert sídara eginlega heitir Umslag (fomentum), þar bakstur heldur bendir til hita. Samanber um þetta og ønnur fleiri andfengin medøl, Landph. Jóns Sveinssonar, lángt yfir mitt lof upphafda rit, í Ísl. Lt. Fél. Ritum, 15da Bindi. P.

## §. 140.

Margir sjúkdómar hér á landi, eru ad vísu ílla medhøndladir, en enginn, sem eg veit, verr enn þessir hér töldu, hverjum ad fylgir innvortis bólga. Þeir sjúku eru látnir belgja í sig mikid af køldu vatni, bløndu eda mjólk, þegar veikin þreyngir sem hardast ad þeim; vid þad má sjúklíngurinn annadhvert kafna, ellegar veikin snýst uppí rotnunar-sótt, og hann, sem ádur var hinn hraustasti, er daudur innan 7da eda 9da dags; en ecki nóg med þetta! hér hlaupa nockrir um landid; eg veit ecki í hverjum hjátrúar- edur hindurvitna-skóla þeir hafa lært; er látast kunna ad lækna veiki þessa med handa-uppáleggíngum, og kremja og kreysta þann veika þar, sem tilfinníngin er sárust; kalla þetta: Ad taka einum tak*). Hversu skadlegir, sem þvílíkir karlar eru, verdur því ecki neitad, ad fávíst og einfaldt fólk sækir þó hjá þeim rád og hjálp, optar meir til skada enn ábata, sem øll er von til; verdur þá optast sú endalyktin, ad sjúkdómurinn snýst í forrotnun, og líkaminn

*) Fáum géfst ad sønnu optar tilefni til ad gremjast, enn Læknirum; en ofmikid má úr øllu gjora! Sjed hef eg og heyrt fólk fara høndum um takverki, en aldrei, þad eg tilveit, med harka þeim, er hér segir. Eg hef líka reynt og vitad jardartorfu úr kirkjugardi skorna, drepa sárann takverk, eptir þad, ad ønnur annarstadar med ásetningi skorin óvitandi þeim sjúka, var forgéfins reynd; en ad eg ecki tali um þá annars ógrípanlegu Sympathí (samlídun ýmsra hluta hvers med ødrum); mun ecki margt hvad sem af vidlíku tagi er, og sú ádursagda handauppálegging, géta komid uppá, eda skilist, af skopulagi og náttúru organiskra líkama: ad géta dregid vøkva hver úr ødrum (per absorptionem); mér þykir, sem egin reynsla mín sanni þetta, og jafngódur er sjúklingur, þó strokinn sé med volgri hendi; samanb. Skír. gr. vid §. 17, 145, 149. P.

blánar á þeim stad, hvar bólgan var undir, sem hinn einfaldi eignar máské íllum anda, sem hafi verid med í verkinu. — Allt hid sama er ad segja um þá, er í þvílíkum tilfellum géfa Terebintíu-olíu og adra þessháttar áfenga drycki; líkaminn blánar eptir daudann, því bólgan endast optastnær med sterkustu rotnun. Lángt sé frá mér ad eg skrifi þetta af hatri vid þá, er þvílíkt vinna, því ecki hefi eg, í tilliti til mín, þeim neinar heiptir ad gjalda, heldur vil eg einúngis vara einfalda vid, ad trúa ecki hverjum og einum óþecktum og óreyndum, er látast fara med lækníngar, fyrir sínu og náúnga sínna lífi og tímanlegu velferd a).

a) Menn segja: ad fólk géri þetta í gódri meiníngu; og þad er líka satt! en svo skadleg góð meiníng á þó ecki ad gylda fyrir løg. Þeir vita ecki betur; þad er og satt! en søkum vanþeckingar á sjúkdómunum, ber þvílíkum fávísum mønnum ad fordast allar lækninga tilraunir, en láta náttúruna ráda því verki, er þeir ecki fá gjort án þess ad ríða henni á slig. Þeir, sem eitt hvad gjøra vid sjúkdóm þann, er þeir ecki þeckja, eru engu vissari ad gjøra hinum veika gott heldur enn íllt; þeir vænta víst eptir hinu góda, en þeckja oftlítid af því skadlega, sem vissast er þeirra blind vidleitni fái verkad *).

## §. 141.

Þad er øldúngis ómissandi, ad láta trúann mann vaka yfir þeim, er liggja í þessari og ødrum strídum sóttum á medan þær vara, svo aldrei fái sá sjúki neitt kaldt ad drecka, ecki liggi nakinn, né í nockurn máta breyti út af því, er vera ber, heldur lifi rétt eptir því, sem fyriskrifad er, þá endast sjúkdómurinn optast heppilega, og

*) Þessi blinda vidleitni er þá upphafid og addragandinn til kunnstarinnar, eins og margfaldar hendíngar; en þad er ecki allra med ad fara. P.

varir ecki mjøg lengi, svo hinn sjúki, sem annadhvert má missa lífid, eda liggja hálft eda heilt missiri, kaun ad vera kominn til heilsu sinnar eptir 14 daga, þegar allt gengur vel.

## §. 142.

### Um Qverkabólgu og Qverkamein (Angina).

Hálsinn er á løndum vorum engu sídur undirorpinn sínum sjúkdómum, heldur enn brjóstid og þess umliggjandi himnur og vødvar. Hér umtalast þau qverkamein, sem koma med kulda-hrolli, hita, høfudverki og sóttar umleitun; aumleika og verki innaní qverkunum, er vex, þángad til hinn sjúki getur vårla og stundum ecki nidurrennt, sízt því, sem þunnt er; þvag hans er raudt.

## §. 143.

Undir eins og vart verdur vid þesshattar qverkamein, med bólgu í hálsinum, skal taka hinum sjúka blód, jafnvel optar enn einusinni, á handlegginum, sama megin og qverkabólgan er; setja honum stólpípu; láta hann bada fæturnar tvísvar á dag í volgu vatni; sjóda Hafragrjón í vatnsblandadri mjólk, sauma innan í léreptspoka og leggja utan um hálsinn (§. 139). Drecka skal hann toluverdt af mysu eda ádurnefndu Grasa-seydi; skoli hálsinn ydruglega med volgu vatni og Ediki eda gódri sýru sambløndudu. Upphaflega skal setja Spansflugna-plástur undir qverkina, sem sagt er §. 139, þad gjørir ena fljótustu verkun. Séu þessi nú søgdu medøl vanrækt, þá er fyrst finnst til qverkabólgu, og gengid svo med hana nockra daga í rød, linast ad sønnu tilfellin, sem fylgja qverkameinum, og þó grefur engu ad sídur í qverkabólgunni, hvar ætíd finnst til klappandi verkjar, sem øllum ber vel ad adgæta; linar hún um

sídir, hvar verkurinn difadi mest, eda fær lítinn hvítgulann nabba edur bólu á sig, einkum ef bólgan situr innan til í hálsinum. Þegar þetta sjest, má opna bólguna med þar til hentugu verkfæri, og láta þá ben vera heldur stóra enn litla *). Þegar grøfturinn hefir runnid út, skoli hinn sjúki munninn med vatni og Ediki. Stundum er bólgan meiri útvortis, svo ad grøfturinn dregst út, og þá bólgan er þar opnud, skal fara med sárid, sem kýli.

## §. 144.

Þegar qverkabólgan er mjøg mikil og inntekur þá parta í hálsinum, sem liggur vid túnguræturnar kríngum barkakýlid og úfinn, er veikin ávalt hættuleg; andlitid bólgnar ad utan, svo hinn veiki fær engu nidur-rennt; túngan blæs upp og hángir útá hoku; nasínar eru opnar mjøg, því sjúklíngurinn á bágt med ad anda **).

## §. 145.

Það er venja allmargra hér á landi, þá einhverr fær

*) Þetta er lángt frá allra medfæri, og einúngis æfdum Læknirum hendt. P.

**) Þá er einkum Spanskflugna-plásturinn ómissandi og þar utan á bakstur af møludu og í nýmjólk sodnu Bánka-byggi, í þykkann graut, hvar saman vid er stappad í volgri pott-løgg, dálitid af nýu smjøri; þetta uppvelgt aptur og aptur, og í hvert sinn saman vid stappad nýtt smjør, til mýkinda, þar til út eda inn gierir. Gúmmí-plástur er hér, sem optar, einkar gódur, í tíma vidlagdur. Til ber þad, ad andrúmid teppist, svo ad opna verdur barkann ad utan, en ecki voga þad nema gódir Handlæknar. Opt flemmist fyrir qverkamein, ef strax er áborid Ammoniac-linement ad utan, en ad innan skolad (gúrglad) med Hyldeblómstraseydi í vatni, og jafnódt útspýtt, en þess á milli smádruckid sopum saman. P.

qverka-bólgu, ad leggja vid hana gullhríng útvortis. Þeim enu sömu vil eg þad segja: ad góð blóðtaka, stólpípa, dampi af volgu vatni, volgur kjæsir eda drafli vid hálsinn lagdur, er miklu betri vid qverkameini og bólgu, enn allir þeir gullhríngar og gullpeníngar, sem til eru á landi hér, þótt hundradsinnum væru þeir fornmanna-fé, því aldrei gjöra þeir eins góda verkun og eitthvert ofan skrifadra medala †). Óskandi væri, ad gott og viturt fólk, vildi ecki styrkja fávísra hjátrú, med því ad ljá gull sitt til þessarar brúkunar framvegis *), þar hinn veiki auminginn má allteins lída þar fyrir, og máské qveljast meira enn skyldi.

## §. 146.

Þeckt hefir eg þá menn hér á landi, sem hafa kénnt qverkabólgu med hverjum stórstraum, og adra, sem hafa fengid hana á hverju ári; þeim enum sömu væri ómissandi med öllum jafnadi ad drecka mysu og seydi af Einirlimi; gjöra sér optlega fótabad og púrgera nockrumsinnum á ári, en fordast kjötmat til lengdur í einu.

## §. 147.

### Ama edur Heimakoma (Erysipelas).

Ama er nockurskonar bólga í hörundinu, af hverri húdin þenst mikillega út med þrimlum og ójafnri herdslu,

†) Nú, á þeim seinni tímum þykjast menn hafa reynt: ad dampi af volgu vatni, hvar í Gullhríngur er látinn, sé gódur í móti Giktar-verkjum, er setja sig í útlimina.
J. Hjaltalín.

*) Þetta húsráð er saklaust, ef ecki gagnlegt; og hvad er á móti því, ad málmar gjöri líka verkun og margt annad, eins vel af námu- sem urta-ríki, ad dreifa edur draga undir sig? Vélantsurt, §. 95 Skír. gr., sýnist ei af meira verdi, þó hefir hún opt dugad, og nefnist sumstadar Qverkagras og líka Júfurgras. P.

glansandi roda og brennandi tilfinníngu, er jafnan eykst um 2ja edur 3ja daga tíma, ad hverjum lidnum hún stendur í stad jafnadarlega 2 daga, en mínkar sídan aptur í eins marga daga, þegar hørundid flagnar og fellur af, sem hreystur. Þessu fylgir vidvarandi sóttarvíma, einkum sérlegur skjálfti og hrylliugur framan af, þángad til bólgan fer ad vaxa (sjá §. 151); almenníngur hér segir hún sé í viku ad vaxa, og adra ad þverra, og lætur þad nærri. Stidji madur þétt á bólgunna, hleypur rodinn undan fíngrinum, en kémur jafnskjótt aptur, þá hann er tekinn burt, þar af er opt hægt ad þeckja Amuna.

## §. 148.

Aman þyrmir eingum lim á mannsins líkama, jafnvel þó hún optar ásæki andlit og fætur, og þángad vill hún aptur vitja, hvar hún hefir eittsinn ádur komid; stundum kémur hún ein síns lids, stundum fylgir hún med ødrum qvillum, svo sem: sárum, meinum og ødrum tilfellum.

## §. 149.

Hér á landi hygg eg mjøg svo fáir verid hafi, er Amu hafa þeckt, nema þar hún í fætur komid hefir med ákefdar bólgu og glansandi roda; því þegar hún hefir í andlitid komid, þá hefir hún ýmist Hettu-sótt a), ýmist Svína-þroti b) køllud verid. Sømuleidis þá er hún hefir komid á holid á manni, ellegar yfir um brjóstid, hafa menn, án þess hid minnsta ad ígrunda sjúkdómsins art, kallad hana Ristil *), og stundum, hafi hún

*) Hverr er bær ad ráda sinni meiníngu, medan skynsemi og reynsla ecki skéra úr máli; en fleirstir eru þó á því, ad Ristill, Hríngormar, Reformar og fleirst

mjøg lítil verid, Hundsspor c), sem eckért er annad enn Zona Erysipelatosa, hér á landi miklu almennari qvilli, en í útløndum, þar til veit, ecki sízt á úngu fólki.

a) Sá breytilegi læknismáti Hettusóttar, sýnir, hve ránga ímindun fólk hefir haft um þenna qvilla, nefnilega: ad sofa med Gráhettu ofanfletta *)
b) Svínaþrota hafa menn látist vilja lækna med Galtar-tønn; en Demósthenes, einúngis til ad narra fólk, lagdi vid hann gráa ullu.
c) Hundsspor hafa nockrir meint ad komi af því, ad hundur stígi upp í ask eda fat, úr hverju sídan etid sé óþvegnu **).

## §. 150.

Eptir því, sem Ristillinn (Zona herpetica) hefir

---

klåda útbrot, séu af ødru edli enn Ama, nema hvad gallid veldur miklu í øllu þessu; en ad veruleg Ama sláist opt í lid med hinu og mørgum fleiri útvortis meinsemdum, reyna menn daglega. Hettusótt var sagt gengid hefdi sudur á Nesjum nockru fyrir Aldamótin og batnad optast vid Ammoniac-linement, kom og vídar enn í andlitid, einkum nidur um mann; gétur skéd og er líklegust ad verid hafi Authors Vatns-áma. P.

*) Þetta gétur vel verid, þó ecki hefi eg þad heyrt; hitt hefir eg sied, ad hafi grárri, saudfitu mikilli haustull verid vafid um høfudid í tíma, hefir tilfellid hjadnad, og hvad er þad heimskulegra, enn ýmsir þurrir urtapoʃar, almennt lagdir vid Amu, og stundum yfirdoggvadir med Kamphóru-Spiritus, edur Kamphóru duptad í urtirnar, med gódum notum? Svínaþroti, er meining mín, aldrei sé kallad, nema ein tegund af Qverkabólgu, nærsta léttvæg og sóttarlaus, og gétur vel sagst batni vid gráa ull, volgann il-lepp, eins og vid Ammoniac-liniment, sem jafnadarlega þar vid brúkast (samanb. Skír. gr. vid §. 145). P.

**) Ecki er þar fyrir víst, ad menn hafi meint svo, þótt þeir — eins og um ótal fleira — hafi sagt þetta gáleysingum til ad venja þá á þrifamennsku. Þad sýnir ecki mikla rækslusemi, ad láta hunda gánga uppí matar ílát, eda þvo þau aldrei innan. P.

mikilfengur verid, hafa honum géfin verid ýmisleg nøfn: Þegar hann hefir mjøg svo léttur verid, var hann, sem strax sagda eg, kalladur Hundsspor; því bletturinn, sem bólgnar verdur ecki stærri enn løpp á medal hundi og opt minni. Á Hundssporum þessum koma út gagnsærar bólur öfur sárar, er vaxa í 2 eda 3 daga, í hverjum er hreinn og skjær vetsi, er sídan eins og þornar, en bólurnar verda ad skorpu, og þetta kann alls ad vara hérum rúmann víkutíma, án þess hinn sjúki hafi nockra verulega sóttar-ýmu; tilfellid heimsækir helzt únglínga, og setur sig híngad og þángad, á líkama þeirra, þó ecki sízt á handleggi, búk og jafnvel andlit. Ristillinn er þessu ad øllu leiti líkur, nema ad hann kémur einna helzt yfir holid, líkast gjørd; fylgja honum miklu þýngri tilfelli, og hann kann ad verda hér um þverhandar breidur, þá hann er í meira lagi. Allur er hann settur med bólum, sem ádur er sagt, í hverjum ad er mjøg límaktugur graftrar-vetsi, verdur úr honum þyck skorpa þá bólurnar falla, og kann þad vara 14 daga edur lengur, ádur þetta skédur a).

a) Af því fólk hefir rodid hundsblódi á Ristil og hann hefir sýnst batna þar vid, mun Hundsristils nafnid komid. Fiskristill*) hefir sá verid kalladur, á

*) Þetta nafn efa eg nockurr hafi heyrt; þar á móti hefir eg vitad varad vid, ad láta fiska- og silúnga-blód koma í høfud únglíngum, því þad gjørdi — sem menn kalla — óhreint høfud; líklega hreinlætis bodord! En — hví mun Author gleyma Katt-ristlinum? um hann heyrist talad sem Hundsristilinn. Drjúgsmæli sín um Ná-ristils nafnid, hefdi hann betur gjørt, til fródleiks ad hafa ljósari. Mín meining er: ad þetta hryllilega nafn sé géfid í fyrstu, til ad ótta ørqvisalegum únglíngum — sem helzt fá þessa qvilla — og koma þeim til ad undirkasta sig lækníngunni, nefnilega: ad høggva smábenjar edur dreif-blód kríngum og í jadri ákomunnar, láta

hvern fiskS-blód hefir borid verid. Ristill mun kall-adur hafa verid af því, ad saudargørn hefir verid um hann vafid, í þeim meiníngu, hann skyldi af henni læknast. Eg vil eckért tala um þær gódu meiníngar, er ýmsir haft hafa um orsök þessa sjúkdóms, af hverri nockrir hafa dregid Rá-ristils nafnid.

## §. 151.

Jafnvel þótt þad beri tídum vid, ad Amu sjúkdómur komi med hægum tilfellum, þá skédur hitt ecki sjaldnar, ad hann heimsækir fólk med strídri sótt, svo sem: þúnga, máttleysi, sterkum høfudverki, ógledi og jafnvel uppsølu, sem ecki mínkar, fyrr enn raudur blettur sjest einhvers-stadar útkominn á líkama ens sjúka, hvad í fyrsta lagi er vant ad ské á 3ja eda 4da dægri; ad því búnu mínka hér greind tilfelli, medan Aman er út ad koma. Þegar hún kémur í andlitid, er høfudverkurinn ærid lángsamur; augnalokid bólgnar, svo augad lyfst opt aptur, med sárri qvalar tilfinníngu. Stundum hleypur Aman úr einni kinn í adra, breidir sig um ennid, fær-ist jafnvel aptur í hnackann, og varir hún þá optast lengi, opt med høfud-órum. Sama er ad segja um þad, þegar Ristillinn er mjøg breidur og lángur, er hann ætíd lángsamur og hvimleidt kránkdæmi. Þegar Ama kémur í fæturnar, finnst þeim veika, sem strengur liggi uppeptir lærunum ad innanverdu uppí lærkyrtilinn, sem

---

blódid drjúpa nidur á málmplotu; setja sídan yfir glód og brenna blódid til øsku, dreifa sídan øskunni milli fíngra sinna ofaní benjarnar; og hér til stundum brúkad hunds- edur kattar-blód. Sjed hefi eg þetta hrífa, þegar ýms Apótheks medøl vóru forgéfins reynd; og þykir þeim engin hjátrú, er nockud þeckja til øskunnar náttúrlega edlis. Vid hríng- og ref-orma brúkast sama húsrád, líka, ad bera þar á fastandi manns munnvatn, eda nudda um þá blómblødum af Brenni-sóley (Ranunculus acris) edur og Baldursbráar løg. P.

þá bólgnar nedanverdt í smáþormunum. Stundum kémur hún út á fótunum med mikilli bólgu, gul- og svart-blá-leitri, án nockurs sóttar-snerts; detta þar gjarnann á sár eptir nockurn tíma lidinn, út úr hverjum flýtur mikill saggi; skédur þetta einkum á þeim, hverra saftir eru skarpar og ílla blandadar, og vosbúd hafa vanist í úngdœmi.

## §. 152.

Einkum tvær orsakir eru til sjúkdóms þessa; sú fyrri er: skarpur og galli meingadur vetsi, sem blódinu vid ótal tilefni hefir samblandast, og sú ønnur: ad þessi vetsi gétur ecki med svitanum hreinsast á burt.

## §. 153.

Af því sjúsdóms tilfelli þessi eru ecki mikilvæg, þarf hinn veiki varla annad enn nærast á tómri volgri mysu nockra daga, eta grasagraut og adrar maturtir, allt volgt, falli mysan ofslétt; ellegar drecka mikid af volgu Einirlims-seydi, steyttum Einirberjum edur Rjúpnalaufi, bløndudu med nockrum Saltpétri, og brúka Kamphóru-bløndu, 1 spón hvern tíma, því vid þad aukast hægdirnar og þvagid og svitinn vex. Í hinum þýngri tilfellum er blódtaka ómissandi; en varast skal samt ad láta blæda mikid í einu, heldur opna ædina tvisvar. — Strax eptir blódtøkuna skal setja hinum sjúka stólpípu og géfa mikid ad drecka af Grasaseydinu §. 54, edur mysu, sem ádur segir. Seydi af Hyldeblómstrum, er eitt hid ágætasta. Hafi hinn sjúki mikla ógledi, óhreina túngu, slæmann smeck í munninum og ecki mjøg sterka sótt, er einkum þénanlegt ad géfa honum uppsølu medal, annadhvert af

Uppsølu Vínsteini, edur Uppsølu-rót (sjá Skír. gr. vid §. 18). Annars má, sem best, þá sóttin fyrst linast, géfa búkhreinsandi medal Njólarótar-seydi, Sennesblødum, Vínsteins-rjóma, edur ødru þægu medali, sem ecki verkar mjøg sterkt. Sé Heimakoman í høfdinu, veitir eckért af, þó hinn sjúki taki búkhreinsandi medøl 2svar eda 3svar alls, 4da hvern dag. Láti tilsellin ecki undan eptir ad líkaminn er hreinsadur, skal géfa hinum sjúka nockra dropa af Vitriol-Spiritus í grasaseydinu. Pad er einkar gott, þegar Heimakoman er í høfdinu, ad leggja Súrdeig, yfirsád steyttum Mustardi, undir iljarnar, edur setja Spansflugur nedanverdt á kálfana, og drecka mikid seydi af Hyldeblómstrum med Saltpétri í, en nærast á Grasaseydi nockra daga eptir ad sjúkdómurinn hefir linast, svo hinn sjúki géti svitnad því betur. Ad væta prjónasaum í vel sterku seydi af Hyldeblómstrum, stillir Amu ágæta vel, en prjónasaumurinn sé vel undinn og volgur yfirlagdur. Allstadar, hvar Amunni fylgir nockurr vetsi, er þad á Apóthekum svo kallada Rósenmeel (Amu-mjøl)*) rétt þénanlegt ad sá yfir, sem kostar lítid. Af þessu, sem nú er sagt um Amu, sjá allir heilvita menn, á hverju sá læknismáti er bygdur, sem hér á landi er vid henni edur Ristilinn brúkadur inn til vorra tída; og hverr er kominn ad segja oss, hve margur þar med er skemmdur? Víst þecki eg þann mann, sem af illa medhøndludum Ristli, gengur nú med ólæknandi brjóst-

*) Eptir Pharmac. pauperum, Edinburg, er þetta Amumjøl gjørt af 2ur portum Kritar og einum parti Malurtar púlvers, vel mulid og samanblandad. Sjá Ísl. Lærdl. Fél. Rita 15da B., bls. 193. P.

veiki, hvad hann sízt mun leida sér í þánka, nema hann læsi þetta *).

## §. 154.

Þar sem Aman kémur út med svartbláum lit á fótum, taki hinn sjúki ad morgni dags fastandi, mørk af Tjøruvatni **), en ad qvøldi vidlíka af Einirs- eda Einirberja-seydi. Til útvortis brúkunar taki hann jafnmikid af Menju, Blýhvítu og Krít og sjódi í sterkri sýru, ef ecki er Edik til, gjøri hér af graut, vindi þar upp úr hvíta lérepts ríu, og leggi margfalda yfir blámann. Þeir sár bera á fótum eptir Amu, mega lángann tíma drecka seydi af blódhreinsandi urtum, leggja mjøg þunna blýpløtu yfir sárid, svo hún ad eins nái út á barmana, á hverja bera skal lítid af Balsaminu

---

*) Hvern helzt lækníngar-máta þessi ádeila meinar, er ecki ljóst, nema máské sá, er almenníngur brúkar: ad taka inn matspón af púdri í hálfum eda heilum spæni Brennuvíns, dysja sig sídan klædum til ad svitna, og verdur ecki svo mikid sett útá þad, þegar — eins og ádur stendur í §. 152 — Amunnar ønnur høfud-orsøk er dampa- edur svita-leysi, og madur vel vaktar sig fyrir kjælíngu á eptir rúmbadid, nema þad, ad inntakan er nógu mikil í einu, og er hægt vid því ad gjøra. Minni trú hefir eg á þeim 9 nøfnum Amunnar, er eg í úngdæmi heyrdi rita ætti á blad, og láti undir høfud-kodda ens veika honum óvitandi. Til fródleiks og meinlaus gamans, en ecki forfedranna spotts né lasts, læt eg þau hér uppská kauplaust:

Heimakoma. Meinakoma. Amukoma. Hlaupakoma. Rós.
Heimakona. Meinakona. Amukona. Hlaupakona.

P.

**) Tjøruvatn er rétt tilbúid á þennann hátt:
Tak: hreina tjøru 1 pela eda 1 mørk til vigtar, hell þar á hreinu køldu vatni 1 potti, eda 2ur pundum vegnum, hrær þetta vel til samans í opinni tréskál med trésleifi, lát setja sig í 12 tíma og hell því þunna ofan af í fløsku er vel tilbyrgist. P.

§. 222, þar utanyfir leggist plástur, svo platan liggi föst, og vitja svo um einusinni á dag. Séu barmarnir mjøg hardir, verdur í þá ad rista smáskurdi, en þegar þeir gjørast linir og jafnir vid sjálft sárid, þarf ecki lengur ad brúka sýru-maukid*). Hvern 8da dag skal hinn sjúki taka góda búkhreinsun. Sé sárid mjøg djúpt, verdur í fyrstu ad leggja nockud af línskafi, og ef þörf krefur, brenndu álúni undir blýplötuna, hver, eptir umtøludu, brúkast til þess sárid er læknad**). Þegar þvílík sár eru gróin, þurfa þeir, er þau haft hafa, ydugslega búkhreinsandi medala vid, egi þeir gott en ecki íllt af Lækníngunni ad hljóta.

## §. 155.

Þeir, sem opt fá Heimakomu, hafa skémmda, stýfláda lifur, og ættu ad borda sem mest af maturtum, þunnann og nockud súrann mat, og ødruhverju taka inn nockud inn af Vínsteins-rjóma í þunnri mysu, eta Súru- og fífla-bløð, Skarfakál, Heimulu- og grasa-grauta. Allt þad mjøg er feitt, hángid, mork-

*) Vid þesshattar vondsku sár med átumeins-ørtudum børmum, hefir med gódum notum brúkad verid duft af brenndum Kræklíngs-skéljum ofan í sád, eptir ad sárid, í hvert sinn frá var tekid, var vel hreinsad, og sídan yfirstrokid eda þvegid med ríu, vættri í gódu Brennuvíni. Bánkabyggs grauturinn (§. 144 í Skír. gr.) án smjørs daglega lagdur, nýgjørdur og volgur ofan í djúpt ílla artad kalfa-sár, í línskafs stad, hindradi þad ad jeta sig út, og græddi ad mestu, en tíma og þolinmædi þurfa slík sár. P.

**) Almennt er varast ad leggja feitt og vott vid Amubólgu, eins ad høggva í hana edur taka blód á edur nærri þeim bólgna lim; hún hleypur optast í benid og umhverfis því. Sár hennar grasa traudt reglulega, og eru leidindaleg ad græda. P.

id, úldid, einnig áfenga drycki, verda þvílíkir menn ad fordast, ásamt miklum kyrrsetum.

## §. 156.

### Um ofhardann Vallgáng (Obstipatio alvi).

Ofhardann Vallgáng kalla eg hér, þegar saurindin eru svo hørd sem smásteinar, og madur fær ecki án þvíngnnar ordid þau vidskila, af hverju allmargir þjást hér á landi, og þad svo mjøg, ad eg hefi þeckt þá, sem hafa ordid ad hjálpa sér med høndunum. Kvilli þessi er líka tilfelli eitt í allmørgum sjúkdómum, og talast því ecki hér um þad, heldur hitt, sem einúngis er útaf fyri sig, og orsakar mjøg þúng og hættnleg tilfelli, svosem: høfudþýngsli, svíma, er tídum umbreytist í þúngann høfudverk; maginn blæs upp af vindum, hvar med fylgir þúngur andardráttar, sóttar víma, stundum uppkøst og mikid þyngri tilfelli. Nockrir eru, sem ecki hafa hægdir til baksins, nema 2ann og 3ja hvern dag, án tilfinnanlegrar þvíngunar; en þetta er lángt ødruvísi hjá mørgum. Hér á móti brúka nockrir landa vorra sterk púrger-medøl, sem allir ættu þó ad varast, því þau gjøra hid ílla verra eptirá, og allt hid sama er ad segja um blódtøkur, sem — því verr — eru af mørgum brúkadar í ádurtøldum tilfellum, hver þó einúngis koma af tregum vallgángi.

## §. 157.

Seydi af þurkudum Rjólarótum edur Heimulu med litlu Hunángi ydúglega brúkad, er allmørgum hénaulegt; líka fastandi ad morgni dags ad tyggja lítid af Rhabarbara og renna nidur med munnvatninu*),

*) Ymsum skánar af, ad drecka ad morgni dags í rúmi sínu gódan sturk af koldu, fersku vatni, og liggja stundarkorn

líka ad taka inn lítid eitt hvern morgun af einhverju þægu laxér-medali, svo madur fái einusinni eda tvisvar hægdir á 2ur dægrum, edur drecki seydi af **Fálka-púngi***) og **Rjúpnalaufum** til samans sodnum; þaraðauki má setja þessum stólpípu einusinni í viku. Þeir, sem efni hafa ad kaupa á Apótheki opnandi **Sápu-pillur** med Alóe edur **Rhabarbara-pillur** (No. 15 í Recepta-list.), taki þaraf 4 qvøld og 4 morguns, vidlíka stórar og Kræklber, til þess hægdirnar mýkjast og saurindin aukast, en þar eptir er nóg ad taka tvær, og jafnvel ecki utan í annad mál.

## §. 158.

Um alla hluti fram, má hinn sjúki kopp-kosta ad borda þá fædu, af hverri hann finnur sér verda létt um hægdir, svosem: kál og adrar maturtir, þunnar silúngs- og fiska-súpur, þá nýar fást kunna, med vallar- eda túnsúrum kryddadar; hér á móti á hann ad fordast allann þúngann, hardann, úldinn, morkinn og þráann mat**). Þegar óhægdir þessar koma af líkamans og inníblanna máttleysi, er ysrid gott med jafnadi ad bada sig í køldu

---

á eptir. Um vatnsins ótolulega nytsemi, les Ísl. Lærdl. Fél. Rit 15da B. bls. 202. P.

*) Er **Cucubalus Behen**, sem ýmist kallast **Holurt**, **Hjartagras**, **Púngagras**, og af nockrum **Laxérarfi**. Hér mætti og nefna **Laxér-lín** (**Linum catharticum**), sem vída vex; ½ lód af urt þeirri þurkadri, laxérar allvel, og mætti brúkast, sem **Sennisblød**, sodin eins og thee. **Maríu-vøndur** skal og laxéra, sé handfylli af honum sodin í 1 potti vatns nidur um ⅓, og druckid; líka **Vidarkolaska** í mjólk inntekin. Sjá Kl. póst 1825 bls. 111. P.

**) Ad borda viskar korn af gódum **Solvum** med øllum, bædi át- og Spánamvti, og gjøra vana af, er ágætt ráð í þessu og mørgu falli. P.

vatni*), allt uppundir bríngsmalir, edur jafnvel lengra a); þetta hefir dugad, þó fleirst ønnur medøl hafi brugdist. Hinn sjúki hafi ætíd gætur á ad hræra sig med øllum jafnadi, en fordast miklar kyrrsetur bædi sumar og vetur; einkum er þetta sagt hýsteriskum qvenfólki og hýpokondriskum karlmønnum **).

a) Þad eru einkum tvennslags sjúkdómar, í hverjum bad af køldu vatni er hardla naudsynlegt, nefnilega: í sinasjúkdómum, og þegar útdampanin gengur óreglulega til. Hid kalda bad setur útdømpunina í sitt rétta náttúrlega stand, gefur sinunum nýa krapta og bætir allt þad íllt, sem þaraf orsakast í mannsins líkama. Eg hefi á mørgum mønnum sjed ávøxtinn, einkum medan eg var í Sti. Philippi Hospítali á Eynni Minorca, hvar bød þessi gjørd vóru døgum optar,

*) Hollustu kaldra bada, einkum í sjóvatni, verdur varla oflofud, og mætti þar um fleira segja, enn hér verdur vidkomid, og varla mun svo qveifarlegur né vidqvæmur madur til — einúngis sé hann frí frá innvortis meinlætum — hvert heldur karl edur kona, ad þúngudum fráteknum, ad ecki géti vanid sig á þau og haft gott af. Madur skal — hvar engin orduleg badhús eru til — vada allsnakinn, nema í hempu, ef svo vill, utan um sig, útí sjóinn, smá-ausa yfir høfud sér vatninu, og þegar komid er vel í midti, fleygja sér flotum, busla stundarkorn, ecki lengur enn þángad til hætt er ad súpa hveljur, flýta sér þá á þurrt, þurka sig í hasti og fara í hreint nærst sér, gánga sídan spøl korn á eptir, undir þad madur svitni, velja til þessa logn og hlýtt vedur á sumardag, og hafa ecki ný-bordad. Þar, sem þessu verdur ecki komid vid, sokum sjóarlagsins og um vetrardag, mætti flytja sjóvatn heim og hella því yfir mann nakinn, eda skola sig þar med inni sjóhsum, eda mátalega hlýu húsi, og þetta einusinni í viku. Mjøg heitur eda sveittur má enginn fara í þvílík bød. Um kold bød sjá Klp. 1819 bls. 141. P.

**) Qvennfólki med svo kalladann Uppstíganda edur Módursýki, og karlmønnum med Luntaraskap, Pánkabrot eda Miltis-veiki. P.

og hinir sjúku qvøld og morgna bornir í sjóinn, svo-sem hid nálægasta og besta, er fást kunni þar. Menn holdlausir, ørmagna og kraptalausir, komust þar med til heilsu; líka vyrdist mér, sem dæmi enna Rússísku, hverra land er ysrid kaldt, mætti vekja oss af svefni hér um. Þess vil eg einnig géta hér: ad eins og þau køldu bød eru í áminnstum tilfellum þénanleg, svo skadleg eru í sama falli þau heitu, hvar um sjálf nátt-úru hlutarins gétur samfært oss *).

## §. 159.

### Um Afbendi (Tenesmus).

Afbendi er þad; nær einum finnst, sem hann þurfi ad vera til stóls, eda hægja sér, og hefir eins og nidur-pressandi tilfinníng í endaþarminum, en getur þó ann-adhvert engin saurindi leyst, edur mjøg svo lítil; þetta skedur margopt í blódsótt og mørgum fleiri sjúkdómum, og ávísar ætíd, ad einhver bítandi skérpa sé í tédu innífli, sem ollir þvílíkum drætti edur tilfinníngu. Á børnum og jafnvel eldra fólki, kémur þessi tilfinníng, stundum af mjóum qvidmødkum, sem kitla edur naga endaþarminn, hvar af slík nidurspennu hræríng kémur. Á ólétium konum veldur því optast fósturfins lega, þeg-ar þúngi þess þrýckir endaþarminum ofmikid; þaraf þjást og tídum þeir, á hverjum gyllini æd er stemmd, þó ecki sízt undir þad hún ætlar ad opna sig.

## §. 160.

Þegar tilfelli þetta er á þeim, er blódsótt hafa, hvar bítandi vetsa-skérpa er orsøkin, þá er eckért betra, enn

*) Þetta mundi ofhermt þykja øllum, er tídkad hafa laugar-bød reglulega, ecki setid oflengi, en gnúid limi sína vel nidrí þeim; ecki brúkad þau í sólskins hita; haft tjald á laugarbackanum og dysjad sig þar stundarkorn til ad dampa, og einkum varast kulda adslátt á eptir. Um nýfundna nytsemi heitra vatnsbada, sjá Klp. 1824, bls. 139. P.

að setja stólpípu með mjólk einsamalli og bræddu, nýu smjøri, edur bleytandi og hægjandi urtaseydi, feitri kjøtsúpu, edur seydi af Hafra- eda Bygg-grjónum. Séu sár í endaþarminum, sem merkist af mjøg sárri tilfinníngu, og ef nidur af manninum gengur blódi eda greftri blønduð vilsa, þá er þeim sjúka yfrið gott bleytandi og grædandi klýster með Terebintínu í, og því hvíta úr eggi vel samanblønduðu, edur vel sterkt Vallhumalsseydi með smjøri. — Komi þetta af smá-ormum, sem safnast í greindum stað, þá brúki madur þau meðøl, sem sagt er, hvar talað er um orma, einkum klýster af Malurtar- eda sterku Horblødku-seydi (er ránglega af sumum kallast Hófrót, og seydið Hófvatn). Þægt bleytandi klýster, er þúnguðum konum hinn kostnaðarminnsti læknisdómur, og hæg inntaka af Manna og Tamarindum, er jafnan saklaust og gott, en fátækum ærið dýrt; kynnu þeir þá í þess stað, að brúka Njólarótar-seydi með hunángi eda sykri. Í øllum hættulegum sjúkdómum, er Afbendi ætíð teikn til skarpra vessa í inníblunum, og þaraf komandi drættir kyppra saman inníblin, og hindra saurindin frá að komast nidur. Þessi inníblanna kyppríngur, er optar dauðans forbodi í ýmsum sjúkdómum.

## §. 161.

### Um Nábit, Brjóstsvida (Pyrosis), Bríngsmalá- edur Hjartverk (Cardialgia).

Brjóstsvidi er brennandi tilfinníng, sem hefir sín upptøk í þeim efri magamunna. En Hjartverkur er, mjøg sárt pínandi, þenjandi og þrýckjandi verkur, með svida-sárindum, og inntekur annadhvert nockurn part af

maganum, edur og allann magann; þó er hans eginlegt sæti kríngum mædubrjóskid sjálft*); þessir bádir sjúkdómar eru nær því eitt og hid sama, þvi eg ætla þeim mismuni í litlu edur engu, nema hvad tilfinníngin er linari í **Brjóstsvidanum**, í hverjum maginn er uppfylltur med súra dampa, vid hverjum varla fæst betra medal enn **Magnesíu púlverid** §. 16, af hverju takist 1 theeskeid í senn, 3svar á dag í köldu vatni, edur vel tilbúnar **kúskéljara**) **).

a) Med því kúskéljanna rétti tilbúníngur er ecki öllum í í hendur fáandi, gjöra þeir betur, er kaupa tilbúin **Krabba-augu** (lapides cancri præparati) edur **Skélja-púlver** (conchæ præparatæ) á Apótheki, og taka þaraf 1 theeskeid 2svar eda 3svar á dag, ellegar eins vel **Krítar-púlver**. **Hjartverkinum** fylgir optlega kaldur sviti, med miklum lítilleik fyrir hjartanu, svima, máttleysi, uppköstum og hixta. Þegar tilfelli þetta kémur í fylgi med bólu edur blódsótt og fleirum þessháttar sjúkdómum, er það ætíd hættulegt; sömuleidis þá það fylgir hördum sóttveikjum, med ákaflegum þorsta, ávísar það ætíd skadlega bólgu í maganum edur ödrum innibium, og minki þorsti sá fyrri enn sóttin, er það, sem optast, dandans forbodi. Komi **Hjartverkurinn** af ormum, er hann sjaldan hættulaus, því qvikindi þessi skrída þá ad maganum og naga hann.

## §. 163.

Í velfleirstum tilfellum þessa sjúkdóms, má géfa medalmáta sterkt uppsölu medal, med Læknis leyfi, annadhvert af **Uppsölu Vínsteini** eda **Uppsölu rót**, nema ofmiklir drættir séu í maganum, þá má géfa af

*) Nærsta athugaverdt er, ad þetta vera kunni meinlæta undirbúníngur í magakyrtlinum eda lifrarbladinu, er liggur framan á maganum. Samanb. enn framar §. 216. P.

**) Nábíti og **Brjóstsvida** sviar um finn allt súreydandi; almennast brúkast nú **Vínsteins-olía** (Oleum tartari per deliqv.) 10 til 20 dropar í ½ pela vatns. P.

ádurtaldri Vínsteins-olíu §. 161, og drecka kaldt seydi af Vallhumli, ásamt vatni því, sem Járn hefir verid margkjælt í. Þegar þessi sjúkdómur er á hýsteriskū qvenfólki og hýpokondrískum karlmønnum, má ecki ad ósekju uppsølu medøl géfa, heldur ádur áminnsta Vínsteins-olíu eda ønnur temprandi medøl, svo sem: Magnesíu-púlver (Pulv. magn. compos. Ph. D.), og temprandi Camphóru púlver (Pulv. temp. Camph.). Komi hann af vindum í maganum, skal inn- og útvortis brúka vindeydandi medøl: Vallhumals-thee edur og af Kúmeni og Maríuvendi, jafnt af hverju, og vel tilbúinn klýster af mjólk, sem hvítur laukur hefir verid sodinn í. Komi hann af lifrar- eda miltis-stýflu, brúkist Malurtar-vín og extract af Horbløðku. Sé ad óttast bólgu í maganum, þá er blódtaka naudsynleg. Ef ad vilsan, sem upp úr hinum sjúka gengur, er mjøg þyck, þá er gott ad brúka umgétid Magnesíu-púlver undan uppsølu medølum, og géfa sjúklínginum mikid af volgu vatni ad drecka.

## §. 164.

Sá, sem annadhvert læknast vill, eda læknadur er af þessum sjúkdómi, má fordast allt þad, sem hann merkir ad gjøra vill brjóstsvida edur hjartverk.

## §. 165.

### Um Slagflód a) (Apoplexia).

Slagflód, sem eg hér svo kalla, er skyndileg tapan bædi þánkanna og þeirra fríviljugu vødva-hræringa, þar þó lífædin slær og sjúklíngurinn dregur andann med þýngslum og snørli.

a) Eg læt mér nægja ad kalla þad svo, ásamt med þeim Þýdsku og Donsku.

## §. 166.

Eg vil hér eckért tala um þá art Slagflóds, í hverju madurinn, undir eins og hann missir alla innvortis og útvortis sansa og tilfinníngu, tapar í sama augnabliki lífinu; þvílíkt verdur ecki af mannlegum krøptum læknad. Hins er ad géta, ad þessi sjúkdómur, sem eg hér um tala, er einkum tvennslags, nefnil. blóds og slíms edur vetsa Slagflód*). Bædi koma þaraf, ad þeir náttúrlegu gángvegir, edur blóds- og vetsa-ædar (vasa sangvisera et serosa) í heilanum verda stýfladar, hvaraf heilinn pressast, og sinanna náttúrlegu athafnir hindrast. Blód-Slagflódid heimsækir hrausta, hálsstutta, blódmikla og þyckvaxna menn. Slím-Slagflódid yfirfellur óhrausta menn, sem hafa vetsa mikid og slímfullt blód, og hverra ædar eru línar, og þó fullar af miklum vetsum, en ecki náttúrlega gódu blódi. Hid fyrra Slagflódid þeckist þaraf: ad hinn sjúki veit ecki meir af sér, heldur enn einn, sem liggur í djúpasta svefni; hann er heitur mjøg; andlitid er raudblátt; ædarnar skúlpa mjøg mikid bædi á høfdi og hálsi; lífædin mjøg full ad finna; hálsinn bólginn, og hinn sjúki hefir eins og hryglu, þá er hann dregur andann. Undir eins og þessa verdur vart, skal spretta frá sjúklíngi øllum føtum, leysa af hálsinum,

*) Adgreiníng þessi er þarflítil og ecki brúkud af ýngri læknum. Veikleikinn samur og lækníngar-mátinn eins, nema hvad háttheldi sjúklíngs snertir, einkum blódríki, en orsakir til veikleikans ótal margar: ofmikid, ofþyckt og vetsamikid blód; eitthvert annad sjúkdóms-efni, er slær sér til høfudsins; kafnan af vætu edur dømpum; óhrodi í maganum, faraldur og margt fleira. P.

taka høfudfat af, flytja hann þángad, sem hreint og gott lopt er, edur opna glugga þess húss, sem hann er staddur-í, reisa høfud hans uppá kodda, en láta fæturnar hánga nidur, setja þær í heitt vatn, en bada høfudid daglega med køldum vatnsklútum, og klippa jafnvel hár af, taka sídan blód, sem fljótast á hálsi hans, edur jafnvel gagnaugum, gjøra stóra ben og láta blæda rúma 4 theébolla fulla. Margopt er þad, ad taka þarf enum sjúka blód á ný, ad lidnu hér um hálfu dægri. Eptir hina fyrstu blódtøku, skal setja honum stólpípu med salti, lýsi eda brædddu smjøri, 3svar eda 4sinnum á dag. Undir eins og honum rennur nidur, skal géfa honum heilmikid af mysu edur volgu vatni med 1 qvintíni Saltpéturs í hverjum potti. Ásamt øllu þessu ber ad hafa gætur á því, ad hann hræríst sem minnst, ecki heldur lukti til neins, sem honum kann ad orsaka hnerra; en rétt gott er, ad setja súrdeig med steyttum Mustardi undir iljarnar og jafnvel á kálfana. Þegar hinn sjúki tekur ad hressast, má géfa honum 6 til 8 qvintín Vínsteins-rjóma med mikilli mysu, svo hann fái þaraf gódar hægdir. — Hinum, sem audugri eru, má géfa Laxér-dryck af Tamarindum, Saltpétri og Manna, §. 236, edur sterkt Sennesblada-thee med Manna- eda Púdur-sykri. Verdi sjúklíngur máttvana, eptir ad hann hefir ráđ og tilsinníng fengid fyrir brúkun ádurtalinna medala, þá skal láta hann nærast einúngis á maturtum, drecka lítid vatn, brúka umgétin medøl til ad laxéra af og jafnvel enn þá taka honum blód, en sjá vel um, ad ablvana limir hans ecki verdi kaldir. Allur annar matur og fleirst ønnur medøl, enn hér eru talin, eru skadlig í þessum sjúkdómi.

## §. 167.

Pad Slagflód, sem kémur af ofmiklu slími og vetsum, er audveldt ad adgreina frá hinu, sem síðar var umtalad, þvíad í þessu slær lífædin lítid og linlega; hinn sjúki er kaldur, bleikur og þrútinn í andliti; andardrátturinn er léttari, enn í hinu fyrra tilfelli, og sjúklíngur hefir hér stundum uppköst. Af þessum tilfellum er það augljóst, ad sjúklíngur þarf lítillar eda eingrar blódtöku vid; samt skal hann leggja, eins og segir í fyrra tilfellinu; sídan skal géfa honum tvisvar í viku 2 lód engelskt salt, edur Jalappa-rót, Sennesblød og Vínsteins-rjóma, 20 grøn af hverju fyrir sig samanblødudu til ad laxéra af. Hér ad auki má setja honum stólpípu, ad minnsta kosti einusinni á dag, med vatni og miklu salti, en eingu því feitt er. Drecka skal hann mikid seydi af Horblødku eda Rjúpnalaufi, Blóðbergi og Vallhumli samanblødudu, edur Einirlimi. Setja skal honum vel stóra Spansflugna-plástra á kálfana.

## §. 168.

Komi Slagflód af stemmdum klædaføllum, nasablódi edur nockurri annari náttúrlegri líkamans stemmdri afrás, þá ber fyrst og fremst ad lagfæra þá óreglu, eda med einhverju móti bæta hann skada, sem náttúran hefir þar vid lidid, er med ýmsu móti gjørast kann, svo sem: Púrger-medølum, baunum, sem settar séu nálægt þeim stødum menn meina mest lídi, Spansflugum og fl.

## §. 169.

Þeir, sem einusinni hafa fengid þenna sjúkdóm, mega hafa sérlega gát á matarhæfi sínu, annars kémur hann

aptur miklu þýngri enn í fyrstu; þeir megu fordast ad eta undir svefn; aldrei drecka áfenga drycki; eta mjøg lítid kjøt, en mikid af maturtum og vallar-súrum á sumardag; tvisvar á ári, í þad minnsta, laxéra af ádurtédum medølum. Fordast eiga þeir mikinn hita líka heit bød, ad fráteknum køldum høfud-þvotti, en hræra sig annars jafnt og þétt.

## §. 170.

Vidber þad, ad þeir, sem ætla ad fá þenna sjúkdóm, verda merkjanlega ádur hann kémur, varir vid ein og ønnur tilfelli, sem eru hans forbodar, jafnvel þó hann, optast yfirfalli fólk skyndilega; er þad helzt svími og høfud-þýngsli, sem þá optast verdur vart vid; snøgglegt ablleysi í túngunni og ødrum líkamans limum, sem þó sjálfkrafa lídur burt aptur, og fleira þessu líkt, vid hverju strax í stad ber ráda leita hjá æfdum Lækni. Saklaust er annars ad láta sér blód taka, ef þørf krefur, púrgera eda brúka stólpípu; þó má brúka varsemi nockra, sé líkami ens sjúka slímfullur, og grípa ecki til blódtøku ófyrisinju, hvaraf flotid gétur skadi mikill, vid hvad eg opt hefi var ordid hér á landi; en vona þeir, er þetta lesa, er eg hér ad framan sagt hefi, þessum sjúkdóm vidvíkjandi, fari varlegar ad rádi sínu framvegis.

## §. 171.

### Um Limafalls-Sýki (Paralysis).

Þegar vødvar líkamans verda svo máttlausir, ad einn edur annar líkamans limur verdur óbrúkandi, sakir ablleysis*), og kann hverki ad rétta sig né kreppa, né

*) Alltídast kallast ecki limafall eda limafalls-sýki, fyrri enn abl-leysid eda dofinn, af hverju sem svo er, hefir tekid svo yfirhønd, ad limirnir detta sundur um lidamót-

nockra náttúrlega hræríngu á sér hafa; sé hann tekinn upp, fellur hann ablvana nidur aptur eins og tréstubbur, þá hafa Læknirar kallad tilfelli þetta Paralysis eda Resolutio, Limafall, eda lømun limanna a).

a) Þessi sjúkdómur hefir ýmisleg nofn hjá Læknirum, eptir því hvernig og í hverjum limafallid er á mannlegum líkama, svo sem: í túngunni, Glossoplegia, edur Paralysis lingvæ; nidurhluta líkamans beggja vegna, Alvista (Paraplegia); annari hlidinni Hálfvista (Hemiplegia), og svo framvegis.

## §. 172.

Sérhver laman líkamans vødva, kémur annadhvert af stýflu eda ofmikilli þrýckíngu sinanna, edur réttar sagt, tilfinníngar-tauganna (nervorum), hvaraf þeir gángvegir teppast eda tilbyrgjast, sem sina-saftin átti í gégnum ad renna, og þetta skédur annadhvert í heilanum sjálfum, ellegar þeim pørtum líkamans, í hverjum limafallid býr; þessa vegna er limafall opt Slagflódi samferda, af því, ad einhverjir vetsar hafa gengid út af sínum farvegum, og hlaupid nidur í millum ýmsra heilans innvida, hvadan tilfinníngar-taugarnar hafa sín upptøk, og pressa þær þar saman, og þad er hérvid adgætandi, ad þegar þvílíkir afvegagengnir vetsar eda blód, lenda vinstramegin í heilanum, verdur øll hægri sída mannsins abl-laus, og umvendt, vill þá opt høfudid beygjast út á heilbrygdu hlidina, hvar þessi stýfla edur þrýcking verkar á hálstaugarnar, svo ad, t. d. þegar vodvi sá, er nefnist Masculus Sternomastoi-

in, hvad tídum má sjá á høndum og fótum, og læknast þad traudlega. Um þad mun Høfundurinn vera lángordari í bók sinni um Iktsýki eda lidaveiki, sem útkom prentud á Hólum árid 1782, en sem er í allt of fárra høndur. P.

deus, hægramegin verdur limafallssjúkur, þá kreppist nafni hans saman vinstramegin og dregur høfudid útá vinstri hlidina a).

a) Því er verr og midur, ad margur fávís Hlaupalæknir, sem eckért þeckir til sjúkdóms þessa, kémur strax med plástra og áburd, til ad gjøra vid þann strída, en heilbrygda vødva, en veit ecki ad hinn hefir skadann fengid, sem móti honum á ad verka, hverjum ad réttu lagi hjálpin ber. Sérvitríngar þessir eigna alla sina-sjúkdóma ofmiklu blódi, hella því, hverr eptir annann, ótæpt út, uns sjúklíngur verdur algjordur kararómagi og med øllu ólæknandi.

## §. 173.

Allskonar máttleysi og limafall, sem kémur ásamt áburtoldum Slag-sjúkdómum, af hverjum bædi ráddeild og þánkar sjófgast, á ad læknast, sem segir §. 166 og 167; en ef þad kémur af kraptaleysi, næríngarleysi og ofmiklu blóds-afrennsli, þá er mjólkurblandad Járnvatn, þunn og vel nærandi fæda þénanleg; Járn-púlver (sjá Skír. gr. til §. 213), Kínabørkur, kaldt Vallhumalls-seydi, Hvannarót og Blódberg, eru ypparleg í þessum tilfellum, og ad bada líkamann bædi í sjó og vatni køldu. Komi þad af høggi edur biltu, þá skal þad læknast á þann hátt, sem segir um marid og slegid. Fylgi limafallinu visnan, má brúka blødrugjørandi medøl þar vid, svo sem: Spanskflugur, Súrdeig med Mustardí, stappadann Lauk, og fleira þesshátar yfirlagt, líka einnig strýkja þann visna og abl-lausa lim med Brenninetlu*) 100sinnum edur optar, og bera á hann Spiritus Camphoratus, Spanskflugna Essentiu eda Terebintín-olíu.

*) Sú rétta Brenninetla (Urtica urens) ver hér ecki, en sú svo kallada daufa Netla (urtica dioica) brennir nockud. P.

## §. 174.

Limafall hefir svo mørg innvortis tilfelli med sér, ad einn í Læknískunnst ólærdur madur, fær þar ecki grein á gjørt, sem ad nockru sé nýt, af lesníngu tómri. Til þess útheimtist enn meiri vitska, og því vil eg hér eínúngis tala um eitt tilfelli, sem er því ádur umtalada limafalli mjøg náskyldt, og kémur annadhvert af því, ad sínarnar pressast ofmikid, eda saftir þeirra géta ecki runnid svo lidugt, sem ber.

## §. 175.

Menn klaga optlega hér á landi yfir handa- og handleggja-dofa; sumir ségja þar med fylgi máttleysi, sumir qvarta um tilfinníngarleysi, sumir um óþolandi verk og pínu, sem helzt á nóttunni þvíngi sig svo mjøg, ad þeir varla edur ecki þoli ad liggja í rúminu, og stundum leggi hann upp í axlir. Opt er hann hvad ákafastur framanverdt í gómunum og upp eptir nockrum fíngrunum, sem verda nærstum tilfinníngarlausir, stirdir og til smávika ofur bágir, einkum ad morgni dags, á medan hendurnar mýkjast ecki eda volgna af ervidi. Stundum leggur þraut þessa aptur á milli herdarbladanna, hvar sjúklíngur finnnr jafnadarlega til rígs og jafnvel køldu, er af sumum kallast Herda-kálda. Stundum er dofinn ecki nema í annari hendinni, í nockrum fíngrunum; stundum fylgir þar med lin bólga í fíngrum og handarbøkum; opt er hann vídar í líkamanum en þá sjaldan góds viti.

## §. 176.

Handadofinn ásækir ávalt ervidis-fólk, sem leggur ad sér mikla stritvinnu, og ber þúngar byrdir, bædi á øxl-

um og í höndum; því eru sjómenn mest þvíngadir þaraf á vetrum um vertíd, en qvenfólk á sumrum, þá er það ber bædi mjólk og annad þúngt um megn sér.*). Sé tilfelli þetta á úngum og blódríkum, ber þeim blódtaka á handlegginum, en séu ecki teikn til blódríkis, er blódtakan ónýt, en þá skal brúka bød og bakstra, sem egu ad koma þeim þycku søftum í náttúrlega hræríngu. Bød þessi má tilbúa af mjólk og vatni eda sýru og vatni. Prjónasaum edur annad klædi má og leggja yfir þann dofna lim og yfirdøggva hann í dropatali med sjódanda vatni, svo limurinn badist vel. Gott er og ad taka volga hestamyki edur nauta, og leggja vid dofann undir svefninn, nockrar nætur samfleytt, edur og fleingja á hann med Brenninetlu; Spanskflugnaplástrar eru líka rétt gódir, settir á millum herdarbladanna, þegar hinn veiki hefir herdaríg ásamt handadofanum. Nái verkurinn ecki nema einúngis til handleggjunna, þá skal setja Spanskflugur eda Sóley**) á handlegginn. Um steyttann lauk og Piparrót er ádur talad. Innvortis medøl eru hér og þénanleg, hver brúkast kunna eins og sagt er §§. 166 og 67. Linist dofinn vid hér upptalin medøl, er rétt gott ád gera bød af herdslu-vatni smida, til ad styrkja med magnlitla líkams-parta, og uppfrá því fordast oftøk og þýngsla byrdir, sem møgulegt vera kann. Á gømlu útslitnu fólki, er varla ad þenkja til þetta tilfelli læknist***).

*) Meint er: ad þær, sem í úngdæmi sitja opt vid sífeldann prjónaskap, edur eru jafnadarlega hafdar vid stórþvotta, í heitu og koldu vetur sem sumar, fari ecki varhluta af handadofa. P.

**) Varhygd vid Sóley, sjá Skír. gr. vid §. 309. P.

***) Margir med handadofa hafa fundid sér gott af, ad láta lifandi hrafnablód fossa yfir þann dofna lim, lofa því ad

## §. 177.

Af því, sem nú er sagt um tvennslags orsakir og lækn-ismáta þessa tilfellis, er audsjáanlegt, hversu óvidur-qvæmileg er adferd ýmsra blódtökumanna, sem ecki ein-úngis ætla sér med blódtöku ad lækna þvíumlíkt, hvert ofmikid blód kann ad vera orsökin edur ecki, heldur þar-áofan høggva þeir járnum sínum þar, sem verst gégnir. Nockrir setja þau framaní gómana, sem mørgum hefir ílla géfist og aldrei er hættulaust, vegna undirliggjandi sína-tauga; en þad er heila líknin, ad fæstra verfæri eru svo beitt eda oddhvøss, ad lángt gángi vid eitt høgg. Adrir látast vilja taka þetta mein burt med ein-um, ecki svo mjøg almennum hætti: þeir hoggva 2 ben-jar sína vid hvern naglsrótar enda; en þessir eru, sem hinir: **Þeir vita ecki hvad þeir gjøra!** Af nøgl-um standa $\frac{2}{3}$ þeirra framundan húdinni edur an-nøgl-inni, en $\frac{1}{3}$ naglarinnar er uppundir, hulinn tvøfaldri húd, høggva nú þessir gégnum hana, en lenda í nøgl-inni, sem undir er, af hvørri þeir eckért vita. Fólk segir, þá um þetta er talad: **mér batnadi þó nockud!** og þetta gétur verid satt, því volga vatnid, í hverju

þorna 1 dægur og þvo sídan liminn; adrir halda limn-um innaní volgri gorvømb, þar til køld er ordin, edur gufu innaní nýslátradri sképnu, þar til hún er farin ad kólna. Heit vatns og sjó-bød, allskonar heitt sod er og gott, sé limurinn vel nuddadur nidri í því, og í mesta pínuverki, er opt fylgir dofa, svíar af, ad leggja liminn í sárkaldt vatn. Frá Apótheki má reyna ad upplevsa dálítid af **Kamphóru** í **Terebintin-oliu** ad bera á dofann, líka **Einirsvatn** med litlu í af **Kam-phóru Brennuvíni**, ad bada med þá dofnu limi. **Kamphóru Brennuvín** gjørist af t. d. 1 lódi **Kam-phóru** til 1 pela af gódu **Brennuvíni**; renni **Kam-phóran** ecki ad øllu leiti, má smábæta á **Brennu-víni**, jafnódt af er eydt, þar til fullrunnid er. P.

badadar eru hendurnar, ádur benjarnar eru högguar, orkar svo mikils hjá nockrum; líka síga stundum nockrir blóddropar eda vetsar úr benjunum, af því þær hársmáu ædar, sem í húdinni liggja, skérast í sundur. Nockrir búa samt ad því alla æsi þar eptir, hvervetna þar, sem kýldurinn suertir nndirliggjandi beinhimnu og sina-taugir.

## §. 178.

### Um Búkhlaup (Diarrhoea).

Búkhlaup edur Lífsýki munu fleirstir þeckja; þegar þad kémur snøggsinnis á fólk, og hverki varir mjøg lengi né hefir þúng tilfelli sér medfylgjandi, er búkhlaupid meir gagnlegt enn skadlegt, og þarf ecki annars ad gæta á medan þad yfirstendur, en þess, ad eta ecki hardann né þúngann mat, heldur drecka mikla mysu edur volgt vatn.

## §. 179.

Ef búkhlaupid varir viku lengur og gjørir mann hrumann eda veikann, svo hann hlýtur hvad eptir annad ad vera til stóls, þá er þørf ad leita medala. Hafi sjúklíng.r ógledi, uppkøst, ósmeck i munni, hvíta og slímfulla túngu, þá skal géfa honum 30 grøn af Uppsølurót, þó med Læknis leyfi; en fylgi ecki þessi tilfelli lífsýkinni, þá má taka 1 qvintín Rhabarbara og eins mikid af Vínsteins-rjóma, skipta þessu í 4 jafna parta, og géfa þad inn qvøld og morgna, en drecka þenna tíma seydi af Bygg-grjónum, Fjallagrøsum edur þunna Kjøtsúpu. Hreinsist líkaminn þaraf rétt vell og umgétin tilfelli mínki, þá má sjóda Sundmaga í vatni, hella því frá, en stappa sundmagana eda skéra vel smátt, og sjóda lítid á ný í gódri sýru og nýu, ósaltudu smjøri med litlu af tólg og eta þaraf

smámsaman, en fordast kulda og slæmt vedur, borda lítinn og léttann mat nockra daga á eptir. Hafi lífsýkin leugi vidleikid ádur ráda var leitad, taki sjúklíngur fyrst uppsölu medalid og sídan hitt, sem sagt var. Öllum er þad skadlegt ad stilla búkhlaup, án þess ad hafa hreinsad líkamann ádur; því egu allir þad ad varast, sem ecki vilja ad verr fari.

## §. 180.

### Um Blódsótt (Dysenteria).

Blódsótt er einskonar búkhlaup, hverju ad fylgir ógledi, máttleysi og mjøg sár magaverkur. Madur þarf hvad eptir annad ad leita hægda sinna; saurindin eru í fyrstu þunn og miklu meiri enn náttúrlega; í þeim sjást stundum blód-drefjar slími blandadar meir edur minna. Stundum kémur varla meira í ljós enn tómt slím án nockurs blóds. Sjúkdómur þessi er hér á landi hverki svo almennur né ad jafnadi þúngur, sem í enum heitari løndum; en opt hefir hann þó gengid hér, sem Landfarsótt, svo nockrir hafa úr honum dáid, eins og annarsstadar skédur, einkum er þad í hallærum og kríngum ellds-uppkomur, tídast vid sjóarsíduna, hvar hann almennt kallast Blódkreppa. Þegar hann kémur af blódsins og saftanna spillíngu, er hann optast næmur, grípur hvern af ødrum, deydir suma en gjørir adra dádlausa *).

## §. 181.

Sjúkleiki þessi byrjast optastnar med sóttar-umleitun edur ónáttúrlegum hrolli; þeir veiku verda snøgglega

*) Vegna skadnæmis þessarar veiki í ødrum løndum, er skipad strax skuli vitja reglulegra Lækna, sem vart verdur vid hana, sem adrar næmar sóttir. P.

máttlitlir; fá ákaflega, fárt-skérandi verki um lífid, allt frá nafla og nidur í smá-þarma, og þá verkirnir hafa verid nockra stund, kémur ákaflegur nidurgángur hvad eptir annad. Nockrir fá uppsølu og høfudverk, adrir strída velgju; slagædin slær mjøg hardt og fljótt; saurindin eru í fyrstu mikil og þunn. Þar eptir blódi og slími blønduð, og lukta mjøg ílla; túngan er þurr; líkaminn heitur; þorstinn mikill. Hvert heldur þeim sjúka er géfinn gódur skamtur af uppsølu-rót edur uppsølu Vínsteini, linast merkilega ofurebli sjúkdómsins og læknast á steirstum ad fullu, þegar þeim á eptir væri géfin umtølud Rhabarbara edur Sundmaga-stappan §. 179. — Þessum sjúklíngum er og ysrid gott ad límsjóda Fjallagrøs í vatni, sía þau svo frá en seyda juckid ad nýu þar til þycknar, blanda sídan med litilli mjólk, og drecka nóg þaraf. Slái lífædin mjøg fullt, er betra ad taka blód; stólpípa af ósaltri nýmjólk 2svar eda 3svar á dag, er einnig einkar gód. Vilji lítid skipast vid áturtalid uppsølu-medal, skal géfa Laxér-medal af Rhabarbara og Vínsteins-rjóma, og sídan Grasaseydid edur Sundmaga-støppuna. Þad rídur og mjøg á ýtrustu ræksluseml á saurindum og føtum þessara sjúklínga, vilji menn ad veikin ecki grípi hvern af ødrum.

## §. 182.

### Um Lifrar-flód (Fluxus hepaticus*).

Lifrar-flód kalla eg svo hér, hvad ecki er í ødrum løndum svo algenginn sjúkdómur, hefir þó hér á landi

*) Um þenna segir einn af Englands ypparstu eldri Læknarum J. Allen ad nafni: Fluxus hepaticus veterum

nockrum-sinnum fyri mig komid, og verid kalladur Blód-sótt, frá hverri hann er þó audþecktur a) í því, ad hann kémur einkum af lángsamri spillíngu, annadhvert í lifrinni, magakyrtlinum b) edur ødru innibli, svo ad þær í þessum líkams-pørtum stødnudu og rotnudu saftir edur blód, gánga til baksins nidur af manninum. Framar er adgætandi: 1) Sú blódi blandada vilsa, sem hér géngur nidur, er hverki hreint né fagurt blód, er liggur í rákum innanum slím og saurindi, sem í blódsótt, heldur er þad blódkorgur, sem lítur út vidlíkt og vatn, er kjøt hefir verid upp úr þvegid, nema hvad þetta er þyckra og korgslegra, galli blandad og vidurstyggilega luktandi. 2) Í Lifrar-flódinu eru verkirnir ad vísu þúngir og qvalafullir, en þarmed fylgir ad auk lítid órád og missýníngar, sárlegt kraptaleysi og þúngi; lífædin slær mjøg linlega og ójafnt. 3) Þad blód, sem úr gyllini-ædinni kémur, er frá bádum þessum audþeckt, ad þad er raudt og fagurt, og kémur ávalt bak eptir hørdum saurindum.

a) Þar eg hefir tilvitad lidid ár, er blódsótt einnig géck, eru 2 karlmenn dánir úr þessum sjúkdómi.
b) Magakyrtillinn (Pancreas).

## §. 183.

Þessi qvilli heimsækir opt þá menn, sem hafa lidid einhvern annann sjúkdóm, einkum bólgu og ígérd lifrar og miltis, einkum þá þvílíkt hefir verid illa medhøndlad,

est merum non ens. Hann mun optast heldur ecki annad vera enn sá tærandi, vidvarandi óhroda nidurgángur, sem stoku sinnum fylgir á eptir graftar-meinum í lifur, milti og ødrum inniblum, og traudt lætur sig lækna, nema máské á úngum, og er þad sama í lífholinu, sem vomica pulmonis í brjósthólinu. Samanb. §§. 50 Skýr. gr. og 69. P.

og átt ad læknast med Terebintín- og Einirberja-olíum, sem margur hér á landi á vanda til ad géfa í øllum hættum tilfellum. Þeir, sem fá þenna sjúkdóm, verda bláir og døckir í andliti, sídan fá þeir eins og líffýki, ecki med mjøg sterkum verkjum í fyrstunni, en smámsaman verdur þad nidur af þeim gengur galli og blódi blandad, af hverju kraptarnir ódum þverra. Hinn sjúki fær stundum sóttar-hvidur, sem lina nockud í millum, en koma þó aptur. Ætíd þá þésśar hvidur lina, verda saurindin skárri enn í hvidunum sjálfum, verdur þá opt vart vid frodu ofan á þeim, af því mikla galli og ødru íllu, sem þarí er blandad. Já, þar koma stundum í ljós heil stycki af lifrudu blódi rotnudu, sem luktar óbærilega ílla. Þessu fylgir velgja, uppsala og nockurt óráð, sem rjenar millum hvidanna. Líkaminn dregst og veslast allur upp; þvagid verdur med galli blandad, þyckt og ísvalt. Haldi þessi afrás af líkamanum uppi nockra stund, edur sé hún med medølum þvíngud, þá fær hinn sjúki mikinn lítilleik med mædi og þýngslum og missir alla rænu. Samanb. §. 199.

§. 184.

Þessi sjúkdómur verdur sjaldan læknadur, allra sízt á øldrudu fólki, þó, medan engin sótt kémur til, má láta hinn veika drecka spenavarma nýmjólk, seydi af Vallhumli, líka inntaka Stálvín, No. 17 *), eda Járnpillur, No. 9, og Kínabørk. Seydi af Hundagras-rót eda Súrbraudi, er til daglegs dryckjar rétt gott. Sjúklíngur má eckert kjøt eta; ad sýra dryck hans med Vitriol-Spiritus er ecki ópénanlegt.

*) Um þetta meinlæti samanber greinirnar um Guluveiki, auk þeirra hér ad framan tilvísudu. P.

## §. 185.

### Um Hlustarverk (Otalgia).

Þegar menn fá Hlustarverk, er blódtaka optast naudsynleg á handlegginum, sama megin og verkurinn er, einkum sé pínan sár, og sóttar-vera med hita og høfudverki samferda. Þar eptir skal drecka yfirfljótanlegt af volgri mysu med Saltpétri í; setja hinum sjúka stólpípu nockra daga í rød, eda géfa honum laxér-medal af Sennesblødum, Vinsteins-rjóma og Jalappa-rót, §. 294, væta sídan Bómull, þellagd eda línskaf í Bómolíu, láta þarí drjúpa 5 eda 6 dropa af Sydenhams verkstillandi dropum, og stýnga þessu í eyrad, en leggja utan yfir heitt, þyckt braud-deig, sem vætt hefir verid í sýru, svo hita-dampann leggi inní eyrad, ellegar heitann nýmjólkur drafla, einkanlega sé hlustarverkurinn orsakadur af kulda, líka brenna med Spanskflugum fyrir aptan og neden eyrad; lítinn hlustarverk bætir moli af Kamphóru vafinn í ullar lagdi, látinn inn í eyrad, og svo frv. Séu ecki Sydenhams verkstillandi dropar fáanlegir, þá má uppleysa lítinn mola af Kamphóru í Bómolíu, væta þarí línskafid og láta í eyrad; líka væta lagdinn í Kamphóru- eda Saffrans-Brennuvíni, flóadri nýmjólk, og einkum volgri konumjólk*).

*) Orsakast gétur Hlustarverkur af, ef flær eda annad íllyrmi skrídur inn í hlustina, er þá Bómolían einkar gód edur og gott Korn-brennuvin, Malurtar-dropar og fl. Sjáist graftar-vilsa renna út á eptir, er gott ad spýta volgri nýmjólk, Bygg- og Hafra-grjóna- edur Vallhumals-seydi ydulega inní hlustina, samt gánga ecki úti í vind eda kulda, án þess ecki sé ullarlagdur inní eyranu. P.

## §. 186.

### Um Ufbólgu (Uvulæ phlogosis v. procidentia).

Það er siðvenja margra hér á landi og sumstaðar í Norvegi, en hvergi annarstaðar, það tilveit, að skéra úf úr fólki, þegar hann er lángur, sem skédur með tvennu móti: annadhvert er hann lángur og digur undir eins, með fagurraudum lit, eda hann er lángur, mjór, grá-leitur og lafir þá, sem slitti nidur á túngu. Í því fyrra tilfelli á að taka blód á handleggi og géfa inn þæga og góða búkhreinsun, og þar hjá skola hálsinn með eptirfylgjandi medali:

Tak: Burnirót (§. 115) edur Hálsbruna-rótar jurt*), sjód í vatni litla stund, sía svo frá; lát þarí lítid eitt af Saltpétri, og brúka, sem fyrr segir.

Inn í munninn má láta leggja dampa af heitri sýru edur ediki og vatni. Í sidara tilfellinu skal brúka hægt uppsølu-medal, og sídan drecka seydi af Einirlimi, edur Blódbergs-vatn, og skola hálsinn ydugleg a med Alúns-vatni, ellegar þryckja nedan í úfinn skøfnu Engiferi, á fløtu spóns- eda skeidar-skapti. Vilji oflítid adgjørast vid þessi medøl, má blanda í vatnid, sem hálsinn er skoladur med, nockrum dropum af Vitriol-Spiritus, edur Pipar og Alúni saman-steyttu; en skéra úf úr fólki og børnum, væri betur af-lagt, því vita má, ad Gud hefir ecki þann líkamans

*) Halsbrynde-urt, sem utanlands svo kallast, ver hverki hér á landi, né fæst í Apótheki, en prunella officinalis, sem Author géfur tjed íslendska nafn, heitir Blákolla og sumstadar Brúnella, og ver mest í Skaptafells Sýslu. Hana brúka Færeyíngar eins og hér segir, vid morgu í hálsi og qverkum. P.

lim til óþarfa eins skapad, en hann er sínum sjúkdómum undirorpinn eins og adrir limir, hverja þar fyrir fávíslegt væri af ad snída, þótt sjúkir eda sárir yrdu.

## §. 187.

### Um Kláda (Scabies).

Kládi kémur á margt fólk hér á landi af óþverraskap bædi í mat og dryck, óhreinum føtum, rakasømum og køldum húsum. A'nockra kémur hann af því, ad þeir sofa hjá þeim, er kláda hafa, klædast fati því edur leggjast í sæng þá, hvar kládugur hefir ofmikid umsjatlad.

## §. 188.

Þeir, sem læknast vilja af kláda, mega kappkosta ad fordast þær tøldu orsakir, og þar fyrir utan eta hverki súrann, saltann né úldinn mat; brúka skulu þeir fylgjandi Púlver:

Tak: Jalappa-rót, Vínsteins-rjóma og Sennesblød, af hverju 20 grøn, smásteyttu, og géfa inn hvern 8da dag í 5 eda 6 reisur.

A'lla þá tíd, nema Purgér-dagana, drecki þeir seydi af Einirlimi og Skarpsætu- eda Njóla-rótum. Þegar Laxér-medalid hefir verid 3 eda 6sinnum brúkad, skal smyrja allann líkamaun med eptirfylgjandi medali:

Tak: 2 lód af steyttum Brennusteini, 1 qvint. Salmiak, 3 lód af gódri Hafratólg og 1 matskeid af Bómolíu. Brennusteininn og Salmíakid meljist smátt, blandist sídan vid tólgina, og brúkist eins og fyrr segir *).

*) Einfaldt og audfengid rád vid fleirstum kláda hér á landi, sem ecki er ordinn ad ættfylgju, eda því megnari, er: ad taka Hámin-njóla eda Heimulu, med rótum, legg og blodum, ádur hún frævar, brytja, sem kál, sjóda

Vid þetta mun kládinn optast burt hverfa; en komi hann aptur vegna einhverrar yfirsjónar, má taka ad nýu einar 2 samslags búkhreinsanir, sem ádur, og drecka hid sama seydi, smyrja sig annanhvern dag med áburdinum, og þvo líkamann þess á millum med venedískri sápu uppleystri í nýmjólk.

§. 189.

Þeir, sem hafa gamlann, inngróinn kláda eda hríngorma, skulu brúka ádursagdar búkhreinsanir hvern 14da dag, drecka af jurtunum og blódhreinsandi thei No. 21 eda No. 22, 1 thekopp í senn.

---

sax þetta í nýu smjöri, einu hnefa móti mörk hverri, med hægri sudu, gódan tíma, og hræra alltaf í, láta sídan kólna, þángad til svo er afrokid, ad síad verdi og kreyst med höndunum gégnum lerepts-poka í hentugt ílát. Med þessu má maka og nudda hvar kládinn er mestur, tvisvar á dag, en jafnframt því, daglega smádrecka mörk eda pott á dag af Einirvatni eda Heimulu-rótar seydi, og þvo áburdarstadinn í heitu sápu-vatni annann hvern dag, fara yduglega í hrein nærföt og varast kulda. Edur blanda saman í stórri krucku eda leirpotti, 4 lódum af sem smærst steyttum raudum múrsteini, 2ur lódum af Brennusteins blómi og 8 lódum af nýu smjöri, yfir hægum eldi, og hræra í med trèspítu, uns nærstum er storknad. Þessum smýrslum núist sem fastast um kládann, hér og hvar í einu, og þvoist í volgu þess á milli. Nú á dögum lækna menn kláda medal margs annars, þannig:

Tak: jafnt af hverju Vínsteins-rjóma og Brennusteins-blómstrum, blanda vel saman, og gèf 1 theskeid í senn í mjólk, 6 eda 8sinnum á dag vikutíma; maka þar á eptir allann kroppinn 4umsinnum á degi og nóttu med kláda salve No. 19 í Rec. Registrinu.

Sjúklíngur skal liggja í rúminu á medan þessi medol brúkast, en ad sídustu skal þvo allann líkamann upp úr volgu sápu-vatni, og þurka vandlega med einhverju snörpu. P.

## §. 190.

Þegar kládinn er batnadur, skal hinn læknadi náqvæmlega adgæta klædnad sinn, og ecki brúka þau íverusöt, sem hann bar á medan hann hafdi kládann, fyrri enn hann er þveginn og reyktur, annadhvert yfir Einir edur Brennusteini á glød; líka skal hann fordast allt þad ádursagda, er kláda kann orsaka.

## §. 191.

Kláda á gømlu fólki skal ecki flýta sér ad lækna, nema því ad eins honum skyndilega slái inn, þá má setja Mustarsdeig á þann stad,, hvar kládinn var mestur svo ad honum slái út aptur.

## §. 192.

Ad bada sig í sjó og þvo í køldu vatni, er þeim yfrid gott, sem hafa kláda; þó er betra ad brúka laugar; en ádur þvílíkt er gjørt, skal inntaka nockrumsinnum búkhreinsandi medøl, því engin útvortis medøl, hver helzt, sem vera kunna, ega ádur ad brúkast, annars lídur sjúklíngurinn tjón á heilsu sinni og máské lífinu.

## §. 193.

Med þessari adferd má lækna ýmsa sjúkdóma hørundsins, medal hverra telja má Hríngorma og fleira þvílíkt, en optar útheimtist þartil lángsøm brúkan medalanna og þægilegt matarhæfi.

## §. 194.

Um Høfudskurfur eda Geitur (Tinea, etc.).

Þetta má og med Brennusteins-smyrslum lækna, eptir ad líkaminn er ádur vel hreinsadur med hinum medølunum, þegar þau eru lengi áborin. En ad lækna Geit

og Skurfur í høfdi, med útvortis áburdi einúngis, án þess þar hjá sé hreinsad blódid og saftirnar, er: ad draga sjúklínginn upp úr vatnsfallinu til ad drecka honum í sjónum*). Stundum eru Geitur svo megnar, ad ecki láta þær undan medølum þessum, en þá er naudsynlegt ad plocka edur kippa, med þartil gjørdri taung, øllum hárunum upp úr, hvar skurfurnar eru, og taka hvern dag fyrir sig blett-korn; ellegar bræda gott Stálbik, draga í klút-strimla mjóa og leggja þá hvern vid annann volga yfir skurfurnar, láta svo vera daga óhreyft, en rýfa sídan, med smá-kippum, strímlana uppúr, en en eptirá bera ofaní Eggja-olíu eda nýtt Lifjagras, og sídan skal leggja þar yfir klút, í hvern bræddur sé mergur úr nauta- eda sauda-fótum**).

## §. 195.

### Um Oværi eda Lús (Pediculi).

Opt er þad, ad børn og únglínga ásækir mikil Lús, vid hverju hér á landi er winna leitast enn skyldi, en erlendis þykir þad engin nidran***). Høfudlýs burt-

*) Sjá Skír. gr. vid §. 228. Med því, ad láta dreng drecka blódhreinsandi the heilann vetur, og laxéra á millum, samt ungv. ad Tineam, læknadi Apóthekara kona Mad. Vigfúsen einhverja enu verstu Geit. H. A.

**) Adur enn þetta hvert fyri sig er byrjad, á ad klippa af hárid, bleyta burt hrúdurinn med nýu smjøri, og láta hárid ecki vera vaxid lengra enn svo, ad taungin fái haldid því. P.

***) Pad er ofmikid last ad segja: lítid sé vid þessu leitast; fleirstar mædur og barnfóstrur kemba svo og þvo høfud barna sinna, og þeir, sem rád til hafa, láta þau svo géta skipt um nærføt, ad mjøg sjaldan þarf ad sækja Sabadillu-fræ né Lúsa-salve í Apóthekit. Dæmi eru til, ad lýs vóru gjørdar útlægar úr høfdi barns og af kroppi med Lúsa-salve; barnid vard slagaveikt, en

tekur aska af góðu Tóbaki eður Sabadillu-fræ, smátt steytt og í höfuð borið. Líka tekar qvenfólk utanlands, stundum Pétursselju-fræ, steytir það smátt, hnoðar saman við smjör og ber í höfuð barna. Flatlús drepur Tóbak, sé það soðið í víni eða Brennuvíni og þar með þvegið holdið, hvar Flatlús aðleggst. Lúsa-smyrsli fæst á öllum Apóthekum fyrir 6 eða 8 skild. *); sama er um Sabadillu-fræið.

§. 196.

Um Gulu á fullorðnu fólki (Icterus adultorum).

Þegar gallið á einhvern hátt hindrast, svo það gétur ecki reglulega gengið um sína áskøpuðu vegu, samblandast þar ecki mjólkursaftinni **) eður meðdeilir henni það ómissanlega sápu eðli, hún þaðan á að hafa, heldur gengur það úti blóðið, litar augun, og þvagið gult, en saurinn hvítann, þá kallast þetta tilfelli Gula eður Gulusótt.

§. 197.

Í fornøld aðgreindu margir Gulu í tvær artir, nefnilega: Kolgulu (Icterus niger), og reglulega Gulu (Icterus flavus). Þetta hefir þó ecki komið til af þeim svarta eða gula lit, sem nockrir hafa meint að Gulu væri eginlegur, heldur af þessu: sé mikið gall søftunum samblandað, þá kallast þessi tilfelli Kolgula, því saftirnar eru hér stærri spillíngu undirorpnar, enn

batnaði um síðir við það ráð reynds Læknis: að láta lús tímgast á barninu aptur, sem ecki ætlaði að verða svo auðveldt. P.

*) Það stendur þó ecki í Apótheks-bókinni af 1805, áður var það eptir No. 23. P.

**) Þannig nefnir Author næríngar-saft þá, er maginn tilbýr af allri fæðu, og látínumenn kalla Chylus. P.

í hinni svokolludu almennilegu Gulu, en sjúkdómurinn er einn og hinn sami. Jómfrúr Gulan — um hverja ádur er talad — kémur þessum sjúkdómi eckért vid, því beggja sjúkdóma orsakir eru mjøg svo fráleitar hver annari.

§. 198.

Adal-orsøk þessa sjúkdóms er ætíd í því fólgin, ad gallid annadhvert gétur ecki skiljist frá blódinu í lifrinni, ellegar þad gétur ecki gengid sína réttu leid í gégnum gallgánginn (Ductus coledoctus), hlýtur því ad hverfa til baka inní þá stóru holæd (vena cava) og gégnum hana inní hjartad, hvadan þad med blódinu dreifist um allann líkamann. Til þessa kunna ad vera margar orsakir, svo sem: módurlífsins vøxtur á þúngudum konum, hverr ávalt þreyngir ad iníblunum, og undireins samanþyckir gallsins gángvegum; hørd saurindi og vindur í lánganum (Colon), slím og vindur í tólf-fíngra þarminum (Duodenum), hørd bólga og teppa í lífrinni, þegar gallsins gángvegur er samangróinn, og í honum situr slím, sandur og steinar; offsterk uppsølu-medøl, kaldur dryckur ofan á mikinn hita, reidi og allt þad, sem orsakar mikla drætti í inníblunum, stydur ad þessu.

§. 199.

Sá sem veit, til hvers gallid er af Gudi géfid mannlegum líkama, veit líka, án minnar uppfrædíngar, hversu mikid íllt leidir af þess óreglu: uppþembíngur, íll matarmelting, sjúklíngurinn fær óhægd fyrir brjóstid, og vallsángurinn verdur hinn óhægasti; næríngar-saftin gétur ecki reglulega tilbúist, og þaraf kémur hinn almennilega svo kalladi Fall-hrásslagi (Cacochymia biliosa). Líkaminn verdur allur gulur, og vari sjúkdómurinn lengi,

uppleysist blódid og snýst í rotnun. Hér af koma þær sárlega rotnunnargjørnu Gallsóttir (Febres biliosæ), eins og stundum ólæknandi Vatnssýki á fólk; líka er þetta á stundum orsøk til hættulegs blódrennslis á kørlum og konum. Í lifrinni sjálfri gjørir þad óyfirvinnandi stýflur, ólæknandi herdslu-eitla, og ad sídustu daudlegann tærandi meinlæta nidurgáng. (Sjá Skír. gr. til §. 182).

## §. 200.

Jafnadarlegast byrjast Gulu veiki med matar-ólyst, þúngum andardrætti, hjartverki, §. 161, ropum og ógledi, íllum smeck í munninum; þar nærst qvartar sjúklíngur yfir verk í hægri sídunni, hvar med opt fylgir sótt; þad hvíta í augunum og allur líkaminn verdur gulur; í þvaginu er svo mikid gall, ad pappír og léreft litast þaraf gult; saurindinn verda annadhvert hvít eda grá; húdin á líkamanum þornar edur klæar. Sé nú annadhvert ílla farid med sjúkdóminn, edur hann sé ílla artadur, verdur smámsaman vart vid þau tilfelli, sem um er gétid í §. 199.

## §. 201.

Margopt er létt ad þeckja þenna sjúkdóm af hørundsins og augnanna gula lit, en þó ecki ávalt; ecki heldur hafa þeir allir gulu, sem gulir eru um naglir, augu og hørund; qvarta um þýngsli fyrir brjóstinu, svefnleysi, máttleysi, matur-ólyst og fleira þesshátttar, því þad fylgir líka ødrum sjúkdómum, svo sem: nýbyrjadri Nýrnasótt, uppþembíngi og dráttum í tólf-fíngra-þarminum, óhreinum maga og svo frv. Þau einu vissu kénnimerki eru þad, sem sjést af þvaginu og saurindunum; hvertveggja á ad ransaka náqvæmlega hjá øllum þeim, er

um Gulu qvarta, eins hvert á þeim sjer útvortis edur ecki, annars er hætt vid hinni verstu villu í þessu efni, og þad skédur optar enn skyldi hér á landi; því finni madur til fyrir brjóstinu, bríngsmølunum, edur undir sídunni, segir hverr um annann: þad sé Gulu-verk-ur; svo ríkur er nú þessi þánki hjá mørgum, ad þótt þeir séu spurdir: hvar tilfinníngin sé? svara þeir, án þess ad gæta ad spurníngunni: þad géngur ad mér Guluverkur! en um saurindin talar engin.

## §. 202.

Þegar gulusjúkur madur hefir brennandi verk undir hægri sídunni og nálægt flagbrjóskinu, sjáist þar bólgu-þroti, hafi hann þarhjá velgju, uppkøst, þúngann andar-drátt med máttleysi og øll þessi tilfelli vaxi stundum en mínki á millum og þetta skédur hvad eptir annad, þá er ad óttast fyrir, ad steinar og sandur séu í gallsíns gángvegum a).

a) Þegar gallid ecki skilst frá blódinu í þeim ytstu endum Portædarinnar, þá verdur líkaminn aldrei svo gulur, sem annars; þá er og Gulan mjøg svo létt-bær sjúkdómur, því sjúklíngur finnur ad eins, ad hann er venju framar máttvana.

## §. 203.

Þegar Gulan kémur af hardri bólgu í lifrinni, er hún optlega ólæknandi, og sama má segja, ef gallsíns gángvegir eru samangrónir. Aukist bólgan undir hægri sídunni, andardrátturinn verdi mjøg þúngur og brjóst-þýngsli mikil, allrahelzt ef mikill hósti fylgir, er ad ótt-ast fyrir daudlegri lifrar ígérd eda vatnssýki. Verdi sóttin meiri og meiri, eptir því, sem álídur sjúkdóminn, fær hinn veiki tærandi eda uppdráttar-sótt, sem traudt verdur læknud. Þad er og víst dauda-merki, fái vatns-

sjúkur madur Gulu. Falli hinn gulusjúki í Gallsótt (Febr. biliosa), er sjaldan góðs viti; en fái sá Gulu, er í Gallsótt liggur, med svita og einhverri annari afrás, er það opt teikn til bata. Aukist sóttin, þegar Gulan kémur út, munnurinn og húdin verdi þurr, en gulu-liturinn þá hverfi snøgglega og þvagid umbreytist, er hinn sjúki optast skammlífur. Fái þeir Gulu, er hafa fjórdadags køldusótt*), deya þeir optast allir. Kolgula læknast sjaldan, utan á únglíngum. Sé eckért gall í þvagi hins sjúka, heldur einúngis hvíttleitt botnfall (Sedimentum), þá bodar þad optastnær bædi lángann og þúngann sjúkdóm. Séu þarámóti bædi þvagid og svitinn svo miklu galli meingud, ad lérept litist þaraf, er þad ávalt gott teikn. — Allstadar, hvar Gulan hverfur snøgglega, án þess þad med blódinu samblandada gall burthreinsist, gégnum þá náttúrlegu vegu, þar er ad óttast ofherdslu-bólgu eda bris-sullí (Schirrhus) í lifrinni.

## §. 204.

Sá, er Gulu vill lækna, svo hinn sjúki hafi ecki íllt af þá er frálídur, honum ber náqvæmlega ad ransaka ásigkomulag sjúklíngsins, og grenslast eptir orsøkum þeim, hvaraf hún muni komin vera; einkum skal hann eptirlifa þessum 4um høfudpóstum: 1) Skal hánn láta þad vera sitt adal-augnamid, ad burthreinsa slím og annad, þad er teppa hefir mátt gallsins farvegu. 2) Lina þeim sáru verkjum, sem Gulunni stundum fylgja. 3) Uthreinsa gallid, sem blódinu er samblandad. 4) Styrkja þá parta, er hvad mest hafa lidid.

*) Þad þarf varla rád ad gjora fyrir henni né ødrum intermitterandi koldusóttum, eda sem Hofundurinn, §. 291 kallar, Ridusóttum, á Íslandi. P.

## §. 205.

Til ad þynna gallid, þéna Súrur og Vallar-rætur eda blød þeirra, annadhvert í vatni sodid, edur nýtt af jørdunni étid, sé sá tími þad verdi, sama er ad segja um Krossurtina*). Utpressud saft af þessum urtum a) er og einkar gód, sé þaraf druckinn gódur sopi í einu, nockrumsinnum á dag. Hvar eckért verdur í vegi, ad hinn sjúki megi taka uppsølu-medal §. 292, er í alla stadi óhætt og naudsynlegt, ad géfa hverjum fullordnum Púlver af uppsølu Vínsteini 3 grøn, edur Uppsølu-rót og Rhabarbara, 20 grøn af hverri fyrir sig, vel samanblandad, og eptir uppsøluna Urtasaftina. Menn hafa og med gódum notum í léttvægri Gulu, tekid 2 eda 3 sopa af Helluhnodra-seydi, en þad er hrauslu fólki hentugast, hvers innibli eru í gódu lagi, og eckért hindrar frá ad taka uppsølu-medal. Lángsamlega og mikid druckid af Himilis-njólarótar seydi, er ypparlegt, því bædi gjørir hún lidugan og mikinn vallgáng, og líka er nockur sápu-vera í rótinni, sem þynnir gallid; en hvad, sem brúkad er af fyrrgreindu, ættu þó uppsølu-medølin undan ad gánga, því opt krapta þau mest, mega þau ella brúkast.

a) Þær urtir, af hverjum taka skal saftina, ega ad steyt-

*) Krossurt veit eg ecki til hér sé kollud, nema Talictrum alpinum, og þó óvída. Krossmadra (Galeum boreale) er þannig nefnd, af því hún á leggnum hefir 4 blød, mótsett í kross, og hvítt blóm annars; en hverig mun hér meint. Máské þad egi ad vera fífil-tegund sú, er heitir Senecio vulgaris, og Danir kalla Kors-urt; hún vex híngad og þángad sunnan- og austanlands, og nefnist Jakobs-fífill, sem þó tilheyrir annari tegund. Adurnefnd Hundagras-rót er mikid gód sømuleidis Horblødku-rætur. Seydi af þessari sídastnefndu urt, kalla Sunnlendíngar Hófvatn. P.

ast í volgum potti, ef ecki er mortjel til, láta svo urtirnar steyttar innaní lérept og vinda úr allann vökva, sem á ad standa og setjast, þaraf takist inn þad klára.

## §. 206.

Þegar mjøg svo hardir verkir fylgja — hvad optast er teikn til steina í gallgánginum — brúkast bleytandi urtir ad leggja yfir, hvar verkurinn er, og eins Kýrblødrurnar, §. 123; þaradauk skal setja bleytandi stólpípu af Grjónaseydi, hvaraf hinn sjúki drecki heilmikid, eda bláystri volgri mysu, og þreyngi verkjanaudin mjøg hardt, má géfa honum 15 til 20 dropa, af Sydenhams verkstillandi dropum *).

## §. 207.

Sé Gula orsøkud af reidi edur ødrum sinnishræríngum, má hún læknast nockud ødruvísi, en hér ad framan er frásagt; þá er, med bestu notum, géfid hálft qvint. af medalinu §. 16, 6sinnum á dag, í vatni edur mysu, og þá, er þad hefir brúkad verid nockra daga í rød, má géfa inn lint laxér-medal, af þeim, sem um er talad §. 95. Í þessari art af Gulu, má sjúklíngur varast øll uppsølu og Púrgér-medøl.

## §. 208.

Þegar vissa er fyrir, ad Gula hafi komid af ofsterkum og óforsjálega inngéfnum uppsølu-medølum, þá skal

*) Þessir almennt kølludu Svefn- edur Opíu-dropar (Tinct. opii orocata *s.* laudanum Sydenh.) eins og sjálft Opíum, og hvad þaraf er tilbúid, fæst nú ecki á Apóthekum nema tilkomi Recept frá reglulegum Læknir. Sú í Skíríngargr. vid §. 45 nefnda Tinct. opii simplex, er ódýrust, en eins góð, inngiftin eins af bádum, til 15 dropa fullordnum, og úngbørnum ecki yfir 4 dropa, en má aldrei géfast hvar sterkur sóttar hiti eda ólga er í blódinu, og ecki nema med upplýsts Læknis rádi, í hvers hendi þetta medal opt er guddómlegt. P.

sjúklíngur drecka yfirfljótanlegt af strockvolgum áum, nýmjólk eda Grjónaseydinu §. 84. Inn má géfa 3svar eda 4umsinnum á dag tilbúid Skéljapúlver, §. 51 í Skír. gr., med Saltpétri, líka má setja honum stólpípu af nýmjólk og volgri mysu.

## §. 209.

Yfir høfud er þad ad segja um allskonar Gulu, hverri eingin sótt fylgir: hún læknast af eugu medali betur enn Sápu. Venedisk Sápa, einúngis útþvegin í mysu, og þaraf druckinn 1 pottur med hverjum 2ur dægrum, læknar vissulega, jafnvel nockud magnada Gulu, sé þar hjá brúkad volgt bad qvøld og morgna. 2 eda 4 af Stahls Pillum, §. 77, edur og Pillur, sem eru gjørdar af jøfnum þúnga af Rhabarbara og venedriskri Sápu, edur Alóe og Sápu (§. 157), opt og smátt inngéfnar, eru hinar allra þénanlegustu. Seydi af Hundagras-rótum, edur Skarpsætu, kann þar med ad dreckast.

## §. 210.

Hafi madur fengid Gulu med strídri sótt, eymslum í hægri sídunni, gulum uppgángi og jafnvel uppkostum, þá er med hann farid, eins og ádur er sagt um Lúngnabólgu, §. 122 og 137.

## §. 211.

Ein á medal hinna þýngstu Gulu-tegunda, er sú, sem kémur af etandi sárum, edur ofherdslu-bólgu í lifrinni §. 199, edur er þvílíkum tilfellum samfara, þar er optar øll bata-von úti; þó er þad eina medal, sem nu um stundir hefir nockrum hjálpad, nl. Skarnurtar-

pillurnar, hverjar brúkast ega, sem segir §. 250, ásamt Grjónaseydinu §. 123, og mikilli mysu til daglegs dryckjar og líka næríngar. Hin allrahægustu búkhreinsandi medøl, mega og brúkast, eptir kríngumstædum.

## §. 212.

Pad, sem mestu vardar, bædi vid þennann og adra sjúkdóma er hentugt og gótt matarhæfi. Af því Gulan er komin af slími og þyckum vetsum, bædi í galli og ødrum søftum, eru hinum sjúka þénanlegar þunnar súpur af úngkindum og fuglum; Súrur, Vallaróta-blødku og allra fíbla blød, maturtir og fleira þvílíkt, er einkar vel þynnir allar saftir; en þaramót øll seig og slímfull fæda óholl. Sé sóttveiki Gulunni samferda, eru sýrdir dryckir hinir óhentugustu. Fólk hefir trú á því, sem þad tekur inn, og þad er ad vísu gott; en því ad eins hjálpa medølin, ad kraptur þeirra sé ecki ónýttur med næríngar medølunum. Margra alda reynsla hefir leidt þann sannleika í ljós, ad engu minna verdur útrétt med gódu matarhæfi, heldur enn hinum krøptugustu medølum. Hitt er og eins víst, ad þeir, sem einúngis reida sig uppá medølin, án þess ad lifa eptir þessari reglu med matarhæfid, svíkja mjøg svo sjálfa sig, en narra þann, sem þeim hefir gód og réttvalin medøl í hendur fengid.

## §. 213.

Pegar Gulan er bøtnud, svo á holdslitnum, þvaginu og saurindunum sjest eckért kénniteikn til Gulu framar, þá ber ad styrkja aptur þá veiku limi, hvartil hér ádurnefnd Járn-medøl eru hin þénanlegustu, svo sem:

Járn-vatnid, §. 77, og Járn-púlver*), og hafi sjúkdómurinn þúngur verid, þá Kínabørkurinn, af hverjum hinn sjúki má taka 2 til 3 qvintín á dag í køldu vatni, mysu, eda ødru eins gódu. Sterkt seydi af Vallhumli er hér og rétt gott. Hvad helzt, sem brúkad er af tjedum medølum, þá er ætíd naudsynlegt jafnframt ad hræra líkamann eptir ad þau eru inntekin, en fordast allar kyrrsetur til lengdar.

## §. 214.

Ydur er drepid á §§. 198, 202 og 206, ad steinar géti myndast í gallinu og þess gángvegum, og orsakad Gulu; eru þeir af harpix-kéndri náttúru, léttir og eldfimir, stærri og smærri. Bágt er mjøg ad ná fullri vissu um tilveru þeirra í Gulusjúkum: helzt hafa þeir fundist í fólki, sem yduglega situr fyrir; og nockrir meina þeir séu ættfylgja. Bólga sú og verkir, sem um er gétid vera kunni teikn til Gall-steins í §. 202, hafa sitt fasta sæti undir hábardi rifjahylkisins hægramegin, þar sem lausu eda nedstu rifin festast vid hin, út frá flagbrjóskinu; og verkirnir, sem um er gétid, espast á fleirstum, nockru eptir þad þeir hafa bordad, og finnst þá sumum eins og eitthvad sé ad þreyngja sér þar ígégnum mjóa pípu. Margt hefir verid leitast til ad géfa inn til ad uppleysa Gallsteina, en lítid áorkast; þó

*) Hér veit madur ecki, hvert Rithofundur hefir meint eintómt Járnsvarf (ferrum pulv. Ph. Dan. 1805) tilverkad eptir hinni fyrri 1772 (Chalybs præparat.), hvaraf inngiftin er frá 5 til 30 grøn; ellegar Járn-saffran (circus martis aper.) eptir hinni sídarnefnda bók; eda í þridja lagi Æthiop. martialis, eptir þeirri Svensku Apótheks-bók, hvaraf taka má 5 til 20 grøn af hverju fyri sig. P.

þykir sumum, sem opt inngéfin Terebintín-olía hafi nockru orkad, 5 til 15 dropar í Brennuvíni og má þá engin sótt vera samferda*). Ýduglegir þynnandi dryckir, og matarhœfi, sem ádur er sagt; hæg Laxérmedøl opt inntekin; mýkjandi bakstrar ad utan, og einkanlega Gúmmi-plástur, edur No. 23, verda stødugt ad brúkast lángann tíma. Veri svo til ad bólgan hækki, eins og dragi sig saman rétt nedan vid rifjahylkid, og í henni finnist eins og skjótandi í og lint, en hardt um kríng, er best ad vitja reynds Handlæknis.

## §. 215.

Pad er sumstadar hér á landi, ef ecki allvída, ad blódtaka brúkast ætíd vid Gulu fyrst allra medala, og batni ecki vid hina fyrstu eda adra blódtøku, hætta blódtøkumenn ecki ad heldur vid svobúid. Þeir, sem þetta gjøra, muuu án efa íminda sér, ad sjúkdómur þessi komi á einhvern hátt af blódinu, en ecki gallinu, sem hér ad framan sagt er; en vel veit eg ad þad bregdur svo kannské vid blódtøkur, þegar Gulan er ecki mjøg megn, sem hún batni af þeim; og stundum, þá Gulan er mikil og nockrumsinnum hefir verid blód tekid, hverfur hún med øllu, og hinn sjúki meinar sig heilann heilsu, en honum reyníst opt ødruvísi, sem von er, því pad bregst sjaldan, ad þvílíkir fái ofherdslu bólgur í lifrina, sem á er vikid §. 203, edur einhver ønnur daudleg mein innvortis. Af þessari orsøk vissi eg til, ad deydi madur nockurr í Andakýl í Borgarfyrdi, árid 1773, gæti og fært til fleiri dœmi, ef vildi. Med blódtøkum í þessum sjúkdómi, sem einúngis kémur af gall-

*) Brandis brúkar Ol. Tereb. og Naphta, 30 dropa edur meir, eins og gétid er um Terebintín-olíuna. Th.

inu, takast kraptar þeir frá enum sjúka, sem náttúran naudsynlega þarf ad hafa, skuli hún luckulega mótstrídt sá sjúkdóminum. Svitin, þvagid, stólgángurinn verdur óreglulegt, gétur því gallid ómøgulega um þessa vegu burthreinsast, þvertámóti øllu, sem sagt er §§. 205 og 206.

## §. 216.

Pad mun ecki ad øllu ofhermt þótt sagt væri, ad øll hér ad framan í §§. 128 Skír. gr. og 182—83, ásamt ýmsum Gulunnar tegundum upptøld Lifrar-veikindi og meinlæti í lífholinu, §. 69, og s. frv., sýndu sig fyrst, edur hefdu kyn sitt ad rekju til veikinda þeirra hjá børnunum, sem um er gétid í §. 50; væri því rádlegt strax, sem únglíngar fara ad qvarta um þá nú svo algengu bríngsmala veiki, fyrir alvøru, ad bera sig ad koma í veg fyrir þær opt hørmulegu og ólæknandi afleidíngar, og þegar bríngsmalir og rifjahylki nedanverdt fara tøluverdt ad útna út, jafnframt þeim tilrádnu medølum og matarhæsi, annadhvert leggja Gummi-plástur, eda þann svo nefnda leysandi edur Dreifandi-plástur (Empl. resolvens Ph. N. Fr.) No. 23, yfir allar bríngsmalirnir, ellegar qvøld og morgna áburdinn No. 24, og ødruhverju þvo áburdarstadinn í volgu Sápuvatni, en innvortis hafa til skipta, þær §. 157, nefndu Sápu-pillur 6 til 8 qvøld og morgna, og annann daginn leysandi dropana No. 25, hvaraf takast frá 40 til 60, já 80 til 100 dropa, allt eptir aldri sjúklíngs, og halda þessu áfram svo lengi menn géta; varast kreppu-setur og allt þad hinn sjúki finnur sér óhollt í mat og adbúd, þad fremsta møgulegt er.

---

# IV. Kapítuli.

## Um nockra optlega tilfallandi útvortis Sjúkdóma.

### §. 217.

**Um und edur nýtt Sár (Vulnus).**

Færstir munu svo einfaldir, ad ecki vita hvad Sár er, þad er: sérhver hørundsins und á mannsins líkama, med skøddun þar undir liggjandi kjøtþráda edur tauga og margopt sina og æda, hvert heldur þetta skédur af járni, elldi, frosti, edur hverju ødru útvortis adkomandi ofurefli. Um kaun edur vond Sár (ulcus), sem eru ákomur þær, er falla á líkamann, fyrir utan útvortis adkomandi orsakir, einúngis af blódsins og vetsanna lángsamri spillíngu, talast sídar, §. 240.

### §. 218.

Þegar hørundid og þar undir liggjandi feiti- og vetsa-qvapi (cellulosa), kjøtþrædir og nockrar smá-ædar hafa ad eins særst, svo vidlíkt blædir úr øllu sárinu, þá er nærsta vandalítid ad græda, viti menn einúngis ad vard-veita sárid fyri lopti, kuli og skarni, en sjái svo um, ad vogur géti ordid eda grafid í undinni, þar til þarf einúngis ad taka lítid nidurskafid eda táid lérept, helzt lúid, en vel hreint, (af hverju á øllum heimilum ætti ad vera nockurr fordi), láta þad nett og lauslega ofan í sárid, tilbyrgja sídan med 3 eda 4faldri léreptskom-pressu, sem ádur sé rodin Vallhumals smyrslum edur Bómolíu a), edur og vexti-plástur í lérepts stad b), og er varla betra medal til vid ný sár edur

áverka, sem ecki eru mjøg djúpir, enn þetta *). Sídan sé bundid utan um liminn lérepts-bandi, hérum eins eda tveggja fíngra breidu, eptir limsins ásigkomulagi, sem særdur er, lengdin skamtist og eptir digurd hans, t. d., sé fótur eda handleggur særdur tøluverdt, veitir eckért af 6 álna laungu bindi vel 2gjafíngra breidu. Sé brjóstid skadad, þarf þad 9 álnir; en allir sjá, ad um hønd edur fíngur nægir miklu minna. Bandid edur strimillinn sé ecki laust bundid í fyrstu, ecki heldur of-fast, svo þaraf ecki orsakist bólga edur stýfla í blódsins eda annara vetsa gángvegum, einúngis svo þétt, ad línskafid edur kompressan ecki raskist. Þessi fyrsti umbúnadur má ad ósekju yfir sárinu liggja hin næstu 2 dægur eda lengur, ef ecki verkjar í. Þá bindid er leyst af, takist línskafid og kompressan burt, en sitji þá nockud línskaf í undinni fast 'og af blódi storkid, þá skal láta þad

*) Vid smáskurdi, hvar ecki blædir því meira úr, þarf ecki annad enn lykja undina strax saman, ad sem minnst blædi, leggja þará hreina Lérepts kompressu, og sjá til ecki opnist undin, vefja svo bandi um nockud þétt, og verki ecki í sárid, láta þessar fyrstu umbúdir sitja kyrrar einn eda tvo daga. Verki í á eptir, er betra ad losa nockud á ytstu vafníngunum. Nái madúr til Vallhumals, er dágott ad tyggja nockud af honum, og leggja tugguna vit skurdinn undir kompressuna, en sjá vel til hann liggi vel saman, láta svo óhrært, sem hann ádur segir. Annars er línskaf svo almennt tilbúid,. ad léreptid er klippt í ferhyrndar pjotlur, svo sem þumlúng edur minna í hvert horn; svo er haldid á hverri pjotlu med vinstri hendi, en med hinni tutlad úr hornunum, svo alltaf rekist úr tveim vegum pjotlunnar undireins, þar til hún er øll upprakin; ad því búnu skal taka svo stóra visk af þessu úrtaki, sem þarf, med þumal- og vísi-fíngri hægri handar og jafnþætta hana, edur eins og í togkombum kémba hana millum sømu fíngra á vinstri hønd, og leggur svo í sárid, eins margar og þarf. Um nýa skurdi og sár les medal annars Klpóst. 1819, bls. 45. P.

óhrært vera, en bæta vid af ødru hreinu og nýu, eptir þørfum, og binda svo um, sem ádur sagt. Þegar nú sárid er gróid í botninn, nægir ad liggja vaxléreptid eda vaxplástur*) yfir, án nockurs línskafs. Ecki er Vallhumall allstadar fáanlegur, en þá má í hans stad taka blómstur-knappa af Smára edur Smæru, er í túnum vex, gjøra þar smyrsli af á sama hátt og sagt er um Vallhumalinn; en sé hverki Smára né Vallhumal ad fá, má gjøra smýrslin af Maríu-stakki, Grædisúru og Ljónslappa, en allar þær urtir á ad taka ádur í blómstur koma, eins og hverjar þær urtir, sem til lækníngа brúkadar eru. Þetta er sá tími, sem náttúran hefir oss vidbundid, á hverjum øll grøs eru kroptugust, og má þá brúka bædi legg, topp og blød þeirra allt til samans. Til urtasøfnunar eru allir þurrvidris dagar jafnhentugir, og engvir messu-dagar auka né vana krapt þeirra hid allraminnsta.

a) Eg vil hér eittsinn fyrir øll segja þeim, sem ecki vita hversu Vallhumals-smyrsli tilbúast, því þau þéna ecki einúngis til þess ádur sagt, heldur og til ad bera á verki og veikar sinar vid gódar glædur, og eru því í allmørgum tilfellum þénanleg. Tilbúníngurinn er þannig: tak nýtt smjør ondverdlega sumers, þá grøs eru í gróendum og peníngur sem best ad græda sig, hnoda vel úr því alla mjólk, bræd svo og hreinsa frá øllum óklárindum, med því móti, ad láta þad standa brædt uns nockud kólnar og setur sig, en hella svo þeirri hreinu feiti ofan af. Ad því búnu takist nockud lítid þurkadur Vallhumall — sem almenníngur kallar Mellifoliu — skér hann smátt og lát ofaní þad brædda smjør, svo þad ad eins yfir hann

*) Vaxplástur er samanbrædt nýtt smjør, med hálfu minna til vigtar af gulu, nidurtálgudu vaxi, og hrært saman med tréstautli í leirkrucku. Þyki þetta heldur blautt, má hafa jafnt af hverutveggi vaxi og smjøri. Samanber Rit-høfunds Skír. grein b). P.

skjóti; þetta seydist nockra stund med hægri sudu, og hrærist í med trésþitu þess á milli; þar eptir síist grasid frá og kreystist vel, en hid frásíada geymist í vel tilbundinni krucku; en egi smyrslin ad gjørast vel sterk, má sjóda jafnmikid af Vallhumli upp aptur á sagdan hátt, í því hinu sama, sem ádur var síad. Medan smyrslin eru sodin, skal smámsaman láta drjúpa af feitinni í eldinn, og þegar hættir ad snarka, þá er fullsodid, sé lengur sodid, vilja smyrslin brenna.

b) Vax-lérept er svo tilbúid: tak 8 lód vax, blanda þar vid 1 eda 2ur matskeidum af Vallhumals-smyrslum edur Bómolíu, dýf í þetta lítid slitnu, þéttu lérepti, lát sídan storkna — flatt útbreidt — Þetta vax-lérept er í margskonar sárum einkar þénanlegt, og fullkomlega eins gott, sem hverr annar grædipláſtur, og þad ecki sízt þessvegna, ad þá þad er óhreint ordid, þarf ecki annad enn láta þad í kaldt vatn og þvo til þess hreint er ordid, þurka sídan og brúka sem ádur, annadhvert sem þad er, edur dýfa því í sama, sem fyrr var gjørt.

## §. 219.

Sé sárid svo ásigkomid, ad óttast þursi bólgu, þrota og mikinn verk í því, ádur enn grefur, hvar med opt fylgir sóttvíma og á stundum rádleysi eda høfudórar, þá skal stappa einhverja af ádursøgdum jurtum, saman vid lítid smjør, hvar í einhver ádurnefndra jurta hefir verid sodin í, uns þad verdur sem kaka, og jurtirnar hafa vel jafnad sig vid smyrslin eins og væri þad pláſtur. Kaka þessi leggist yfir sárid og endurnýist hvert dægur, en fordast skal ad ýfa upp sárid, þó um sé vitjad. Taka má líka hveitibraud eda rúgbrauds skorpu, sleyta vel med nýmjólk og ádurnefndum smyrslum og leggja yfir sárid, en vitja þó um tvisvar á dag.

## §. 220.

Þegar stór blódæd er skøddud eda sundurskorin og blódrennslid mikid, ber hverki ad fylla undina med hégóma, kérlíngar-eldi né þvíumlíku, sem margir géra; af

því verdur sárid óhreint og hindrar grædslu þess, en jafnframt meddeilir blódinu nockru, sem ecki skyldi; en í þess stad ætti einn og sérhverr, er sýslar med lækníngar, ad eiga Eikarsvampa), af hverjum taka má svo stórt stycki, sem þörf krefur, láta fyrst nockud af honum, sköfnum eda duptmöldum, ofaní undina, leggja styckid sídan þétt yfir hid blædanda sár, og þar ofanyfir mikid línskaf, en ofaná línskafid margbrotinn klút eda lérepts kompressu og binda lokfsins þétt um, svo allt verdi vel stödugt. Sé madur vokins um ad þetta muni duga, sem opt ber vid, einkum ef mikil blódæd á fæti, læri, handleggi ellegar slagæd, er sundurskorin, þá er Læknara venja, ad tilbúa flétting úr hampi eda þrædi, fíngurbreidann, gjöra af tvo hrínga, eins og þá snarvölur er settur á hest, og smeygja þeim um liminn, sem sárid er á, þannig: ad sinn hríngur gángi uppá hvern enda undarinnar, sem haldi henni saman, eins og böndinn tunnunni. Undir fléttínginn skal leggja svampinn, eptir ádursögdu, samt lérepts-klútinn samanbrotinn, og þar ofanyfir stycki af tré fíngursþycku og 4ra eda 5 þuml. laungu; en fyrr enn þetta sé gjört, fer betur ad binda laungu bindi, vel þétt skammt fyrir ofan sárid, svo ad blódrennslid í undinni sjálfri linist því heldur. Nú gét eg til, ad margur muni þessu handbragdi óvanur en þá er best undir eins og þvílíkt blædandi sár fyrikémur, ad binda lérepts-strimilinn um, sem snarast fyrir ofan sárid, hverr lengi á kyrr ad sitja, og sídan tilbyrgja þad med ádursögdum svampi og kompressu, og þar á ofan skal spítan koma, er þá óvönum hægra ad sívefja med fléttínginum, svo þétt, sem þarf. Sá, sem bindur um, skal varast ad reyra of-fast, því þad kann ad gylda liminn og jafnvel líf mannsins, þar þvílík ofreyríng

hefir á stundum ollad dreps í limnum, eda svo kallads Kaldbrands*).

a) Pad eru ad vísu mørg ár sídan þetta ypparlega medal var þeckt og brúkad af ýmsum merkum mønnum; en nú fyrir hérum 20 árum, gjørdi hinn franski nafnfogadi Læknir Brossard, þess miklu nytsemi kunna til almenníngs nota. Hann meinar þær tegundir kroptugastar, er vaxa þar á eikitrjám, hvar ádur hafa stórar greinir verid afskornar. Svampur þessi gjørir enga verki, sem ønnur blódstillandi medøl. Best er ad kaupa heilt stycki af honum, skéra þá ytstu húd burt, hver ecki er brúkud, og taka þad, sem undir liggur, berja þad med hamri, uns mjúkt verdur. Af þessu skal taka svo stórt stycki, sem þarf, til ad byrgja med ædina, sem skadast hefir; þad stillir blódid, grædir ædina og dettur optast sjálft frá ad 2ur døgum lidnum. Geitar-hár brennt til øsku, stillir almennilega blódrás úr ædum; Eyrgrænka gjørir hid sama, svo sem þá tekinn er koparpeníngur, látinn innaní lérept, og presssud þar med undin, sem blædir **).

## §. 221.

Ecki er ad vanþacka þad, ad nógar séu frásagnir hér

*) Vid stórkostleg blódlát af þessu tagi, hjálpar þetta lítid; því er nú tídast, ad ná enda ædar þeirrar, sem skoddud er og blædir úr, og binda um hana med silkiþrædi, en best er þetta fyrir vana og handnetta, og margt þarvid athugaverdt. P.

**) Hvad mun hár-aska, spansgræna og þvílíkt, ósaknæmara enn ymlíngalaus Hégómi (Húsaskúm), Kérlíngar-eldur (Fisisveppur) eda brennt bein — sem sumir brúka — hvad allt hefir ad gódu vordid? Nockrir væta og línskaf í sterku Ediki eda jafnvel Vitriól-Spiritus med gódum notum. Í Skaptafells-Skógi í Dræfum finnst á stundum kluckulagadur eda aflángur Sveppur, med mjórri endan nidur, sem grasafródir menn vilja sé Lycoperdon bovista eda Fisisveppur, (honum þó ad ollu ólíkur), af honum þurkudum og ytstu húd hans burtkastadri, hefir opt blód stillst, eins vel og ádurnefndum Eiki-svampi, hafi mátaleg afklippa verid vidlogd, og sídan umbundid eins og ádur er fyrisagt. P.

á medal vor, um ýmisleg lækníngа furduverk, sem gjørd skulu hafa verid í fornøld, med því ad græda hættuleg sár á miklu skémmri tíma, enn náttúrlega er møgulegt, jafnvel setja svartann bóg á hvíta saudkind og hvítann á svarta og fleiri hégiljur. Þessum hjátrúar þjónum vilda eg hafa þad í eyra sagt: ad Handlæknis kunnstin gjørir minnst til ad græda sár, en þad er náttúran sjálf, sem hér á meslann hlut ad. Þad eina, sem mannleg íþrótt kann þarvid ad gjøra, er: ad ryðja þeim hindrunum úr vegi, sem bægja sárum frá ad gróa; ber því ad taka sérhvern framandi hlut burt úr sárinu, hvert heldur þad er járn, tré, bein, eda hvad annad sem er, svo framt þad er møgulegt, og fyrst þar á eptir skal binda um, sem ádur er sagt; því hversu einfaldt þad annars þykir, þarf engin ønnur umsvif til ad græda almennileg sár á heilbrygdum líkama, sé þar hjá adgætt hagqvæmt matarhæfi. Margur, sem tekst á hendur ad græda sár, lætur þar ofaní eitt og annad, og meinar med því ad ávinna mikid, hvad ecki er svo fjærri, því hid minnsta, sem ecki hentar undum, skémmir þær meir enn batar, hvar á medal eg reikna ein og ønnur sárasmyrsli. Sú af alþýdu svo kallada Myrra, sem ecki er annad enn útsodinn Harpix, má einnig teljast hér med og margt annad fleira.

## §. 222.

Optlega eru sár bædi laung og sundurflakandi; í því tilfelli má draga Hamborgar-plástur (Emplastrum Sticticum) edur einhvern annann, sem vel límist vid holdid, í þétt lérept, vel hálft qvartil ad lengd, og þridja part úr þumlúngi á breidd, og er betra ad klippa dálitla rysu uppí báda endana, svo því betur

falli vid sídan; midjan af þessum mjóa plástri leggst yfir midju sársins edur því nær, skal þá stydja med fíngurgómi á annann enda plástursins, og um leid glenna út rysuna, svo vel klemmist vid holdid, toga svo nockud ad sér hinn endann, sem laus er, og þeim megin þrýsta med fíngri sínum børmum sársins saman, eins og verdur sársaukans vegna, leggja sídan þann enda plástur-strimilsins nidur, sem í er haldid, móts vid hinn og gjøra vid hann, sem fyrr sagda eg. Þannig skal leggja yfir sárid fleira strimla, eptir því, sem þad er lángt til, en sjá til ad radir plástranna liggi ecki hver vid adra, heldur ad bilkorn sé á milli; þar á ofan skal sídan leggja línskaf og fara ad øllu, sem segir í §. 218. Einnig má, ef vill, bera á línskafid Bómolíu, edur Balsamus arcæi, edur Benzoer balsam (Tinctura Benzoe compos. Ph. D.), þó ecki meira enn svo, ad eins verdi vid-þvalt, á þá sídu er ad sárinu snýr, en eckért á þá efri.

## §. 223.

Vid høfud-sár er optast bundinn, hvar færi er á, margfaldur lérepts-klútur, vættur í volgu víni edur ediki margopt á dag; ad því búnu, þá blódid er stillt og sárid hreint, er lagdur yfir þad Melilot- eda Gummíplástur, þunnt í dreginn.

## §. 224.

Vid øll sár er mest ad óttast bólgu og þrota, sem þeim fylgja vill, séu þau annars stórkostleg, en allrahættust er sú, sem fylgir høfud-sárum. Verdi vart vid, ad bólgan ódum aukist, á Læknir ad kappkosta ad hindra framgáng hennar, er best skédur med blódtøkum, hollu matarhæfi og stólpípu-setníngu einusinni eda 2svar

á dag, allt eptir ásigkomulagi ens sjúka, samt brúka bólgu=eydandi medøl innvortis, §. 123, 138. Sé sárid ecki mikid, þá er nóg, ad fordast alla áfenga drycki og kjøtmat; en sé sárid mikilvægt, skal blód taka jafnvel optar enn Asvar, láta hinn sjúka vera í kyrrdum, og lifa á þunnri og léttri fædu, t. d. Bygg= og Hafra=súpu, Mysu og þvíumlíku. Þetta er vafalaust ómissandi þeim, er hafa þau sár á sér, sem gánga inní brjóst eda líf.

§. 225.

Svo naudsynlegar, sem blódtøkur eru, þá er þær eru í hófi, bædi í þessu og fleirum tilfellum, svo skadlegar og jafnvel daudlegar eru þær ofmiklar. Mikilvægum sárum fylgir ætíd mikill blódmissir, hver optlega strax í øndverdu linar hinn særda og gjørir hann sóttveikann. Sé honum þá, ofaní kaupid, tekid blód, verdur hann mátvana; vetsarnir í líkamanum hræmast offeint, af hverju orsakast gétur skyndileg Rotnunar=sótt, og þar eptir qvalafullur daudi, sem er afleidíng ofmikillar og óviturlegrar blódtøku, sem ætíd er adgætsluverd.

§. 226.

Margir af þeim elldri Læknum hafa mjøg svo hrósad, ad brúka bædi inn= og út=vortis eitt og annad balsam og adskiljanlegar sára=jurtir; en hinir ýngri eru nú fyrir reynsluna komnir ad raun um þeirra verkanir, sem eru: ad gjøra hinn særda sóttveikann, sem øllum ber ad varast og ætíd koma i veg fyrir.

§. 227.

Um Bruna edur brend Sár (Ambustio).

Þegar bruninn er ecki meiri enn svo, ad engin bladra

er uppkomin, þarf eckért annad enn væta margfaldann klút í køldu vatni og leggja yfir, og jafnódum, sem hann kólnar, væta hann aptur, og halda þessu áfram, uns allar svidi er úr brunanum *). Sumir láta baka liminn vid elld, uns svidinn mínkar, en hvert um sig má gjørast strax í øndverdu. Ef svo lángt er lidid frá brunanum, ad bladra sé upphlaupin, skal binda þar um fínu lérepti, á hvert ádur sé borid eptirfylgjandi medal.

Tak: Blýglyttu Salve, edur No. 26 (Ungventum Lithargyrii) 2 lód, hrær þar saman vid þad rauda úr litlu eggi hráu, en sé eggid stórt, skal ecki taka nema helfíng þar af, brúka þetta til brunans, sem ádur segir; edur

Tak: blómstur af Gulmødru á sumardag, þurka nockud og bú til smyrsli, sem ádur segir um Vallhumal, §. 218.

Vid brenndu er Nurinborgar-plástur, §. 256, ágætis medal, sem á Apótheki fæst og kallast Empl. minii camphorat. s. noricum **).

§. 228.

Sé húdin ecki ad eins skøddud, heldur og einnig kjøtid brennt, má brúka ádur umgétin smyrsli §. 227, sem þá séu borin í þunnar línskafs-þvøgur, því þær falla betur vid sárid heldur enn léreptid, en ofanyfir línskafid

*) Sé bruninn á útlim, er eckért betra, en halda limnum nidri køldu vatni, þángad til allur svidi er úr, rétt eins og med kalinn lim á ad fara, og því betur, sem þad er fyrr gjørt. (Sjá Klpóst. 1819 og 1820.) Th.

**) Húfeland prísar Línolíu og Rjóma, jafnt af hverju til áburdar á bruna. Blývatn er ecki heldur ad lasta, ad væta þarí ríur og leggja vid (sjá §. 270). Vid bruna á fíngri hefir dugad, ad halda honum upp í sér, uns úr er svidi (samanb. Klp. 1823 bls. 47). P.

skal leggja varpláſturinn, §. 218, not. b. Fylgi brunanum bólga mikil og verkur, er einnſætt ad taka einusinni, 2ſvar eda optar blód, drecka eckért annad enn þad þunnt er og lítid nærandi, ſvo ſem bláa oſtmyſu med Saltpétri í, ſeydi af Hafurgrjónum, Graſaſeydi og þvíumlíkt, auk þeſsa ſkal ſetja ſtólpípur einuſinni eda 2ſvar á dag. Sé ſumardagur, ſvo fá megi Gulmødru, ſkal taka blómſtrin af henni og ſteyta þau, ſem beſt verdur, annadhvert í potti edur mortéli ſaman vid lítid ſmjør, ad einúngis tolli ſaman. Þetta leggiſt yfir, ſem pláſtur og endurnýiſt einuſinni á 2ur dægrum; edur

Tak: 1 lód af Blýhvítu, 2 lód af Ediki, 5 eda 6 ſpæni af Bómolíu og hrær vel ſaman; bæt ſvo vid því rauda úr litlu Eggi og hrær enn á ný uns vel er ſamanblandad. Þetta er ágætt bruna-medal.

Þau ør, ſem á holdinu verda eptir bruna, má nema børt med því, ad hræra ſaman 3 lód Bómolíu vid hvítu úr einu eggi og ſtrjúka med fjødur á ørid eda ſárid, ádur enn til fulls er gróid; eckért ſkal yfir þad leggja, en láta þad hardna og bera jafnódum á, uns komin er þyck ſkorpa, ſem ſitji óhrærd til þeſs hún fellur ſjálfkrafa burt, ſem optaſt ſkédur á hálfsmánadar freſti. Ad bera Blek á bruna edur forarſkarn, neita eg ecki ad betra ſé enn eckért, þó er kalda vatnid miklu betra. Þeir, ſem ecki géta fengid þad ádurtalda, géta brúkad Eggja-olíu med Línſkafinu, hver á fylgjandi hátt er þannig tilbúin:

Tak hid rauda úr 10, 12 eda 20 eggjum, lát þad verda hardſodid, myl þad nockud í ſundur og ſteyk þad hægt í ſteikara-pønnu, þar til rodna fer og

géfur frá sér nockra situ, pressa svo úr því vøk-vann eda olíuna gégnum hárdúk edur annad sem seigt er, og geym svo á glasi.

Olía þessi er einkar góð í mørgum tilfellum, og þarf ecki ad kosta mikid hér á landi, hvar egg eru nóg ad fá. Hún grædir varasprúngur, sem koma af þurki og skørpum dømpum, bruna, brjóstvartna-sár á konum, kørlum og børnum, hríngorma og høfud-skurfur a), og margt annad þessu líkt.

a) Þad á hér ecki ad undanfellast med einu ordi ad vara fólk vid því, ad brúka nockurskyns útvortis medøl vid Geitum eda Høfud-skurfum, sem nockud er í varid, fyrri enn líkaminn hefir innvortis hreinsadur verid med Laxér-medølum; því þótt þad takast kunni ad lækna Geit med áburdi einum, þá er þad optast-nær til ólucku; sjúkdómurinn setur sig inní líkamann, í lúngun, í lifrina eda annad inníbli, hvar hann brýtst út eptir lidinn tíma og verdur ólæknandi. Eg hefi hér ad framan í §. 194 skiljanlega gétid þess, hvernig magnada Geit sé hentast og best ad lækna.

## §. 229.

### Um marid og blánad hørund (Contusio).

Bláslegid eda marid kalla eg þad, sem eitthvert sljóft verkfæri, eda hvad annad, sem hardt er, gjørir mannsins líkama, þegar þad med ofurefli kastast, slæst eda þryckist á hann. Þau tilfelli, sem orsakast af høgg-um edur føllum, eru, yfir høfud ad segja, miklu hættu-legri, enn þótt opin sár væri, og þad ecki sízt þessvegna, ad hér eru svo fáir, sem kunna rétt ad dæma um þeirra ásigkomulag, því þad bleckir menn opt, ad þad lætur sig ecki ætíd í ljósi vid fyrsta leik, hversu mikid íllt því-líkt høgg eda fall af sér leidir, þegar þad kémur þar á líkamann, sem holid er undir, leita því þeir, sem fallid

hafa, engrar hjálpar í fyrstu, þó til kénni, en eptirá verdur þad offeint.

## §. 230.

Þeckt hefir eg ýmsa menn, sem á úngdóms árum hafa biltur fengid, og ad mörgum árum lidnum hafa fundid afleidíngu þeirra; upp úr sumum hefir gengid blód og gröftur med miklum harmqvælum, en nidur af sumum. Þetta eru almennt kölluð Meinlæti, en enginn hefir leidt í grun ad billtur þeirra í úngdæmi hafa ollad því. Eg gét þessa hér, í því tilliti, ad sýna mönnum háska þann, sem búinn er vid fall og billtur, ef ské mætti menn yrdu adgætnari eptir enn ádur, og brúkudu þénarleg medöl í tæka tíd.

## §. 231.

Merjist mjög holdid, er víst, ad annadhvert sprýnga þær smáu blódædar í sundur, edur og þær missa alla krapta; sprýngi þær alveg sundur, dreifist blód þeirra út um nærliggjandi parta líkamans; missi þær krapta sína, hjálpa þær eckért til blódsins náttúrlega rennslis og útvíkkast úr hófi, stendur því blódid kyrrt í þeim, fúlna og rotna, nema náttúran, adstodud af medölum géti þad yfirunnid. Í bádum þessum tilfellum er ad óttast fyrir meiri eda minni bólgu, er med tíd og tíma fyllist mjög vondri, blódlitadri og fullri graftar-veru og jafnvel holdfúa. Auk þessa fylgja hérmed nockur sérleg tilfelli, sem eginlega koma af þeim pörtum líkamans, sem fyrir högginu mest ordid hafa, svo sem: stærri ædar, sinar, bein og vödvar. Af þessu kann hinn adgætni rétt ímynda sér háska þann, sem ordid gétur, ef eitthvert inniblanna merst edur kémst svo vid, ad blódid annadhvert hlaupi út úr því, eda géti ecki í því náttúrlega

runnid, allrahelzt, þegar fyri þessu óhappi verda þau innibli, sem ómissanleg eru til ad vidhalda lífinu. Þetta ber hér þó optar vid, enn adgætt er, og verda tídum hér á landi orsök til skyndilegs dauda. Sjed hefi eg mann nockurn detta nidur daudann, eins og svæft naut, af einu knefa-höggi, er hann féck fyrir nedan mædu-brjóskid, en vid uppskurd hans fundum vér, sem þá vórum nærstaddir, ad miltid var sundursprúngid, og svo eru dæmin fleiri, þó óreyndir ecki hafi skynbragd á *).

## §. 232.

Af því, sem ad framan sagt er, sjer hverr skynsamur hvílík medöl hendtust eru í þesshattar tilfellum; þad eru þau, sem dreifa því samanhlaupna blódi, sem í fyrstu verdar svartblátt, en smámsaman móraudt, gult og grá-leitt, allt eptir því, sem þad dreifist og mínkar, svo húdin fær med hid sídsta, sinn náttúrlega lit aptur, þó án þess ad hid samanrunna blód fái gángvegu út úr holdinu, heldur jafnódum og þad uppleysist, verdur þad sogid til baka aptur, samblandast enu náttúrlega blódi og rennur ásamt því; þá blódid er fullkomlega afrunnid, og holdid hefir fengid sinn rétta lit, þá ber ad styrkja aptur þau ablvana ordnu blódkér.

## §. 233.

Þad besta medal er fást kann vid marid hold, er: ad taka Vínedik, góda Sýru edur Brennuvín, velgja og væta þarí margfaldann klút, og leggja yfir þann líkamans lim, sem marinn er, ecki sjaldnar enn 6 edur 8sinnum á dag í fyrstu, en sídan þarf þad ecki svo opt

*) Optar verdur lifrin fyrir þessu enn miltid, sem miklu er seigara í sér enn hún. P.

ad gjørast. Þegar holdid tekur ad hvítna, skal á sumardag taka Hladarfa*), sjóda hann í sýru og leggja yfir allann liminn. Umfedníngs-gras vel sundurmarid gjørir og góda verkun, sama er ad segja um Vallhumal og Grájurt; þetta er ávalt betra enn tómt Edik edur Sýra, hafi sár komid á hinn marda lim. Fáist hverki arfi né ný grøs, má taka Hveitibraud og steyta vel saman vid blómstur af Mjadurt, ef til eru; þetta sjódist med vatni og Ediki og og gjørist til umslags. Avalt þegar slík umsløg eru gjørd, skal tilbúa 2 poka, af hverjum sá eini sé vidlagdur medan hinn er velgdur**).

## §. 234.

Vilji úpptalin medøl og medferd lítid edur eckért hrífa, og marid ecki hvítna edur dreifa sér, hljóta ad brúkast búkhreinsanir edur sterk klyster; og jafnvel bólgu-eydandi innvortis medøl, þunnir dryckir med Saltpétri og Kamphóru-blanda, en útvortis sterk-dreifandi og uppleysandi medøl: sjó- eda saltvatn med Ediki eda Sýru; Salmíak uppleyst í Ediki, og blandad med helfíngi af Sápuvatni; Kamphóru-Brennuvín og Sápu-balsam til helfínga og svo frv. Þetta

*) Arfi er eitthvert besta kjælandi gras vær eigum á Íslandi, vid heitar bólgur murinn vidlagdur, líka einnig Lyfjagras. P.

**) Nú um stundir brúkast øllu fremur kaldt vatn vid allskonar mari og meidslum, og þótt almenníngi kunni vyrdast medalid einfaldt, gjørir þad fullt svo góda verkun, sem Vinedik, Brennuvín eda adrir áburdir. Taka skal margfaldann samanbrotinn klút, væta hann í koldu vatni og leggja hann aptur og aptur ofaná þann marda stad, líka er gott ad nugga stadinn med klaka eda snjó.
J. Hjaltalín.

allt gjört ívolgt, klútar í því vættir og opt vidlagdir. Sé merslid nærri beini eda lidamóti, er, auk þess ad fordast áreynslu, gott ad væta grápappír í Sápubalsami, Kamphóru-Brennuvíni eda Romm' og sletta vid hvad eptir annad, jafnódt og þornar; líka ad gjöra heitt deig af Rúgmjöli og Ediki, eda sjóda deigid í Sýru og leggja volgt vid. Naudsynlegt er dreifblód, þegar bláminn vid allt þetta ecki vill hverfa, en höggva edur rispa ofurgrunnt upp úr volgu. Þegar bláminn af marinu er kominn, er reglan, ad hafa þad heldur volgt enn kaldt, sem vid er lagt. Vid mar, sem ecki er stórt um sig, er Gúmmi- og Sápu-plástur allgódur. Sjá Skíríngargr. til §. 240.

## §. 235.

Margt skédur þad, ad madur fær þau högg, ad lítid eda eckért sjer ad líkamanum ad utan, því þad hittir einhversstadar á búkinn, hvar holt er undir, svo inníblin merjast, en hér á med ad fara eins og sagt er §. 233. Blódtökur, stólpípur og mjög þunnar súpur án kjöts, eru hinum sjúka þá hentugust medöl innvortis, en engin þúng né kröptug fæda, og í hvern pott bláystrar mysu, er hann fær ad drecka, skal láta 1 qvintín af Saltpétri a).

a) Þó þad komi ad litlu haldi, ad áminna fólk um, ad varast ad neyda sjúklínga til ad neyta þúngrar eda megnrar fædu, gét eg þó ecki hjá mér leidt enn þá einusinni ad ámálga þad. Eg hefi, mér til mikillar gremju, opt fundid, ad fólk hefir ordid fokreidt, þá er eg hefi géfid því reglur um matarhæfi sjúklínga; sagt: ad hinn veiki hlyti og ætti ad hafa gódann mat, þegar næringin væri svo lítil, því annars dæi hann af hor; en þetta góda fólk gætir ecki ad því: ad sótt elur sjúkann, né heldur hins: ad í engum innvortis sjúkdómum, sem nockud er í varid, meltir mag-

inn megna fædu líkamanum til nota, heldur situr hún kyrr í inniblunnm, úldnar þar og súrnar, en tvöfaldar sjúkdóminn og styrkir orsakir hans margvíslega, þeim veika til mikilla nauda og þjáninga; en — hyrtingar hjálpa ekki!

## §. 236.

Undireins og nockurr hefir dottid, edur med hverju helzt vidlíku móti skada fengid, svo hann liggur eins og daudur, og blód flýtur af nøsum hans og eyrum, þá skal hid allrafyrsta taka honum blód á handleggi, hvar helzt sem því verdur nád. Sama er ad segja, þó blódid ecki renni af vitunum, verdi hann andarstuttur og uppþembdur, edur med hverju ødru móti, sem honum innvortis íllt verdur af høggi eda billtu. Þessu nærst skal hafa allrabestu adgætslu á því, ad sá, er fallid hefir, sé hrærdur sem minnst møgulegt og sem fyrst lagdur í hvilu. Eptir þad skal hann drecka mikid af bláystri mysu med Saltpétri í og Hunángi; ellegar:

Tak: 2 hnefa af Hyldeblómstrum, lát þau í leirpott, med 8 lódum af Hunángi, hell þar yfir sjódanda vatni, hrær í stundarkorn, sía svo blómstrin frá og gef þeim sjúka þegar kólnad er. — Potturinn, medan kólnar, skal vera þakinn, svo ecki gusi út — 1 theekopp þaraf ad drecka aptur og aptur a).

Set honum sídan stólpípu 2svar á dag, tak svo líndúk, skyrtu eda eitthvert klædi, vind vel upp úr heitu vatni og legg um líkamann þar, sem høggid hefir ákomid; þetta itrekist aptur og aptur, og sé sumardagur, er yfrid gott ad brúka Umfedmíngs-gras, Mjadurtarblómstur edur Arfa og gjøra af umslag, rétt eins og segir í §. 233, edur:

Tak: 4 til 8 lód Hveitibraud, Hyldeblómst-

ur, Kamillu-blómstur, 1 hnefa af hverju, sjód þad í Ediki, Sýru ellegar Mjólk og vatni, og gjør þaraf umslagid.

En séu meidslin á høfdinu, ættu þeir, sem gætu, í stad Ediks ad brúka Vín; sé þad ecki til, þá mjólk og vatn. Þegar hinn sjúki hefir lagfærst nockud, er ómissandi ad gefa honum búkhreinsun, hvartil má brúka 2 lód Tamarinda-kássu (pulpa Tamarindorum) og 2 qvintín Saltpéturs, sjóda lítid, bæta þarvid 4 lódum af Manna, og hræra saman uns uppleyst er, sía sídan og géfa inn volgt. Þetta er ad vísu dýrt medal fyrir fátæka, en þarhjá hid besta í þvílíkum tilfellum; í þess stad mega hinir ørbyrgu taka 1 qvintín Saltpéturs, vel ½ lód Sennesblød, eda þurkadann María-vønd edur Holurt, setja uppá þau í leirpotti eda kønnu 1. pelá sjódanda vatns, tilbyrgja sídan ílátid, til þess nockud kólnar, sía svo urtina frá, en taka hid þunna inn. (Sjá §. 95.)

a) Í stadinn fyrir Hyldeblómstur má nota sér Mjadurtar-blómstur á sama hátt tilbúinn. Blómstrum hverrar urtar skal safna strax, sem þau ern útkomin, ádur nockurt þeirra visnar eda fellur; skadar og ecki þótt øll blómstrin hinnar somu séu ecki útsprúngin, en séu nockur farin ad falla, hafa þau tapad krapti sínum.

## §. 237.

Vilji gømlum manni þvílík óhøpp til, er ávalt þýngra og því heldur, sem hann er elldri; skal þá ecki taka hinum sama mikid blód; ad láta blæda 1 pela, er yfrid nóg; þareptir skal géfa honum þunna mysu med litlu Hunángi, hvarí gott væri ad sjóda nockud Blódberg edur Krúsmynt *) og láta hann drecka þetta

*) Krúsmynt (Mentha crispa) er útlend urt. P.

smátt og opt, en hræra sig jafnt og lítid nockra daga, og drecka aldrei kaldt, því þad er í øllum þvílíkum tilfellum háskalegt.

§. 238.

Vindist í lidi edur skéckist hønd, fótur edur hverr annar limur, þá gjørir þetta optsinnis meira íllt, enn þótt verulega gángi úr lidnum; því í þessum tilfellum skédur qnnadhvert ad beinin skéckjast í lidnum og komast ecki í sama lag aptur, edur og hitt, ad þau vindast sem snøggvast, en hlaupa þó strax í lidinn aptur, og hvert sem er, ofteygjast og jafnvel slitna fleiri eda færri lidabønd. Í þessu tilfelli á med ad fara rétt eins og ádur sagt hefi um marid; en í hinu fyrra tilfellinu skal rétta med náqvæmni þad, sem skackt er ordid, leggja þar á, hvar beinid finnst útgengid, margfaldann klút, vættann í volgu Ediki edur Sýru, og vefja sídan laungu bindi þar utanum, til ad halda lidnum því stødugri og í sínu rétta horfi. Bindi þetta má ecki leysa í hvert sinn, sem klútinn væta þarf, heldur skal velgja Edikid eda Sýruna og láta þad drjúpa á umbúdirnar uns þær digna vel, jafnódt og þornar. Þegar blámi allur og bólga er burt úr holdinu, má med gódum notum blanda vid Edikid eda Sýruna sápu og Brennuvíni. Hinn sjúki haldi sig í kyrrdum, sem hræríngarminnst á medan hann finnur sig ecki styrkann og láti umbandid kyrrt vera, þó á fætur færi og þad í lángann tíma *); því nema þetta sé gjørt, er møgulegt hinn sjúki

*) Þegar nockur dægur — eptir sem meidslid er mikid til — eru lidin, og enar fyrstu umbúdir hafa kyrrar legid, er almennur vani ad leysa frá hvern dag, til ad láta svala ad meidslinu, hvert heldur er beinbrot, úrlidagánga, edur lida-vindíng, en varast ad hid minnsta haggist lim-

verdi aldrei jafngódur, eda fái í liminn fullann krapt. Hafi ecki undist nema lítid eitt, þá er lángbest ad bada liminn í köldu vatni, en sé þad forsómad, gétur ollad meiri skada.

## §. 239.

### Um Beinbrot (Fracturæ).

Hid allrafyrsta mögulegt er, á ad setja beinid rétt saman, tálga til spítur úr breidum svigum, ófeysknum, vefja þá utan med lodpappír, binda svo liminn vel þétt, ad ecki skeiki med 6 álna laungu bindi 2gja fingra breidu; ad því búnu sé þad badad á sama hátt, er segir í nærst undangéngnum §., án þess ad leysa umbandid af. Þeir, sem hverki hafa edik né sýru, brúki mjólk og vatn til ad bada med. Þeim, sem beinbrotinn er, ber opt nauðsyn til ad taka blód og setja stólpípu, svo limurinn bólgni því sídur, edur og med jafnadi brúka innvortis kælandi og hægdir aukandi medöl; brúka ydduglega mysu, edur miklu vatni blandad Messu-vín; nærast á þunnum léttum mati*). Hundsmör og fleira þesshattar,

urinn. Þetta kémur í veg fyrir ákomur og horundssvida umkríng meidslid, einkum sé þad um leid þvegid í volgu sápuvatni eda laglega storkid med lerépti. Nockrir vilja ad sá sig hefir undid í lidi, liggi eins lengi án áreynslu og hinn, sem úr lidi hefir gengid eda beinbrotnad, er hann því vissari um ad verda heill. P.

*) Bædi beinbrot og úrlidagaungur eru — sem allir nærri géta — svo marghattud, ad vitja ætti, þegar verdur skynugra og netthendtra manna til ad fjatla þar um í fyrstu, og þad, sem allra brádast. Strax, sem bein brotna eda fara úr lidi, draga vödvarnir þau á misvíxl meira eda minna, svo ætíd verdur ad toga liminn, med mestu varhygd, seint og þétt, uns allt kémst í sínar réttu stellingar, og er þad ecki allra færi, né ætíd svo létt. Blývatn er almennt brúkad til ad fúkta med og bada bædi beinbrot og úrlidigengid eda undid; þad er tilbúid af 3ur

sem af ýmsum hefir hér brúkad verid, er ecki til annars enn auka bólgu og verki, og sá, er þad vill fordast, má gánga eptir hér greindri adferd, sem hinni þægilegustu og undireins kostnadarminnstu.

## §. 240.
### Um vond Sár, orsøkud af inn- og útvortis tilfellum (Ulcus).

Vond Sár edur Kaun kalla eg hér þau, sem hafa uppruna sinn af inn- og útvortis orsøkum, edur og því einúngis, ad blódid og saftirnar er á einhvern hátt spillt og koma optast sjálfkrafa út, nema þegar opna þarf af mannahøndum. Þessi sár verda aldrei med útvortis medølum læknud án skada og spillíngar ens sjúka; því þó þad kunni bera til ad þau grói um stundarsakir, er þó orsøk þeirra inni í líkamanum, og brýtst út eptir lítinn tíma í enn verra ásigkomulagi enn ádur. Opt eru sár þessi hér á landi eptirleifar af ílla medhøndludum útvortis meidslum, þegar madur hefir dottid og marid sig, einkum framan á fótleggjum og knjám, og þar med hefir ecki verid farid, eins og ádur er fyrilagt *).

## §. 241.

Vond sár, er eg kalla svo, er ætíd hægt ad þeckja,

pelum vatns, sem ádur á ad sjóda, þar í er látid renna ½ lód af Blýsykri (sem þó hverki má uppí sig láta né nidurrenna). Seinast má bæta í floskunu 2ur lódum eda spónum af Brennuvíni og gutla til í hvert sinn, brúkad er. Hundsmørinn væri ecki ad lasta, ef glódvolgur úr skepnunni vidlegdist í hvert sinn. Samanber Skír. gr. vid §. 176, um gufu af nýslátrudum dýrum. P.

*) Til ad ná eda draga út gamallt mar, einkum á útlimum, brúka nockrir med gódri heppni Hlandstein ad leggja þarvíd, uns vel blánar, vokva þar svo i smábenjar, og draga vilsuna út med alþecktu Blódhorni. P.

bædi af því, ad barmarnir kríngum þan eru hardir og þurrir, svo líka af vilsu þeirri, sem út úr þeim rennur, hverr aldrei er hreinn greftur, heldur nockud svipad vatni því, sem kjöt hefir verid þvegid í, optast fúl og íllalyktandi, og opllega svo skörp og bítandi, ad hún etur húdina af líkamanum kríngum sárid, gjörir hana rauda eda hleypir þar upp blödrum.

## §. 242.

Þeir, sem gánga allt of-lengi med þessi sár og láta þau jeta sig út meir og meir, géfandi mikla og vonda vetza frá sér, verda hvad af hverju ílla útlítandi og deya lokfins úr óþrifa-sótt (febris hectica). Hafi sár þessi varad mjög lengi, ætti aldrei ad græda þau ad heilu, nema svo ad eins, ad hinn sjúki brúki mjög opt upp frá því búkhreinsandi medöl, og þad allt til daudadags; annars gétur þvílíkt ollad skyndilegs dauda, vatnssýkis og annara ólæknandi sjúkdóma.

## §. 243.

Ecki man eg mig sjéd hafa vond sár á neinum manni hér á landi, án þess blód þeirra og saftir hafi spilltar verid, þegar eg fráték 2 eda 3, hverjir ádur haft höfdu meinsemdir á lífinu, sem þar sjálfkrafa útgrófu, og læknudust án mikilla medala, ad hverju gjördu sár þessi brutust út úr fótunum, og vóru mjög ílla ørtud án þess ad eg yrdi var vid merkilega spillíngu í söftum þessara manna. Rádlegt er þó einum og sérhverjum, sem af vondum sárum þjáist, ad brúka ecki fyrri útvortis medöl, enn hann gétur fengid innvortis, ásamt þeim til brúkunar.

## §. 244.

Bædi med inn- og út-vortis medölum skal kappkosta,

ad gjøra þessi illa ørtudu sár ad velørtudum, og þad skédur med þessu móti: séu barmarnir mjøg hardir og vilji ecki linast, eptir nockurn tíma brúkad línskaf med Basilik Salve og Varpláſtur yfir, þá má hoggva í þá smáskurdi, ecki mjøg grunna, en nockud þétta; þareptir skal taka mikid línskaf, væta þad med fylgjandi medali, og fylla þarmed sárid. Medalid er þetta:

Tak: Emplastrum Diapalmæ, bræd hann hægt í mundlaug, og lát saman vid lítid af velhreinsudu bræddu smjøri eda óþrárri Bómolíu, svo þad verdi vel strokid í línskafid; þar yfir skal leggja margfaldann Lérepts-klút, vættann i Blýglyttu-ediki (Acetæ lithargyrii), bløndudu med tveim hlutum vatns.

Þessu verdur ad skipta í sárinu 3svar á dag og láta ætíd nýtt aptur*) Innvortis skal brúka hvern 8da dag púlverid No. 11, sem tekid sé inn í einu í grautar- eda skyrsspæni, drecka á eptir, þá verka fér nidur, mikid af bláystri mysu, volgri, med nockru í, ef verdur, af hunángi. Auk þessa skal taka vel fullann hnefa af vel skornu Einirlimi, sjóda í 3ur pottum vatns, er seydist nidur til þridjúnga og drecka þaraf hálfann edur og heilann pott daglega millum Laxeringanna. Heimilis-njóla-rætur á vorum teknar, ádur steingur koma á njólann a), hreinsadar, þurkadar, saxadar,

*) Fyrir þann hér umgétna Pálma-pláſtur, sem ecki er framar ad sá á vorum Apóthekum, mætti máské brúka Blýglyttu-pláſtur (Empl. commune) eda Galmejar-pláſtur. En víst er þad, ad þunnt deig af moludu Bánkabyggi sodnu i mjólk, og sárid med því fyllt eins og línskafi, eydir enum hordu bormum og lagfærir sárid engu sidur enn hitt, einkum sé ádur hoggvid i barmana. P.

sodnar, hnesi móti potti í vatni, med litlu salti, og seydid ýduglega druckid, hreinsa blód og vetsa ágæta vel, auka einnig þvag og stólgáng. Skarpsætu-rætur á sama hátt brúkadar, er eg strax sagdi um Njóla-rætur, hreinsa og blódid kostulega og lina skérpu þess, auka svita og þvagrás, og séu sárin af skyrbjúgsveikum eda vatnsmiklum søftum, er Hellu hnodri mikid gódur; sømuleidis Horbladka, Hrafnaklukka, Skarfa-kál bædi í mati og drycki, einnig súrur, Vallar-rætur og blødkur þeirra. Allar þessar jurtir, annadhvert samanblandadar eda útaf fyri sig brúkadar, eru rétt hollar þeim, er sár hafa, því þær hreinsa blód og saftir ágæta vel; allteins Fjalla-grøs, §. 69.

a) Allar urtarætur, sem til lækninga egu ad notast, ega ad takast á sama hátt*); því þegar jurtin er fullvaxin eda í blómstur komin, hefir rótin rapad miklu af krapti sínum. Séu urtarætur teknar vel hreinsadar, í smá-bita skornar, og svo uppá þrád dregnar og í þurra og vindsvølu húsi uppfestar, géta þær vardveitzt árlángt**).

## §. 245.

Þeir, sem vond sár hafa á líkamanum, egu ad fordast allt súrt, salt, hángid, úldid, morkid, samt alla áfenga drycki, sódaskap og vosbúd; en hafa adgætid auga á, ad þeir hafi ýduglegann og jafnan stólgáng. Neyta ættu þeir allskonar maturta, og drecka mysu jafnadarlega, eins og ádur er sagt.

*) Betra er þad á haustdegi, þegar blød og leggir er full-visnad. P.

**) Nýlega er fundid uppá, ad lækna ýmisleg vondskusár og íllvetsg med svo nefndum Sultarkúr, lofa þad einir en lasta adrir, eins og venja er til; en þó vil eg ollum ráda, ad hann sé undir reynds Læknis umsjá. P.

## §. 246.

### Um Atumein, eda svo nefndann Krabba (Carsinoma s. canser).

Krabba eda Atumein má réttilega telja medal hinna verstu sára, bædi þessvegna, ad þeim fylgja mjøg sárleg tilfelli og jafnvel harmqvæli; hins og annars, ad þau hafa traudlega læknud verid til skamms tíma. Eg veit vel, ad ýmsir landsmanna minna láta sér um munn fara, þeir hafi þar og þar læknad Krabba, en vita þó alls ecki hvad Krabba-mein er, og því sídur þeir fái þad læknad, hvad sjást kann af því hér eptirfylgir.

## §. 247.

Pestbólur, Skyrbjúgs-sár, ílla medhøndlud Graftar-mein kaldur brandur og mørg ønnur vond sár, sem eta um sig, eru strax kølluð krabba-mein, enn þótt þau stilli sig opt af sjálfum sér, þegar þau hafa uppetid eda tært vissum pørtum líkamans; þau verda og optast læknud med hæfilegum medølum. Krabba-meinid þvertámóti, stødvast aldrei af sjálfu sér, heldur etur þad sig út og þróast med øllum sínum vondu tilfellum, allt til daudans. Sérílagi fylgir honum, sem víst audkénníngar merki skérandi og sárpínandi verkur, sem aldrei hættir, nema ef ské kann hérum 24 tímum fyrir andlátid, og hleypur hann þá um allann líkamann eda í einhvern vissann lim. Hans venjulegu adsetursstadir eru í andliti, hálsi, brjóstum og fædíngarlímum qvenfólks, þó er hann ecki vid þau svo bundinn, ad hann ecki komi annarsstadar, þar sem kyrtlar eru fyrir.

## §. 248.

Krabba-mein eru tvennslags: opin, fyrir utan

mjøg mikla bólgu og til=lukt. Um hin opnu var strax talad, §. 247, en í hin til=luktu kémur í fyrstu lítid ber, t. d. í varir, andlit edur brjóst, er smámsaman vex, og verdur mjøg hardt og sárt, sem augad, og þetta gétur varad, svo árum skipti, uns þad um sídir blæs í sundur og opnast, allrahelzt vilji qvennfólki til, er þvílíkt mein hefir, ad verda þúngad. Bólgan verdur ofurhørd, upphá, ójøfn med smá=kúlum edur hnúdum á ad þreifa; ædarnar verda þrútnar og bláar, en sárindin svo óbærileg ad hinum sjúka liggur vid ofbodi, komi vid hana minnsta dúnfjødur, og þá er bólgan er fullvaxin, sýnist sem í hana komi grøftur, hvad þó ecki er, nema milli skinns og hørunds, gul=leit vatnsglæta. Um sídir rifnar þessi bólga í sundur ad endilaungu; barmarnir umsnúast, verda þyckir, svartir eins og allt sárid, og sé eyrad lagt vid, er ad heyra sem einslags vellu edur krackanda, eins og madkaveitu í fiski og kjøti, eda álíkt og lætur í géri nidrí þessum sorta. Ad sídustu má med oddsljófri spítu eda jafnvel fjødur, rydja øllu þessu svarta burt, án þess sjúklíngur finni þad, og þá er daudinn ætíd fyrir dyrum.

## §. 249.

Ecki er þad fákunnandi mønnum ætlandi, ad fást vid þvílík mein, enn þótt — því midur — margir géfist á medal vor, sem án eptirþánka, þeckíngar eda reynslu voga sér ad skéra á burt þvílíkann luktann Krabba, byggja sídan med etandi medølum ad uppræta hann opnadann, hvad ed þó gjørir hid ílla miklu verra. Sama er ad segja um plástra og ønnur sára=smyrsli, sem brúkast, heitar olíur og hvervetna annad, sem til bragds er tekid vid gamla harda hnúta, sem enn þá ecki verkja;

þeir umbreytast vid þad á stuttum tíma í Krabba-mein, sem optastnær eru daudleg bædi hér og annarsstadar, allt til þess fram á midja 18da öld, þá er hinn ypparlegi Líflæknir Keysarans í Wíenuborg, Hra. A. Storck og eptirá fleiri, fann uppá ad gjøra Extract og Pillur a) af Skarnurt (conium maculatum) og þar á eptir Gifturt (cicuta virosa), og brúka bædi í Krabba og fleirum ólæknandi meinsemdum.

a) Óskandi væri, ad gódir menn, sem vit tilbera, einkum Apóthekarar vorir, vildu kaupa fræ þessara urta, og reyna ad gjøra þær innlendar; þær þrífast best vid gresti og grysjur, hvar vatn fúlnar í, vid mógrafir, og svo frv. Sídan eg kom hér til landsins, hefir eg reynt Skarnurt vid holdsveika menn, og vyrdst gód hjálp í, en efnaleysi og onnur óhægd hefir hindrad, ad hún ecki, sem skyldi, og ecki heldur í fullkomnni inngift hefir reynd verid *). Eg er þó kominn ad raun um þad, ad hún eintóm hefir linad þúngum tilfellum í slíkum sjúkdómum.

## §. 250.

Þegar Krabba-mein láta sig fyrst í ljósi, mætti þetta medal **) brúkast án allrar hættu. Þad hefir allmørgum hjálpud í mjøg møgnudum Krabba, en þó ecki alla ad heilu læknad, sem varla er ad heimta af nockru medali í jafnháskalegum sjúkdómi. Medalsins medferd og brúkan er þessi:

Tak: 1 hnefa af skornum blødum þessarar urtar og sjód í vatni, væt svamp eda línskaf í seydinu volgu, og þvo þarmed sárid 1sinni eda 2svar á dag þar opin krabba-mein eru.

*) Þad er adgætandi, ad Author meinar hér einúngis Conium maculatum, þó hin sé og talin, sem seinna í brúk leidd. P.

**) Hér meinast Conium maculatum. P.

Verdi ecki komist inní sárid med svampinum, þá verdur ad sprauta, edur med þar til smídadri vatns-byssu-pípu spýta þessu seydi volgu þar inní. Á daginn skal gjöra umslag af urtinni og leggja yfir sárid, og velgja þad í sama seydi hvad eptir annad, verdur því ad hafa 2 umslögin, svo þad eina verdi hitad á medan hitt annad kólnar, en á nœturtímanum brúkist Skarnurtar-plásturinn (Empl. conii maculati) yfir sárinu. — Innvortis géfist þeim sjúka Pillur af Skarnurtinni, ein í fyrstu og smámsaman auka inngiftina, eptir sem hinn sjúki kann ad þola, uns komid er hér um $\frac{1}{2}$ lód um daginn. Finnist hinum sjúka, sem skrídi í meininu eins og lifandi qvikindi, og sárid hreinsast, þá skal ecki auka inngiftina úr því, heldur láta standa vid þá, sem kominn var, þartil meinid er ad fullu lœknad. Allann þenna tíma skal smá-géfa seydi af urtinni, 1 pela 3svar á dag, nockud volgt. Hafi Krabbinn verid mjög mikill og íllur vidureignar, þá er cetíd víssara ad taka pillurnar og drecka seydid nockurn tíma eptir, ad meinid sýnist lœknad, því sídur þarf þad ad óttast fyrir þad taki sig upp aptur *).

## §. 251.

Öllum þeim, er þjást af þessum sjúkdómi, ber vandlega ad taka vara á matarhœfi sínu, á medan lœkníngin yfirstendur, svo kraptur medalanna ecki ónýtist; og því skulu þeir fordast allt súrt, salt, hángid, morkid, úldid,

*) Af öllu því fjölda marga, sem híngad til hefir prísad og reynt verid vid Krabba, ber nú bestu Lœknirum saman um, ad eckért sé víssara enn nema hann burt med öllum hans umbúdum, þegar þad er gjörlegt, og menn eru víssir um ad ólifjan hans ecki sé komin í nálœga holdkyrtla; en — þad er, sem fleira, ecki alla medfœri. P.

en eta létta fædu, allskonar maturtir, lítid edur eckért kjøt, en drecka mysu, og svo frv.

## §. 252.

### Um Fíngur-bólgu edur Fíngur-mein (Panaritium).

Fíngur-mein eru hér á landi mjøg algeng og allmørgum skadleg; þau orsakast annadhvert af því, ad fíngurinn er marinn, steyttur, stúnginn, eda einhverr vetsi framan til fíngrinum, er kominn afvega.

## §. 253.

Eg vil hér ecki upptelja ýmsar tegundir fíngurmeina bædi hér og annarsstadar, sem einúngis adgreinast eptir stadnum, hvar fíngurmeinid fyrst kémur, en mismunar eckért, ad því leiti medferdina snertir.

## §. 254.

Fleirstøll fíngurmein byrjast med nockrum hita og verki, hverjum fylgir ædasláttur, bólga og rodi, hvad allt fljótlega vex og verdur nærstum óþolandi. Fíngurinn eda høndin bólgnar mjøg og rodnar, svo ad á stundum blæs upp handleggurinn, og verdur þá vart vid mikinn þrota í handkyrtlinum sama meginn; stundum leggur sár strengur uppí olnboga, raudur ad lit og mjøg sár, og af þessu gétur hinn sjúki ecki sofid, en verdur yfirfallinn af sóttveiki, og líka ber vid ad þeir fá flog og óráð. Harmqvæli þessi endast annadhvert med því, ad meinid grefur, edur þarí kémur skadlegur holdfúi, og sé hann tøluverdur, er ætíd mikil hætta búin, því þá missir hinn sjúki optastnær, ef ecki allann fíngurinn, þá þó ætíd 1 eda 2 fremstu lidina, nema því betur sé medfarid og fljótlega hjálpad; þad hefir jafnvel

tilborid, ad menn hafa mist höndina og á stundum handlegginn af þesskyns tilfellum. Grafi fíngurmeinid og gröfturinn sé mjög bitur, eda mjög innarlega og ecki í tíma skorid, missir hinn sjúki, sem optást, fremsta lid fíngursins, og sjaldan er fíngurmein svo lítid, ad nöglina leysi ecki af.

## §. 255.

Þegar bólgan, verkurinn og sóttin eru mjög megn, er einsætt ad taka blód, jafnvel optar enn einusinni, setja hinum sjúka stólpípu og láta hann drecka mikid af mysu, (sjá §. 236). Utvortis skal brúka þau medöl, sem dreisi bólgunni, sé þess annars kostur; og þá er samt hid besta medal, ad halda fíngrinum nidrí volgu vatni *) mikinn part dags, frá því allra fyrsta tilfinníngin kémur; þad hefir margann öldúngis frelsad. En því er verr! ad almenníngur forsómar þessi saklausu medöl, og aktar ecki um litla tilfinníngu fyrst í stad: en gætir ecki þess, ad hún kunni ad aukast og leida mikid íllt eptir sig. Sé meinid komid svo lángt, ad ecki sé annar kostur, enn þad grafi, er audvitad ad hid besta er, ad flýta því, hvad med mörgu móti má gjöra, þó einkum med því: ad taka hveitibraud, melja edur steyta sem smærst, velgja í mjólk og leggja yfir, sem plástur. Nockrir, bædi hér á landi og annarsstadar, taka lyf eda kálfs=

*) Þad frelsar mann opt frá fíngurmeini, strax, sem verkurinn byrjar, ad reka fíngurinn ofaní sjódheita mjólk eda vatn, og halda svo lengi nidrí, sem þolir, allt ad því ad upphlaupi smáblödrur á fíngrinum, og vefja svo um rjóma=votri ríu. Nockrir sleppa med því, ad vefja fíngurinn med Spansflugna=plástri, þegar ad fyrst fer ad verkja fyrir alvoru. Samanber Klpóst. fyrir 1819. P.

maga, sem qvennfólk brúkar í búri, velgja þau mikid hægt, litlu meira enn nýmjólk og leggja yfir. Ad leggja þau yfir köld, er sídur til ad ráda. A sumardag má taka Lyfjagras eda Súrur, stappa vel sundur, velgja, og leggja sídan yfir, sem plástur. Þegar sýnist, sem grafid sé, skal sem fyrst stínga á, svo gröfturinn fái framgáng, hvad ávalt er betra ad gjöra offljótt, heldur enn offsídla; því enginn skyldi bída þángad til gröfturinn sjálfur útkémur, svo hann ecki skada gjöri bædi beinum og lidaböndum, hvad audveldlega skéd gétur, þared skinnid á fíngrunum er mjög þyckt, en hardnar ætíd vid hitann og verkinn, heldur því þeirri skorpu graftar-veru lengi inni, ef ecki er vidgjört. Benin á ætíd ad vera í stærra lagi; hún má aldrei gjörast med skónálum edur höfudprjónum, sem margra er vandi til, heldur med Lancettu eda gódum, oddmjóum pennaknífi, hvad vel kann láta sig gjöra sé lipurt adfarid, einkum þegar húdin af útvortis medölum er blaut og mjúk.

## §. 256.

Þegar sárid er ákomid og gröfturinn útrunninn, skal tilbinda meinsemdina med Gúmmi- eda Nýrnborgar-plástri, dregnum í lángann lérepts-strimil, fíngursbreidann, er ecki má lengur vidliggja enn 2 dægur, þá honum sé kastad, en nýr aptur tekinn a).

a) Eg vil hér eittsinn fyrir öll kénna Löndum mínum ad tilbúa þann nafntogada Nyrnborgar-plástur eda Salve, sem almennt reiknast til enna þorfustu húss-medala hér í Nordurálfunni:

Tak: Bómolín 16 lód, Menju 8 lód, Vínedik 4 lód, lát þetta sjóda, þar til þad er nær því eins þyckt og plástur; bræd sídan þar saman vid ½ lód af gulu Vaxi. Ad sídustu lát þar í 1 qvintín af nidurskafinni Kamphorn, elltri sund-

ur í litlu af Brennuvíni; hrær þetta vel saman og geym til brúkunar *).

Pad má nærfeldt brúka einsamalt í stad allslags plástra og sára-smyrsla; þad er lagt yfir verki og bólgu; med því eru tilbundin allskonar graftar- og ný sár, þad læknar þau bædi fljótt og vel.

## §. 257.

Komi fíngurmeinid af einhverjum vetsa, sem hlaupinn er út úr sínum rétta farvegi, nálægt nøglinni, er nockrir kalla naglætur, á ad skéra þarí 2 eda 3 smáskurdi, svo blódid og vetsinn komist út; skurdirnir mega vera nockud djúpir, og medhøndlast, sem einfaldt sár.

## §. 258.

Optlega ber þad vid, ad út úr gati því, er sjálfkrafa kémur, eda gjørt er med járni á fíngur-mein, kémur ofhyldgan, úr hverri, ef kreyst er, kémur lítil, hvít vilsa; þessu má þrýsta nidur edur þurka þad af, med því, ad dreifa þar á litlu af Menju eda brenndu Alúni **).

## §. 259.

Sé beinid spillt, er varla annad vissara, enn nema þad burt, sem skémmt er, hvar til ætíd á ad fá þann

*) Plásturinn sjálfann er best ad fá tilbúinn á Apótheki; en vilji madur gjøra hann blautari, edur sem salve, þarf ecki annad enn hálfbræda plásturinn í krucku, med litlu af Bómolíu eda nýu smjøri, og ellta saman med tréskautli yfir hægri glód. Par hér nefnist Bómolía sídast í bókinni, sýnist hlýda ad vísa til Klyósts 1824, og þar ad lésa á bls. 140 þessarar olíu not vid enni svo nefndu Gulu-pest — not hennar í fleiri pestar-ortum, jafnvel frá Austurálfu eru ecki ókunnug — máské Hrá-lýsi og vel hreint, nýtt, kúa-smjør gjøri vidlíkt og Bómolía. P.

**) Petta ber sjaldan vid, nema þegar beinid er skémmt eda meinid sé innarlega, og þarf optast meiri handtøk. P.

mann, sem starfa þeim er vaxinn*). Sama er ad segja, þar holdfúi kémur í, hverr ávalt þeckist af því, ad sárid þornar af sjálfu sér, barmarnir og holdid í kríngum þad verdur blátt allsstadar, hvar holdfúi er kominn undir; stundum stansar hann af sjálfum sér, sem ádur er sagt, eptir þad hann hefir uppetid vissan líkamans part, svo ad jafnvel høndin eda fóturinn hefir af sjálfum sér af-fallid og gróid sídan fyrir a); því þar, sem hann stadnæmist, þar skilur þad lifandi hold sig frá því dauda, svo þad veitir opt létt ad taka jafnódum þad dauda á burt. Vid þessu er nú af øllum gódum Læknirum, er tilveit, brúkud tvennslags medøl, sem hin krøptugustu, þad eina er **Kínabørkurinn**, mulinn í fínasta dupt, hvaraf géfid er hálft qvintin annannhvern kluckutíma, eda 3 qvintín á dag. Nockrir géfa 6 qvintín. Hitt annad er: ad taka gróflega steyttann **Kínabørk**, hérum 4 lód, sjóda þau í tveim pottum vatns nidur til þridjúnga og blanda þar vid 1½ lódi **Vitríol-Spiritus**, væta í þessu volgu samanbrotid lérept, og vefja utan um sárid. Ádur þetta er gjørt, sé vel høggvid í þar, sem hid náttúrlega og blálеita hørund mætist. Vissulega er þetta hid krøptugasta medal í þvílíku tilfelli, en þar hjá svo dýrt, ad færri hér á landi, eda

*) Optast reynist betra, þegar ecki merkist neitt átukennt í sárinu, ad lofa náttúrunni ad gjøra þetta sjálfri, einúngis ad vel sé haldid opnu, og sprett útúr þar, sem má og þarf; þetta dregur nockud lengur tímann, en géfur opt heilann lim fyri qvistadann. Algeng eru **fíngurmein** opt í sjóplátsum um vertíd, og tídum er eins og faraldur ad þessu. Stundum koma þau, ef madur rýfur sig á fisktønnum eda aungulsoddi, en optar af því, ad sjómenn láta slor og óhollustu sjóar, þorna á høndum sér og þvo ecki af ádur enn hátta; kuldi gjørir og sitt til, ef einhversstadar er skinnhrufl. P.

almenníngur, megni ad kaupa þad; ræd þeim því, ad brúka innvortis ádurtéd púlver eda pillur af Skárnurt, ásamt seydi af henni, hvarum ádur er talad, ellegar og seydi af Vallhumli innvortis, en bakstur af Helluhnodra-seydi, blöndudu med Salt-Spirítus*) hálft lód í pott útvortis.

a) Þetta skédi hér í landi, árid 1773, ad höndin fjell, eptir lánga kröm, sjálfkrafa af manni einum, og erlendis hefir þad opt vidborid, bædi um hendur og fætur.

## §. 260.

### Um Blód-kýli (Abcessus).

Fleirstallir munu Blódkýli**) þeckja, hver tídum gjöra mikla hindrun, sitji þau í óhentugum stad, edur séu mjög mikil um sig, svo sá, er þau hefir fær varla sofid fyrir verki þarí; honum á því ad setjast stólpípa og gefast þunn, mikil mysa med Saltpétri í, og ef vill, nockru hunángi. Þad er og stundum naudsynlegt ad taka blód. Séu verkirnir og bólgan mjög mikil, skal taka volgann Grjónagraut, sodinn í mjólk, med hveitibraudi og leggja yfir, eda sjóda steyttar Súrur edur samantuggid braud og söl og leggja yfir sem plástur***). Gúmmí-plásturinn No. 30, hefir mér hérvid aldrei brugdist, enn þótt sumir segi, hann gjöri nockrum óþolandi verki. Varla er ad ugga, ad í þeim, sem blódkýli opt heimsækja, er eitthvert merkilegt feil eda vessa-spillíng í líkamanum, eptir hverja ber ad grensl-

*) Adgæt Skíríngargr. vid §. 18.

**) Blódkýli kalla menn nú almennt smákýli, sem detta hér og hvar á líkamann, og grafa aldrei vel, en eru sár mjög og raud, opt sem faraldur eptir sóttir; en hér meinast líklega einföld graftar-kýli. P.

***) Murd hrá Heimulu-urt og ellt saman vid nýtt smjor, er ágætt. P.

ast og gjøra þar vid, svo ecki verdi verra úr. — Blód-kýli hafa stundum í sér undarlega graftar-veru: fyrst opnast þau i kollinum, og koma þar út nockrir dropar af þunnri graftar-veru, en inní kýlinu sjest þyckur fastur grøftur, er nockrir kalla nagla, hverr svo er þéttur og seigur í sér, sem fastur líkami væri, og stundum tekst ad kreysta hann út þumlúngs lángann eda því nær*). Á eptir honum kémur þá annadhvert tómt blód, eda blódlitadur grøftur. Sá ádur umgétni Gúmmí-plástur edur og Nyrnborgar-plásturinn græda þetta ad heilu.

## §. 261.

### Um Qvidslit (Hernia Scrotalis).

Qvidslit er ecki sjaldsjen qvilli hér á landi á full-ordnu fólki, en á børnum er hann víst fágætur, svo hvergi hef eg ordid hans var, en samt erlendis nockrum-sinnum. Á stundum er þad børnum medfædt, en géta fengid þad líka af ofmiklum gráti, hósta og hørdum uppsølum á medan úng eru. Á fullordnum kémur þad af ødrum orsøkum, svo sem: ofþúngu ervidi, ofþúngum tøkum, óhægum biltum, ellegar seilist ofhátt, lángvar-andi reidum á illgengum hestum, og svo frv. Qvidslit eru fágætari á konum enn kørlum; hid algengasta qvid-slit er: þá nockur hluti innisflanna eda netjunnar sýgur nidur í púnginn. Hid allra fyrsta, sem þessa verdur vart, á hinn qvidslitni ad leggja sig nidur í rúm edur á sljetta jord, hafa eckért undir høfdinu en meira undir lendunum, og hjálpa svo til med høndunum, ad þad, sem nidur hefir sýgid, komist á sinn stad aptur, sídan skal

*) Sé þessi graftar-nagli einhversstadar fastur, á ad losa honum ad losna sjálfum, en slíta ecki, því þá tekur kýlid sig upp aptur og verdur opt verra enn ádur. Þetta er og altídt vid fingur- og handar-mein. P.

gjøra sem hnoda eda hnykil af lérepti, og leggja yfir holid, og þar utaná ferskeytt samanbrotinn klút til enn meiri styrktar; allt þángad til fást kunna hentug qvid-slits-bønd úr útlendsku ledri, nidur úr hverju gángi vel hardt stoppadur koddi hnøttóttur, sem liggi yfir sjálfu holinu, og bagi netjunni og inniflunum ad gánga út aptur sama veg; en þetta hjálpar varla, nema band sé haft nidur á milli fótanna, sem spennt sé med hríngju ad framan uppí beltid sjálft, á hverju einnig á spenna ad vera þeim-megin, hvar qvidslitid er. Gott er ad leggja innanundir bandid qvidslits-plástur, ellegar:

Tak: gott, smátt siktad mjøl, þad hvíta úr 1 eda 2ur eggjum, hnoda þetta saman, med svo miklu Brennuvíni, sem þarf, og lát þarí nockud af smásteyttum Mastix (einslags harpix-veru frá Apótheki), gjør hér af plástur og legg yfir skadann.

Þessi tilbúníngur er bædi gamall og vída brúkadur, gétur hann og allvel þénad únglíngum. En miklu traust-ara og haganlegra er, ad láta gjøra sér járngjord eina, nidur úr hverrar eina enda gengi spadi af sama, og sé qvidslitid vinstra megin, þá gángi spadinn nidur af þeim enda spángarinnar; sé þad hægramegin, gángi spadinn þar nidur. Spaungin sé nærstum því svo laung, sem madurinn er gyldur til; á henni séu gøt sett á skack út vid bádar radirnar, vidlíka og gøt á kragabordum qven-fólks, og allteins á spadanum, sem nidurúr gengur; þar utan um skal sauma klædi og innri sídan stoppud med ullu, fífu eda einhverju mjúku, og saumad á í gégnum ádur áminnst gøt, ad eckért gángi til, en best skal stoppa spadann, svo á honum sé ad innanverdu eins og hálf-hnøttur, er rétt sitji yfir skadanum, svo eckért géti hagg-ast. Ur þessu bandi þarf eckért ad gánga nidur á milli

fótanna, því járnspadinn gêfur sig eckért frá, er því þeßi máti hentugastur fyri fólk, sem fljótt venst þeßum umbúnadi, þótt í fyrstu styrdur falli*). Framaná bandinu sé hríngja, ad því hægra sé ad færa sundur og saman. Betra væri þeim er skadann hefir, ad ega 2 þvílík bønd, sem um verdi skipt, þegar einhverra orsaka vegna vidþarf.

## §. 262.

Skéd hefir þad, þá er qvidslit var ad litlu haft í fyrstu, ad þad skyndilega hefir ordid svo stórt, ad engu bandi hefir mátt vidkoma, hefir því hinn qvidslitni ordid ad brúka eins og hengi- edur létta-bønd til hægda sér, allt til daudans. Stundum ber þad vid, ad inníflin, sem nidur hlaupa, eru fyllri enn vera skyldi, med hørd saurindi, hvaraf þau hardt þryckjast, þegar þau hlaupa nidur, kémur því í þau qvalar-verkur og ofurmikil bólgá, er í sama vetfángi vex svo mikid, ad enir nidurhlaupnu þarmar engannveginn komast í sámt lag aptur, nema því betur sé medfarid. Þetta tilfelli er mjøg háskalegt, því sá náttúrlegi vegur millum magans og endaþarmsins tilbyrgist øldúngis, og orsakar óaflátanlega uppsølu, med hixta, aungvitum, rádleysi, køldum svita og ad sídustu daudann. Þetta gétur og komid af ofdryckju, bilt-

*) Styrdur mundi þeßi umbúníngur þykja, og óhentugur þeim, er margskyns hræríngar verda ad hafa. Miklu hægari bønd eru sídan Rithofundsins daga uppfundin, en dýr nærsta fyrir almúga hér. Best er þeim, er vidþurfa, ad bera þetta tilfelli undir skynsama menn, er þetta hafa sjálfir reynt, og sjálfir látid tilbúa sér bønd, og gjøra þad í tíma, svo umflúid gætu hættuleguſtu afleidíngar og qvalafullann daudbaga. P.

um og þvíumlíku*). Þessi óláns-tilfelli ættu ad áfýsa fólk, sem þetta les eda heyrir, til ad leita þeirrar hjálpar, sem møguleg er, strax á medan hjálpar-von er, en meta aldrei þvílíkt tilfelli lítils, einkum þar svo mikid vidliggur, sem hér er sagt.

## §. 263.

Í þvílíku tilfelli er rífleg blódtaka øldúngis ómissandi, undireins og vart verdur vid sjúkdóminn, og á medan blódid er tekid, má hinn sjúki kyrr liggja í rúminu og snúa sér uppílopt, þó svo, ad høfudid hallist uppá vid og hann reisi — sem menn kalla — bordstóla; þannig byrjar honum ætíd ad liggja medan pínan ecki linast. Strax eptir blódtøkuna skal taka kýrblødru, linfulla af volgri mjólk og vatni og leggja á millum læra ens sjúka, og undireins og í henni kólnar, bætast annad volgt vid hvad eptir annad. Betra er ad hafa blødrur til skiptis, en séu þær ecki til, skal taka ullar-visk edur flóka, væta hvad eptir annad í heitri mjólk og vatni og leggja vid; auk þessa skal setja stólpípu af vel sterku seydi af **Njólarótum**, med 1 hnefa af **Salti** og 2ur spónum af **bræddu smjøri** eda sjálfrunnu **Hákallslýsi**. Byrdist nú þørf til, þá skal opna æd, eins og ádur sagt er. Ádurnefnda ullarvisk eda flóka má og væta í sárkøldu vatni, vinda hægt og leggja yfir bólgunа, kjæla ætíd aptur, þá er bakstur inn volgnar. Medal þetta er einkar kroptugt, sé þess einúngis gætt, ad gjøra þad strax í upphafi, því annars ræd eg ecki til þess, heldur ens fyrrtalda. Vitad hefir eg **snjó-** eda **svellklaka** brúkadann á 3ja degi eptir qvidslit, og vard gott

*) Samanber Ísl. Lærd. lista Fél. Rita 15 B. bls. 100 og 108. P.

af a). Þótt nú øll ønnur medøl hafi kraptlaus verid, hefir þó Tóbaks-reykur, gégnum endaþarminn opt innbláſinn, mørgum ſinnum hjálpad *).

a) Svo ólíkar verkanir hafa hiti og kuldi í øllum líkømum, ad mørgum vyrdaſt mun, ad þau hér toldu ráð, ſtrídi hvert á móti ødru; af því kuldinn kreppir líkamann ſamann og gjørir hann minni, en hitinn útvídkar og bleytir hann. Engu ad ſídur er þad víſt, ad klaki eda ſárkaldt vatn, lagt yfir qvidſlit eda þarma-hlaup, kreppir þann poka ſaman ad utanverdu, af kulda þeim er adkémur; af þeſsu ljá enir innri partar, ſem enn eru volgir, meira rúms enn ádur, því þeir ytri koldu kreppaſt ſaman og þreyngja eptir, en hitinn og dampinn af bakſtrinum útvídka allt þetta, eyda og dreifa bólgu inníſlanna og gjøra þau þannig minni um ſig eptir enn ádur, en opid ſtærra. Inníſlin komaſt því inn aptur eins vel fyrir hid eina ſem annad medal, þó ſitt verki á hvern hátt. Verkanir þær, ſem hiti og kuldi orſakar, bæri þó øllum ſkynſømum mønnum náqvæmlega ad þeckja.

## §. 264.

### Um kalid hold og Froſtbólgu (Pernio).

Þad er alkunnúgt hér á landi, ſem vídar annarsſtadar á Nordurløndum, ad hold á lifandi mønnum gétur froſid, ſem hvert annad kjøtſtycki og þad med mørgu móti, ecki ſízt hjá oſs Islendíngum, hvar um ecki er þørf ad ordlengja. Einúngis vil eg géta þeſs, ad ſá madur, ſem kalinn er á høndum eda fótum, ſé látinn í hús þad, hvar ad eins ecki frýs, en þó ecki er ſterkur kulda-ſúgur edur ſvifvindi, þarnæſt ſkal leggja ſnjó hvad eptir annad ad þeim kalda lim, eda láta ſnjó-køckla ofaní ſárkaldt vatn og halda þeim kalda lim þarí, uns aptur færiſt magn í hann og náttúrleg tilfinníng. Ad henni

*) Sterkt ſeydi af Baldinbráar-blómſtrum druckid og til ſtólpípu brúkad, er og ſagt gott vid Garnengju. P.

fenginni má flytja sjúkling nær il, t. d. ad badstofu-pall eda gólf, hvar þó ecki er heitt, og géfa honum smátt og smátt í sopatali volga mysu eda seydi af Einir, þar til hann hresśist ad øllu. Sé Hyldeblómstur vid hønd, er ýfrid gott ad géfa honum seydi þaraf *).

## §. 265.

Sé madur lengi úti í frosti og kulda, og verdi svo gagntekinn ad úr honum dragi abl og magn og sigri svefn, þá ber honum ad varast þad, sem eld og vatn; hann skal því allrar orku neyta ad halda sér vakandi med øllu móti sem gétur **), því annars er daudinn vís. Alkunnugt er, ad kuldinn gjørir blódid ofurþyckt, og jafnvel storknar um sídir, safnast meir enn skyldi til høfundsins og pressar heilann saman, svo madur, þannig ásigkominn sofnar loks hinn seinasta dúr. Finnist madur nockurr þannig af kulda yfirkominn, en þó med lífsmarki, og þó þad jafnvel ecki finnist og líkaminn sé stockfredinn, en hafi ecki legid mjøg lengi úti, þá skal flytja hann á ádursagdann stad, gnúa hann allann hátt og lágt med ískøldu vatni edur snjó, uns hann fær apt-

*) Þegar menn eru vissir um ad kalid ecki er vídar enn á fótum edur høndum, er óhætt ad flytja hann í badstofu, hvar engi sérlegur hiti er, en nidri vatninu á hann þá køldu limi ad hafa uns allur svidi er á burt. Til ad verja sig kali fyri þá er í frostgaddi þurfa úti ad vera, einkum smala og lángferdamenn, er holt ad borda þyckt, súrt skyr, og maka fætur, høndur og andlit í vel súru Sauda-smjøri ádur útfara í frosthørkur, eda og Terebintín-olíu. P.

**) Allir Nordlendíngar þeckja Olafs-vørdur sunnanverdt á Stóra-sandi, sem sagt er géfid hafi Olafi Hóla Biskupi Ragnvaldssyni og mønnum hans líf og limu heila á ferdareisu þar í gaddkafaldi. Biskupi sjálfum er eignud stærsta vardan. P.

ur mátt og tilfinníngu; en þetta verdur ad gjørast med einkar fínum lérepts-dúkum eda trøsum; ecki má gnúa fast, heldur mjúkt og lidlega, svo húdinn engann skada fái *).

§. 266.

Opt ber þad vid, ad børn fá frostbólgu í hendur og fætur, og jafnvel fullordnir eru ecki heldur fríir þar fyrir. Sumum verdur hún svo skjæd, er fá hana í fæturnar, ad þeir bólgna mjøg, og verkurinn verdur svo sár, ad sjúklíngur fær ecki sofid. Í þessu tilfelli er hid snjallasta rád, ad gjøra Keitubakstur vid hendur og fætur, og má hvert sem vill, vera upp yfir gufunni og fara sídan ofaní, þá mátulega er heitt, eda einúngis vera yfir gufunni og nota sér dampann. Eptir badid á ad varast snøggleg umskipti af hita og kulda og búa vel ad fótum sínum. Sumir gjøra sér vetlínga úr hundsskinni, og snúa holdsrosanum ad høndunum, bera þá svo nockurntíma eptir badid, og er þad ecki ad lasta, því þar med vardveitist limurinn allvel fyrir kulda.

§. 267.

Frostbólga hleypur á stundum saman í þrimla, á hverja um sídir dettur gat og vægir út úr slæm vilsa; ákomur þessar verda opt djúpar, vídar um sig og leidar ad lækna. Stundum gróa þær strax á vorin, þegar vedrid hlýnar, án allra medala, en koma þó ætíd aptur á haustin í sama mund, hvad opt má sjá á sjómønnum. Sjaldan kémur rotnun í sár þessi, þó ber þad vid.

§. 268.

Orsøk til Frostbólgu er opt: snøgg umbreytíng af

*) Samanber Lærd. l. Fél. R. 6ta B. blf. 226, og somu Rita 15da B. blf. 109. P.

hita og kulda; ætti því ad varast ad láta únglínga sitja vid eld og sterkann hita, edur verma sig á heitum kakalofnum; en þarámóti lángtum hollara ad halda höndunum, þegar þeim er sárkaldt, nidri í ískoldu vatni, eda ad minnsta kosti þvo hendurnar úr því; þó er snjórinn lángbestur, því bædi styrkir hann hörundid ágjætis vel, og líka er hann gott medal til ad hindra frostbólgu. Sumra manna náttúrufar er miklu meira hér til hneigt enn annara, er þar optastnær fólgin orsök í saftanna spillíngu, eptir hverju Læknirnum ber ad grenslast, svo hann fái því ílla úthýst; en sá, sem hneigdur er til frostbólgu, má fordast allann saltan mat og áfenga drycki.

§. 269.

Sá, er lækna vill sár þau, er af frosti kominn eru, honum er sem optast naudsynlegt, ad láta hinn sjúka ad jafnadi brúka blódhreinsandi medöl, ýduglega drecka seydi af Njóla-rótum, Skarpsætu- og Vallar-rótum; eta Vallarróta blödkur, Krossurtar-blöd, Súrur; drecka seydi af Horblödku; taka inn medalmáta staup af Hellubnodra-seydi ad morgni dags; eta Skarfakál, eda brúka Einirvatn fyrir daglegann dryck; allt þetta þynnir og hreinsar blódid. Auk þessa skal hann med jafnadi brúka blódhreinsandi Laxér-medalid No. 11; af þessu takist hálfpartur í senn hvern 8da dag ad púrgera af, í grautar- eda skyrsspæni; ofanyfir sárin skal leggja Blýglyttu-plástur Nurinborgar-salve, og þvo þad ýduglega úr vel sterku Næpna- edur Hellubnodra-seydi. Brúka má líka Blýglyttu-salve og Universal-balsam jafnt af hverju samanellt, fyrir plástur, vid frostbólgu, sár og bruna.

## §. 270.

Nockrir gjøra rád fyrir, ad ádur umtølud sár úrkynjist og verdi ad rotnandi edur etandi sárum; vilji þad til, á hinn sjúki tafarlaust ad leita sér hjálpar hjá reyndum og æfdum Læknir, sem veit vel med ad fara.

## §. 271.

### Um Vørtur (Verrucæ).

Ecki er þad sjaldgæft hér á landi, ad sjá hendur fólks þaktar Vørtum bædi úngra og roskinna. Á únga koma þær optlega af alltofmiklum mjólkurmati, sem þeir lifa á, en hverfa opt snøgglega þá er matarhæfinu er umbreytt. Stundum koma þær af sérlegri skérpu í blódi og søftum; stundum eru þær teikn til spillíngar í hørundinu, sem komid gétur af ýmsum útvortis orsøkum. Komi þær af blódsins og vetsanna spillíngu, þá ber ad hreinsa blódid og saftirnar med þeim í §. 269 nefndu medølum, edur þvílíkum, eins og ásigkomulagid krefur. En sé hørunds spillíng orsøkin, þá má nema Vørturnar burt, med því, ad binda silkitvinna edur vextum hørþrædi um rót þeirra og reyra af; skéra má þær líka edur klippa og leggja yfir sárid Gummí-plástur, sem gjørir litla graftar-veru í sárinu, en eydir þar med vørtunnar rót. Brúka má og Vínedik, láta þarí brádna salt svo mikid, sem verdur, sem bera skal á vørturnar, líka má væta klút í því og leggja yfir; ellegar og taka Salmíak og Gummi Galbanum, jafnt af hverju, steyta til samans og leggja vid þær, og bregdist þad sjaldan. Etandi medøl vil eg engum ráda til ad brúka, sem ecki þeckir þeirra kostu og lesti, ecki heldur framelja ýmisleg hjátrúar og kerlíngaráð, en þó vyrdist

saklaust ad rjódra **Vallarfífla** mjólk á vørtur, ef ské kynni þær féllu burt.

## §. 272.

### Um **Líkþorn** edur **Horn** á **Fótum** (Clavus).

Ecki er þetta ad sønnu algengur qvilli hér á landi medal alþýdu, heldur á ýmsum mønnum er til lengdar hafa verid erlendis og brúkad þraung stígvél og skó. Sá, er hefir horn á fótum, gjøri sér fótbad hvad eptir annad, og þá er fæturnir koma volgir og blautir út af badinu, skal hann plocka edur skéra hornin af, leggja sídan vid plástur af **Ammoníak-qvodu** (Gummi Ammonicum) med því ad bleyta hana í **Ediki**. Svenskir ráda til ad gjøra þetta med nýu túngli, þó eg festi ecki trú á því a).

a) Handlæknir nockurr í Kaupmannahøfn taldi mér eitt-sinn trú um þad, ad eckért medal væri betra mót vørtum og líkþornum, enn ad skéra flýs af feitu **Svínakjøti**, láta leggja vid 3 nætur í røð, taka sídan og grafa í jørdu nidur, þar, sem sami madur-inn mætti aldrei framar um gánga. Mér vyrdtist þetta ad sønnu hégómlegt, en af því eg þeckti mann-inn bædi grundadann og vel ad sér, er víst saklaust þó einhverr reyndi þetta rád hans.

---

# V. Kapítuli.

## Um **Blódtøkur** (Venæsectio).

## §. 273.

Eg hefi hér ad framan nockud talad um **Blódtøkur**, er naudsynlega þarf ad adgætast vid hvern sjúkdóm sérílagi, og allir gódir Blódtøku menn vita ættu án

minnar undirvísunar, svo þeir ecki spilli heilsu manna, eins og — því midur — opt hefir verid tilfellid í landi voru, hvar til jafnvel eru lifandi dæmi enn í dag. Eg vil nú einúngis tala um blódtøkur þær, sem brúkast egu, til ad hindra adkomandi qvilla eda ókomid kránkdæmi.

§. 274.

Eins gód og nytsamleg, sem blódtaka er, já, ómissandi í mørgum yfirhángandi og verandi sjúkdómum, eins skadleg er hún opt þarámóti í ødrum veikjum. Nú á seinni tímum eru Læknar þó komnir til vissu um þad, ad ecki komi allir sjúkdómar af blódríki manna (sjá §. 71), jafnvel þótt ýmsir hafi leitast vid ad innfæra villu þá í Læknis-kunstina, og máské hér eldi ennþá nockud eptir af villu þeirri, eptir gømlum, ógrundudum Lækníngaskruddum, er hér og þar framkoma; því ella væru ecki blódtøkur hér svo almennar og af almenníngi brúkadar vid hverja veiki sem adber, sem viss lækníng.

§. 275.

Sú eina sanna og rétta verkan blódtøkunnar er þad: ad blódid mínkar um tíma í manninum, sem þad er aftekid. Af þessari þurdun blódsins, sem skédur af reglulegri blódtøku, orsakast þá þetta: ad blódid rennur lidugar gégnum gángvegu sína, hafi madur á undan blódtøkunni verid annars blódríkur; hafi hann þarámóti ecki þurft blód ad missa, þá linast og trublast blódsins umhlaup, og allar þær náttúrlegu verkanir í líkamanum, er af blódsins umhlaupi fljóta, og er skadi sá miklu stærri, enn margur ímindar sér.

§. 276.

Þad eru einkum fjøgur tilfelli í hverjum blódtaka er naudsynleg, nefnilega:

1) Ofmikid blód.

2) Ofþyckt blód.

3) Þegar annadhvert er í líkamanum edur ætlar ad koma í hann ein eda önnur orsøk, sem kann ad gjøra blódid ofþyckt, nema á blódædunum sé linad med blódtøku; þetta er orsøkin hversvegna þeim er tekid blód, sem hafa fengid sár á líkamanum, dottid og marid sig; þessvegna er og þúngudum konum tekid blód, þá er þær hafa mikinn hósta og adskiljanleg tilfelli ønnur, er opt heimsækir þær, því þá verdur einúngis med blódtøkunni komid í veg fyrir mørg ønnur skadleg og þúng tilfelli, er hinar, sem blódtøkuna vanrækt hafa, kunna ad fá bædi í sjálfum barnburdinum og líka barnsænginni (sjá §. 90), og þessar kynnu eins ad heimsækja, nema þeim væri blód tekid.

4) Stundum er blód tekid einúngis, til ad stilla mjøg sára verki og pínu, sem snøgglega hafa adkomid, þó hverki hafi þad orsakast af ofmiklu eda ofþyckn blódi. Þetta er gjørt til þess, ad verkurinn linist um stundarsakir vid blódtøkuna, svo Læknirinn géti fengid tíma til ad taka hann burt med ødrum medølum, er øldúngis uppræti qvillans sønnu orsøk. Til eru nockrir, sem vilja láta þessar sídustu 2 orsakir vera innifaldar í þeim fyrstu, og segja: ad blódtaka sé ad eins í þeim fyrstu 2ur tilfellum naudsynleg, hvad og vel gétur stadist, því optast nær mun verda vart vid þyckt blód, eins og heldur mikid hjá þúngudum konum, sem mikinn hósta hafa og nockur kjarkur er í.

## §. 277.

Mørg teikn eru til, sem sýna ad menn hafi þyckt blód. Eti madur bædi mikinn og gódann mat, t. d. kjøt og

annad mjøg krøptugt, drecki mikla og góda mjólk, og maginn melti vel þeſsa fædu, en erfidi þó lítid á farals fæti, hafi enga um of mikla afrás af líkamanum, þá er hann ætíd blódríkur. Hætti hjá konum eitt edur annad blódlát, ſem þær hafa verid vanar ad hafa; ſlái líf-ædin mikid og ſterkt; ſkúlpi ædar mjøg mikid á þeim, ſem hverki er magur né mjøg heitur; ſé andlitid raud-leitt og óvenjuleg þýngſli í líkamanum; hafi madur þúngann, lángann og órólegann ſvefn; mædiſt fljótt af lítilli áreynſlu eda hægri hræríngu; fái þýngſli og van-mátt þá er hann gengur; fái ſnøgglega ógédfelda þánka, hjartſlátt og máttleyſi, einkum í nockrum hita ſtaddur; fái høfudſvima þá er hann er lítur ſnøgglega nidur, edur tekur upp bagga í þýngra lagi, hvar med og má telja lángſamann høfudverk, komi hann ecki af íllri matar-meltíngu, edur magans og þarmanna óhreinind-um; fái madur hita-hvidur um allann líkamann med kládafidríngi, ſtrax ſem hann volgnar; hafi hann ydug-legt naſablód og finni ſér létta vid blódmiſsirinn, þá eru þetta merki þau, er ſýna, ad madur ſé um of blód-ríkur. En gæta má ſérhverr ad því, þótt øll þeſsi hér tøldu merki ecki finniſt øll til ſamans, ad hann ſé um of blódríkur; nei! heldur þegar margt fylgiſt ad, af því ofantalda, þá er ecki ad efaſt um naudſyn blódtøkunnar. Finniſt ecki nema eitt eda tvø tilfelli, leidir þad ætíd til ad merkja, ad þad komi af einhverju ødru enn ofmiklu blódi. Þetta má því náqvæmlega adgætaſt, ſvo ecki verdi ſkadi ad blódtøkunni, ſem kann ad leida margt og mikid íllt eptir ſig.

## §. 278.

Manni þeim, er blódríkur er, má óhætt taka tviſvar blód, þó ecki tvær ædar í einu, heldur ſína hvern dag,

má og einu gylda hvert tekid er á fótum edur handleggjum, því allteins minkar blódid vid þad jafnt í øllum líkamanum; einkum eru þó til þess valdar ædar þær, sem hættu minnst er ad taka, svo sem: høfudæd á handleggjum, og svokallada hjarta-æd edur Median, hvar undirliggjandi sinar, slagædar eda himnur ecki er svo mjøg ad óttast*). Á høndum, ristum, tám, enni, misnesi og gagnaugum ætti aldrei blód ad taka, bædi vegna skadsemi þeirrar, er þaraf kynni fljóta, sem og hins, ad á þessum stødum liggja einúngis smá-ángar æda, sem aldrei eru jafn hæfir til blódtøku, sem hinar stærri greinir, er strax vóru nefndar a).

a) Nærsta þarflegt væri, ad yfirvøld lands vors, vildu líta skarpt eptir, ad breytt væri samqvæmt bodi Tilskipunar frá 5ta Sept. 1794 í tilliti til Hlaupa-lækna edur þeirra, sem taka fyri sig Lækníngar, án þess ad hafa þegid nockra undirvísun í Læknis-kunstinni; þessir grípa sem optast til Blódtoku, án þess ad þeckja qvillann, á ýmsum óhentugustu stødum líkamans, eg tek til dæmis: á gagnaugum, í augnakrókum, í hvirfli fyrir aptan eyru, fíngrum og tám, sem hverr einn heilvita skynjad fær ad skadlegt sé í mesta máta. Eg hefi opt — því midur! séd ofmørg hryggilig dæmi, er leidt hafa af þvílíkum vitlausum blódtokum; skynsamir menn vona eg sjái hid sanna, en hinir munu fara sínu fram, hvad sem eg segi.

## §. 279.

Þegar fullordnum manni er tekid blód, sem ecki liggur af neinum sérlegum bólgu sjúkdómi, er venjulegast ad láta blæda 3 fulla theebolla, sem reiknást ad vera muni

*) Almenníngur kallar þessa æd á hægra handlegg Brjóst-æd, en á vinstri Hjarta-æd, og bádar sameginlega Medíur; Basilica heitir hjá þeim Lifrar-æd á hægra, en Miltis-æd á vinstra handleggi, og ættu bádar þær ad takast med mestu varhygd, þar undir bádum liggur stór absin og adal-slagæd handleggsins. P.

rúmur peli edur 18 lód. Í Heimakonu ætti aldrei ad taka mikid blód í einu, heldur láta lenda vid $\frac{3}{4}$ pela edur 12 lód, eda 2 theebolla. Í sjúkdómum þeim, er bólga fylgir og þroti í brjóstþimnu, vødvum edur lúngum, er ecki ofmikid þó blædi $1\frac{1}{2}$ edur 24 lód, hvar um ádur er talad vid tak og lúngna-bólgu. Svo naudsynlegt, sem þad er, ad þessu sé eptirlifad, svo skadlegt er aptur á mót ad meira sé adgért.

## §. 280.

Allar ársins tídir eru jafnhollar til blódtøku þegar vidþarf; því fyrir laungu eru prettir þeir og fávitska ordin uppská, sem finnast í skruddum dagveljara; enginn þarf nú framar ad óttast Hundadaga, er sérvitríngar hjeldu ofur hættulega fyrir blódtøkur; hitt er rádid snjallara, ávalt ad taka blód ad morgni dags heldur enn qvøldtíma, nema því meira vidliggi, vegna þess, ad þá er hægra ad hafa gát á beninni og manninum, sem blódid var tekid. Í hørdum sjúkdómum, þegar annars má blód taka, er blódtakan því betri, sem hún fæst fyrri, en varla er þad gjørlegt, eptir ad madurinn hefir í 3 daga legid og er máttlítill ordinn, nema því ad eins, ad blódtøkumadur sé fullviss um þad, ad máttleysid orsakist af ofmiklu blódi. Falli sá í aungvit, sem blód er tekid, skal skvetta í andlit hans og á bríngu ískøldu vatni, svo blódædarnar samankreppist, og vødvarnir fái aptur sinn náttúrlega styrk, til ad koma blódinu í sitt rétta rennsli. Sé ad óttast fyrir ad sin eda himna skadast hafi af blódtøku, á blódtøkumadurinn strax ad væta kompressuna í Brennuvíni eda Terebintínolíu, eins ef hleypur upp eda blánar kríngum benid, á ad dýfa kompressunni í Edik eda sterka sýru.

## §. 281.

Verdi ecki vart vid teikn þau, sem um er talad í §. 277, er aldrei blódtaka naudsynleg, og allir réttsinnadir, sem vanda vilja rád sitt, ega aldrei ad taka blód í eptirfylgjandi tilfellum, nema sérleg naudsyn og viktugustu orsakir knýi þar til, og þó ecki nema med reynds Læknis rádi. Kríngumstædurnar eru þessar: þegar madurinn er ordinn mjøg gamall, ellegar er ofúngur; sé hann náttúrlega óhraustur ordinn, hvar um líkamans ásigkomulag vitni ber, eda sé hann í sjúkdóminum óhraustur ordinn; slái lífædin lítid, mjúkt og veiklega og ecki ætíd jafnt, þad er: ef mislángt er millum slaganna, edur eins og þau dodni á stundum; hørundid líti bleikt út; hendur og fætur séu med jafnadi kaldar, þrútnar og mjúkar átøku med eins og qvapa; hafi hinn sjúki í lángann tíma ecki bordad nema lítinn og léttann mat, og dampi eda sveiti hann tøluverdt; hafi hann lengi haft hardlífi og maginn melti ecki vel fæduna, hvar af ecki getur komid mikid blód; hafi hann einhverja merkilega afrás af líkamanum, hvert heldur þad er nasa- eda tídablód, búkhlaup, sviti edur hvad annad þesshóttar; þegar sjúkdóms-efnid er farid ad búa sig til burtfedar af líkamanum (§. 124); hafi hann lengi legid veikur, og sé þessvegna ordinn magur og ablvana; og lóksins, sé blódid bædi bleikt og þunnt, hvad audþeckt er af andlits farva sjúklíngs.

## §. 282.

Þad vil eg nú øllum yfir høfud sagt hafa, bædi þeim er blód taka, eins og hinum, sem blódtøku þyggja eiga, ad sé tekid blód í umgétnum tilfellum, þá kastar optlega ein einasta blódtaka, þeim sjúka, í þad neydarstand, sem

aldrei verdur af mannligum krapti til fullnuſtu læknad. Veri madur ſvo hrauſtur, ſem møgulegt er, verdur ſamt þvílík blódtaka ætíd ſkadleg, og ſé hún brúkud án þarfar, fávíslig; hún eydir krøptum mannſins og gjørir hann óhrauſtann, og hinn únga gamlann fyrir tímann; hin náttúrlega útdampan verdur hér vid óreglulig; matarmeltíngin ſpilliſt; blódſins umhlaup mínkar og verdur óhægt, héraf kémur kuldi og ſífelldur hrollur. Þótt nú blódtøkur gjøri menn feita og þrútna um ſtund, verda þeir þó ſvo óſtyrkir um ſídir, ad allur náttúrlegur kraptur magans og innýflanna gjørſpilliſt; af því gétur flotid daudleg vatnsſýki og fleiri ólæknandi veikleikar, af hverjum hér á landi finnaſt þar fleirſtir og ſtærſtir, hvar enir fleirſtu og óſvífnuſtu blódtøkumenn eru. Af því ſvitinn og útdampanin verda óregluleg, kémur optlega qvef og høfudþýngſli, allrahanda ſina-ſjúkdómar og innýblanna ſtyflanir, ſem leggja kunna grundvøll til meinlæta, gedveiki, þúngſinnis og óteljandi fáheyrdra tilfella.

## §. 283.

Þeir, ſem ecki vilja trúa, ad ótilhlýdilig blódtaka hafi þá verkun, ſem ádur er ſagt, mega, til reynſlu, láta vega ſjálfa ſig á metum, ádur þeim er blód tekid, vega ſídan þad blód, ſem út er tappad og ſjálfa ſig á ný, eptir nockra daga, ſkulu þeir víſt finna, ad þeirra ſídari þúngi er meiri enum fyrra; þetta er ljós vottur til ad ſýna ſkada þann, er þeir hljóta af íllum blódtøkum, nefnil.: ad líkaminn hreinſiſt midur eptir enn ádur frá því, ſem honum er ecki naudſynlegt til vidurhalds. Vilji nockurr ſegja: ad blódid vaxi vid blódtøkur þeſsar, þá ſvaraſt þar til: Látum vera þad ſé blód, og ef þad er blód, þá er þad ecki eins vel tilbúid blód og ádur, því

væri það, mætti þar með sanna, að væri einhverjum tekið blóð, jafnvel fullhraustum, nockrumsinnum í røð, þá gæti ecki hjá því farið, að hann fjelli í dauðligann sjúkdóm, sakir ofmikils blóðs, hvað allri reynslu er gagnstædt.

## §. 284.

Að vísu er það satt og bleckir margann aumíngja, að þótt blóðtakan skémmi hann, finnur hann samt við hana léttir 2 eða 3 daga í fyrstu, en að þeim liðnum þýngir honum meir og meir; meinar því hinn einfaldi: væri honum blóð tekið á þeirri réttu æð, er hann svo kallar, eður optar hvað eptir annað, mundi honum víst batna; ginnist hann svo með þessum hætti frá einum blóðtøkumanni til annars, á eina blóðtøku eptir aðra, uns hann finnur sig í dauðans qverkum. Þetta er nú á stundum ávøxturinn af athugalausum blóðtøkum; en — hverr gætir þessa? það þykir lítilsverdt að opna æð, svo hún blæði, en eg álít það mikilsverdt að gjøra það, svo enginn hafi skaða af.

## §. 285.

Nockrir menn eru af náttúrufari einka blóðríkir; þeim er besta ráð, að forðast, sem mest møgulegt, allt það, er auka kann blóðríkið (§. 277), eta að jafnaði þunnann mat vatni blandinn og mikið af maturtum; baða fæturnar yðuglega í hálfvolgu vatni; drecka seyði af Einir; erfiða mikið á faralds-fæti; brúka Extract eður grauta af Fjørugrøsum og Fjallagrøsum §. 69 eða §. 95 og svo frv. Fari þeir þessu fram, mega þeir annaðhvert án vera blóðtøku, eða þurfa hennar mjøg sjaldan við, en halda heilsu sinni miklu betur uppá þann máta, og þurfa ecki að óttast skaða þann, er aðrir opt

hljóta af gífurlegum blódtøkum. Óskandi væri, ad allir þeir, sem nockud hafa ad segja hjá alþýdu, vildu med viturlegúm fortølum brýna þenna sannleika fyrir fólki.

§. 286.

Blódtaka á slagædum er nú á tímum afløgd, nema í sérligustu naudsyn, vid daudans aungvit og fl., bædi søkum hennar litlu nytsemi, líka af því, ad af henni skuli eckert illt hljóta, hvad optsinnis hefir skéd, jafnvel enn í dag hér á landi, þegar blódtøkumenn taka blód á gagnaugum og særa slagæd þá, er þar liggur, af hverju margur hefir tapad heilsu sinni. Ecki alls fyrir laungu, sá eg einn þvílíkann, sem ordinn var fullkomlega gédveikur; hafdi honum blædt ødruhverju í heilann mánud; en sídan hefir hann med eymd sína dregist mørg ár, hver um sídir mun leggja hann í grøfina. (Sjá §. 278.)

§. 287.

Um Dreifar-blódtøku (Scarificatio), og Horn-blódtøku (Cucurbitulæ cruentæ).

Bádar þessar artir blódtøku, eru brúkadar í stad æda-blódtøku; en med því horn-blódtakan gjørir blódid ecki einúngis minna, heldur þaradauki dregur ýmsa vetsa burt úr líkamanum, og einkum þeim lim, á hverjum hún er brúkud. Hún er samt opt einkar hentug bædi til ad eyda bólgu og slæmum vetsum; yfrid gód er hún í mørgum nýbyrjudum augna-sjúkdómum og gømlum høfudverki, er stundum kémur af vondum vetsum á høfdinu, líka svo vid bakverki, hverjum abl-leysi fylgir*).

---

*) Þurrt Horn (Cucurbita ventosa) er og brúkad med gódum notum vid morgu; kémur þar undir annadhvert bladra, sem þá er medfarid sem Spansflugna- edur Sol-

# VI. Kapítuli.

## Um Uppsølu og búkhreinsandi Medøl (Emetica et Purgantia).

### §. 288.

Búkhreinsandi medøl eru þeir læknisdómar, hverjir innvortis edur útvortis brúkadir, hafa þá verkun, ad þeir gégnum endaþarminn úthreinsa af líkamanum, í

eyar-bruna, ellegar raudleitt þykkhyldi, sem í verdur ad høggva, og annadhvert setja hornid á aptur eda verja sem vid dreifblód.

Blódsugur (Hirudines medicinales, Blodigler) eru svo almennt og med ágætustu notum brúkadar í Utløndum, ad varla má undansella ad nefna þær. Þad eru ormar, sem lifa í fersku vatni hreinu, og helzt hvar sandur er í botni, nockud svipadir ad logun svørtum Brekkusniglum. Helzt eru Blódsugur teknar í hlýu vedri framan af sumri, geymdar í vatni á Apóthekum lifandi, en þegar brúkast ega, eru þær látnar vera á þurru nockrar minútur, bornar sídan innan í bréfpípu, á þeim stad á manni, er blódgast á, og verdur hann ad vera hreinn og nýþveginn ádur; þær súga sig þar fastar og stínga um leid til blóds, hvaraf þær fylla sig, uns þær detta burt siálfkrafa, ellegar, þyki nóg sogid, er oskudupti edar salti dreift ad skollti þeirra, en varast ad slita þær burt med valdi; og er þetta einkum gjørt vid smágerdustu stadi á líkamanum, t. d. á andlit, kringum þurfagáng, vid børn, og allstadar hvar annari blódtoku ecki verdur vidkomid, en þarf þó med. Ecki veit eg til vissu, ad sú rétta tegund af Blódsugum, sé hér á landi fundin af náttúrufródum, en heyrdi eg í úngdæmi mínu qvenfólk í Vallhólmi í Skagafirdi, tala um og nefna Blódsugur, sem festi sig á fætur þeirra, hvar best fundu, þegar þær á sumrum vóru ad færa Fergin upp úr stodutjornum, sem þar var tídt, og ad holdid hefdi ordid miklu hvítara á eptir, en sárt hefdi þar verid, þá er margar hefdu á settst, og ecki hefdu þær þolad ad slita þær af. Þær réttu Blódsugur eru dockmósvartar á

magann og innýblin samansøfnud náttúrleg og ónáttúrleg saurindi. Uppsølu-medøl kallast þau, sem uppvekja ákafa og ónáttúrlega hræríngu í maganum, þyndinni og qvidvødvunum, svo allt þad, sem í maganum lauslegt er, gengur upp um vælindid, hvert einnig hræríst, ásamt hinum líkamans pørtum, og ertast af uppsølu medølunum.

## §. 289.

Med búkhreinsandi medølum er møgulegt ad úthreinsa af líkamanum hardtnær allar líkamans saftir og þeirra óhreinindi; þaraf er ljóst, ad þau eru ecki til þess géfin einúngis ad þynna hørd saurindi, í eitt edur annad skipti; nei! þad er ecki þannig, því um leid ad géfin eru búkhreinsandi medøl, ega innýblin ad rétta lagi vera opnud med hentugum klyster, og fríud frá enum elldstu, hørdu og grófustu saurindum, skuli búkhreinsandi medølin annars verka ad gagni. Margir leitast vid, en forgéfins, ad lækna þann hér á landi almenna lángvarandi harda vallgáng, med þessum medølum, en þau gjøra hann verri en ecki betri, fái þau annars nockud verkad (sjá §. 156). Hjá allmørgum verka þau bestu medøl alls eckért, og varla þó géfin séu í stærstu skømtum; en sé þessum sett stólpípa og géfid jafnvel mjøg lítid í einu qvøld og morgna í rød, af búkhreinsandi medølum, þarf fólk hér engu stærkari medøl enn í ødrum løndum, og þegar medølin eru á þenna hátt brúkud, hafa þeir, sem taka þau inn, hin réttu not þeirra, en ella ecki, nema ef ské kynni rétt af hendíngu.

---

lit, nockud íflat-varnar og fram-mjóar, øskugráar ad nedan med svortum og gul-leitum blettum, en lángs eptir baki þeirra gánga 6 eda 8 grængular rákir, og væri mikill hagur, fíndust þær hér á landi edur yrdi komid til ad tímgast, í nánd vid þá, er kynni med ad fara. P.

## §. 290.

Eptirfylgjandi ásigkomulag manns, sýnir, hvert hann hafi þörf á búkhreinsandi meðölum, sem þarí er innifalið: hafi hann beiskann smeck í munni að morgni dags; óhreinar tennur; hvíta, fardaða og slímfulla túngu; vindgáng og vatns-spýtíngar; uppþembíngu; varandi matar-ólyst og maturinn smacki ílla, en þessu fylgi þó engin sótt; hafi hann velgjubrot og gési frá sér ílla smackandi vilsu og slím; finni til þýngsla í maga, lendum og knjám, með máttleysi og sinnis-óróa; hafi sífeldann höfuðverk með svima, leti og sleni eða þýngslum í kroppinum eptir máltíð; óreglulegann vallgáng, einn eða fleiri daga þunnann og mikinn, en eptirá lítinn, harðann og ördugann, og slái lífæðin ójafnt. Í þvílíkum tilfellum eru búkhreinsandi meðöl þénanleg öllum þeim, sem einhverr sérlegur sjúkdómur ecki þvíngar, er ráði þar frá.

## §. 291.

Uppsölu meðöl brúkast í fylgjandi tilfellum: þegar einn hefir íllann smeck í munni, vatnsspýtíngu, ógleði velgju, uppsölu; þverri matarlystin, maginn melti ílla, og honum finnist, sem eitthvað þrycki maga hans; í allslags Riðusótt (Febris intermittens) §. 203, hvert heldur hún kémur hvern dag eður sjaldnar, því þar er ávalt að óttast slím og óhreinindi í maganum; í nýkominni stýflu innýblanna, og ef hann hefir gleypt í sig eiturqvikindi, eður slíkt er á einhvern hátt komið í magann, og svo frv.

## §. 292.

Til eru að vísu mörg tilfelli og kríngumstæður, sem banna að gésa þvílík meðöl inn, en þó einkum þar, sem

sjúkdómurinn kémur af kraptaleysi eda lemegni líkamans; sé líkaminn mjøg þurr eda hvítur í einhverjum sérlegum sóttar-sjúkdómi, hverjum ad fylgir innvortis bólga; allar magnadar innýblanna stýflur, edur hardar bólgur; blódlát, og þá náttúran er ad úthreinsa efni einhvers sjúkd-ms á annann hátt, §. 124, þá ega hverki uppsølu medøl né heldur búkhreinsandi ad brúkast, og sérílagi er þad ad segja um uppsølu medøl: þau ega ecki ad géfast brjóstveikum; ecki þeim er spýta blódi; ecki mjøg blódríkum, né høfudveikum á undan blódtøku; ecki þeim, sem hætt er vid nasablódi; ecki qvidslitnum, né þúngudum konum; ecki þeim, er sígur til baks eda qvidar.

## §. 293.

Þad eg ádur sagdi, §. 289, um búkhreinsandi medøl, hefir hér og stad. Þad er ætíd betra, ad lífid hafi med stólpípu verid hreinsud frá þeim grófu og hørdu saurindum, ádur enn uppsølu medøl eru inntekin, og þá er ætíd óhættara ad brúka þau. Séu uppsølu og búkhreinsandi medal ílla eda ofopt brúkad, hafa þau hér um bil sømu verkun, sem blódtøkur, þau skémma magann og gjøra innýblin máttlitil.

## §. 294.

Þau bestu og óhultustu uppsølu medøl, eru þau sømu, sem svo opt er umtalad hér ad framan, nefnilega: Uppsølu Vínsteinn og Uppsølu-rót, um hver hér ecki framar tala þarf a). Þeir uppsølu medøl tekid hafa, ega ecki ad drecka, fyrr enn þeir fyrst finna til velgju, og þá ysirsljótanlegt volgt vatn, og sídan milli hvers uppkasts, hvad eptir annad, þar med gengur uppsølan létt og maginn hreinsast einka vel; annars skédur hvergi. Eptirá ber ad eta léttann mat, þunnann og holl-

ann, sem vel meltist í maganum, volgann, en ecki kaldann, sem ætti ad gjørast nockra daga í røð. Ádur enn uppsölu og búkhreinsandi medøl tekin eru, ætti og ad eta þvílíkann mat 1 eda 2 daga, en aldrei mikinn í senn, þess betri verda notin af medølunum á eptir*). Samanvid uppsølu-rótina má blanda einhverri salt-tegund; þad er og gott ad taka inn 2 eda 3 fullar theeskeidar af Vínsteins-rjóma daginn ádur enn uppsølu eda búkhreinsandi medøl eru inntekin. Af fylgjandi búkhreinsandi medølum má útvelja hvert sem vill, No. 3, 4, 11 eda 27 í Recepta-listanum**). Af hér greindum skømtum af hverju fyri sig, er eginlega No. 11 fyri fullordna og fullhrausta menn, en hinir fyrir únga edur óhrousta.

a) Af Uppsølu Vínsteini gefast 6 grøn***) fullordnum, og af Uppsølu-rót einúngis, má taka 35 til 40 grøn.

---

*) Ad þvílík medøl takast á tómann maga ad morgni, munu allir vita. Medal margra þægilegra og hægtverkandi búkhreinsunar medala, sem í bók þessari má finna, af Rhabarbara-rót, Sennesblødum, Mannasykri, Ricinus-olíu og fl., mætti nefna þad alkénnda Wienniska Laxér-vatn, en þar þad ecki, síst á sumardag og lángt frá Apóthekinu, er gott ad geyma, er þeim hægt, sem vilja og tilfæríngar hafa, ad búa þad til heima hjá sér, hella sjóðanda vatni, svosem theekoppi á hálft lód af Sennesblødum í spølkommu, leggja yfir lok og láta kólna, sía vatnid þá frá gégnum lérept og láta renna í því 1 spón af hráu Hunángi edur Mannasykri uppleystu í sjódanda vatni; þetta er fullgódur Laxérdryckur í einu. P.

**) Peir, sem bágt ega med ad taka inn púlver, géta brúkad Laxérsaftina No. 3, og tekid 2 theeskeidar í einu edur meir, eptir matmáls tímabil, uns þeim þykir nóg verka. Þeim, sem trúa á Wiens Laxérvatn, vísast til Sennesbl. theisins §. 166, edur nærst undanfarandi skíríngar-grein. P.

***) Pad er óhætt, med því móti, ad þessi 6 grøn séu látin

## §. 295.

Land vort er til vissu audugra af laxérandi medølum, enn almenníngur ímindar sér, og væri þess óskandi ad landsfólkid vildi hagnýta sér þau medøl Gud hefir gefid landinu, allstadar þar þau til ná. Medal þessara tel eg Fjallagrøsin, sem sjá er §§. 69 og 95; þau krøptugustu hafa þau stóru fleckóttu reynst mér, sem eru hvad rømmust, og allrabest séu þau tekin snemma á vorum nýkomin undan snjó. Þegar þau skulu brúkast, sem búkhreinsandi medøl, eru þau réttilega tilbúin og medhøndlud, sem segir í §. 69. Þeim er þau vyrdast oflin, er best ad taka í stad almenns salts, engelskt eda Seidlitzer salt, sem nefnd eru §. 95. — Ecki má sjóda Fjallagrøsin, því þá missa þau sinn laxérandi krapt, en vatnid á sjódanda yfir þau ad hellast og saltid í því ádur ad vera runnid, eda vera saman vid grøsin þegar á er hellt, því þad dregur best krapt úr þeim. Hunángid er fleirstum ómissandi, því annars er sá dryckur hardur adgaungu; fullur hnefi grasa hefir mér ætíd reynst nóg. Hrísi þau ecki einusinni, má brúka þau optar. Kræda og þær smærri artir, hafa ecki þenna krapt svo eg viti. Þetta Extractum, er eg svo kalla, smátt og opt druckid, annadhvert sem theevatn, edur á sagdann hátt, þó nockud linara, hefir mér vyrdst einkar hollt módursjúku eda hysterisku qvennfólki; þad eykur hægt alla edlilega afrás og styrkir magann. Í blódgángi og búkhláupi er Grasa-seydid §. 54 mikid krøptugt, þegar líkaminn er rétt undirbúinn, svo og í

renna í 1 pela af vatni, helzt í volgu, drecki helfíng í einu, sem fleirstum nægir, ef ecki, þá bæti á sig 2ur spónum í senn, þángad til verkar. No. 34, sem er fleirstum fullsterk inntaka, tekid strax og búid er til. Púlverid No. 35., er og fleirstum fullordnum nóg. P.

þeirri brjóstveiki, er børn fá eptir bólu- og flekusótt, í hverri þau uppþorna og missa allt fjør og hold, hefir eg sjed það duga, þegar Kína-børkur ávann eckért. Fjøru-grøsin eru og ágætt búkhreinsandi medal og sumum jafnsterk, sem hin, af því þau, lítið afvøtnuð, hafa sjálf salt í sér, er því ecki annars þørf enn Hunángsins til að sæta þau. Eitthvert hollasta medal eru þau í Vatnssýki, því þau draga furdu mikið vatn af phlegmatiskú qvapholda fólki og gjøra það magurt; ecki mínkar kraptur grasa þessara þótt geymd séu. Seydi af Heimilis-njóla-rótum og Fálka-púngi laxéra, þegar lengi brúkast, hið sídara jafnbetur; ætíð þá, er sjódast egu urtir þessar, skal láta salt í pottinn ásamt, en hunángið ecki fyrr enn inn er tekið. Njóla-ræturnar takist øndverdlega vors edur um haust, §. 244 nót., ádur staungin vex til muna, edur er afvisnuð; hreinsa skal þær vel, skéra í þunnar flísir og hengja í vind til þurks, má þá geyma þær árlángt. Fálka-púnginn skal taka ádur blómstrin útspryngja, nema heldur sé valið fræið, sem situr innan í fræpúngunum, á haustin í Augúst mánudi, svart að lit, þá er takast skal, en ecki á medan grænleitt er. (Samanb. §. 157, nót., og um innsøfnunar tíma urta, §§. 218, 236 og 244.)

## §. 296.

Fyrir utan umgétnar urtir, vex hér á landi, einkum sunnanfram, góð læknis-urt, hver og er laxérandi, nl.: Augnarót (valeriana officinalis*); á henni eru 3 hann-staunglar (stamina) og 1 hún-staungull (pistil-

*) Hennar eginlegasta nafn er Baldrian-urt. P.

lum); blómkrónan (corolla) einblødud, hvít ad lit med 5 skorum ofan í bladid, nidurmjó og bogin ad nedan; leggblødin eru øll smáslibbud utan á jødrunum; leggurinn mjøg hár, rótin fíngur þyck og ad utan blábrún, ad innan meir hvítgrá; mergholid døckleitt; einkum ný, hefir hún skarpann, sterkt gégnumþreyngjandi og vidbjódslegann ódaun sér fylgjandi. Hún styrkir líkamann, eykur svita, bleytir og eykur saurindin, er gód í augna- og høfud-verki, mædi og þýngslum fyri brjósti, svo og í mørgum sina-sjúkdómum. Vøkvi úr henni nýrri preszadur eda vín á hana sett, er talid medal mót starblindu. Af rótinni, mulinni í dupt, má géfa 20 til 40 grøn, af víninu 1 lód; hún vex vída undir Eyafjøllum, í innanverdri Fljótshlýd, í Mýrdal og miklu vídar, einkum nálægt fjárbólum og kléttaskútum.

## §. 297.

Optsinnis géta menn verid án uppsølu og búkhreinsandi medala, þótt þeir annars hafi þeirra þørf; dragi þeir einúngis vid sig nockrar máltídir matar um tíma, eti eckért á qvøldum, en drecki drjúgt af køldu vatni og ervidi daglega á faralds-fæti. Hóf og máti í mat og dryck vardveitir heilsuna krøptuglega, og þeir, sem venja sig á gott og þénanlegt matarhæfi, umslýa marga þúnga og skadvæna sjúkdóma.

# VII. Kapítuli.

## Um Klyster eda Stólpípur.

### §. 298.

Svo opt er hér ad framan um Klyster eda Stólpípu gétid, ad skyldt mun þyckja ad minnast á þad med einu ordi, þó þetta nytsama medal brúki allt of fáir landa minna, eins og ber, en þótt dæmin séu degi ljósari, ad mørgum hafi þad medal hjálpad, einkum sídan vor mildi Fridrík konúngur V. sendi oss híngad nafnfrægann Landlæknir, og høfum sídan ødlast duglega Eptirmenn.

Klyster eda Stólpípa er verkfæri eitt, med hverju spýtt verdur inn um þarfagánginn þeim þunnum og fljótandi hlutum, sem vill, hvert juck eginlega heitir Klystera). Þessir fljótandi hlutir, eda Klysterid sjálft, eru einkum þrennslags: a) bleytandi og hægjandi Klyster, b) bleytandi skarpt Klyster, og c) þurr Klyster.

a) Náqvæmari útmálun þessa medals, er ad finna í Buchwalds Yfirsetu-qvenna Skóla, 12ta Kap., og ecki sídur í Vidbætirnum aptan vid Saxtorphs íslendskudu Yfirsetu-qvenna frædi af Laudph. J. Sveinssyni.

### §. 299.

Bleytandi og hægjandi Klyster er þannig tilbúid, ad taka skal 1 mørk vatns, sjóda þarí annadhvert bleytandi urtir, ellegar þær, sem græda sár og styrkja; medal hinna fyrri má telja Lyfjagras og Lifrarurt; hin sídari, Vallhumall, Grájurt, Ljónslappi, Maríu-stakkur og fl. Þegar urtirnar hafa sodid um stund, síast þær frá og blandast vid seydid

4 eda 5 spænir af bræddu smjöri, olíu edur ødru þessháttar. Þessi vøkvi er mátalega volgur, ef madur þolir hitann af blødrunni, sem hann er látinn í, á apturluktu auga. Þad skarpa og bleytandi Klyster er, sem hitt, af vatni tilbúid og hérum matskeid salts þarí uppleystri, stundum med nockurri, stundum engri fitu. Hid þurra Klyster er gjørt af tóbaks edur annara urta reyk.

## §. 300.

Þad bleytandi og hægjandi Klyster þynnir og hreinsar saurindin úr innýblunum, temprar offsalta vetsa þeirra a), hreinsar sár þeirra innvortis og ver þeim; vídkar og mýkir innýblin med því, ad leida þángad vetsa; linar mørgum innvortis verkjum og qveisu-flogum.

a) Salt er ecki ætíd brúkad og má á stundum ecki, en svenavolg mjólk, mysa, þunn kjøtsúpa, eda grjónaseydi er opt brúkad og er gott.

## §. 301.

Þad skarpa Klyster bleytir saurindin, uppleysir og útfærir innýblanna slím, en bædi þad og líka hid þurra Klyster gjørir drætti í innýblunum svo mikla, ad þar med gétur hreinsast á burt hvad helzt, sem er nedarlega í þørmunum, hvert heldur þad eru vindar, hørd saurindi eda slím.

## §. 302.

Þad fyrstnefnda Klyster á ad brúka, þegar saurindin eru svo hørd, ad vallgángurinn er tregur edur varla møgulegur; hafi hinn sjúki magaverk, og í einu ordi ad segja, í allskonar bólgu og stýflu innýblanna, móti nýrna- og blødru-steini, til ad lina þeim harmqvælum,

sem þar med fylgja; líka svo þegar blódlát qvenna stemmast, §. 92.

## §. 303.

Hinn skarpari Klyster á ad brúka, þegar saurindin eru svo ofurhörd, ad madur varla edur ecki gétur ordid vidskila vid þau, nema med svofelldu móti, ad þar med fylgi bólga í hinum nedri edur þycku þörmum. Þeir brúkast og þegar ofur mikid slím er í innýblunum, sem til-lykur þá náttúrlegu gángvegu. Séu innýblin af vindum útþanin og saurindanna gángvegir slími þaktir, þá eru þau 2 sídari Klyster helzt brúkud. Ad sídustu eru klysterin brúkud allstadar, hvar lífsandanna hræríng linast eda hættir, svo sem í Svefnsótt (Lethargus), Slagflódi, og líka svo til ad flýta fædíngu.

## §. 304.

Fyrstnefnda Klysterid má brúka nærstum í øllum innvortis tilfellum, nema í innýblanna kraptleysi og þá náttúran er ad úthreinsa einhvern sjúkdóm. Hin skørpu Klyster mega ecki brúkast þar, sem skarpir vetsar eru í innýblunum, ecki heldur ef þar er hørd bólga, og hverki vid þá blædandi né stemmdu gyllini æd.

## §. 305.

Øllum mønnum, bædi úngum og gømlum má klyster setja; þó sjaldan úngbørnum eda háøldrudu fólki; hann, sem Klysterid er sett, skál liggja kyrr, uns þad verkar. Optlega verdur sumum ad setja fleiri enn eitt Klyster, ef verka skal.

# VIII. Kapítuli.

## Um Spansflugur, Sóley, Hánka og Baun.

### §. 306.

Til að draga vonda vetsa út af mannlegum líkama, koma þeim ofþykku til að renna, en auka styrk ablvana orðinna kjötþráða og sina-tauga, brúka Læknarar Spansflugur, Sóley, Hánka og Baun. Spansflugur má brúka við sérhvern mann, nema þá, í hvers þvaggángi þær orsaka skérandi verki og brennandi tilfinníngu; ekki má heldur sitja þær á vatnssjúka menn.

### §. 307.

Spansflugur eiga að brúkast í øllum þeim tilfellum, hvar vetsarnir eru ofskarpir, ofþykkir og lítið eður ekkért fljótandi, hvert heldur það er á einum eður fleirum líkamans pørtum; þær brúkast því í øllum hørðum sóttar-sjúkdómum, hverjum óráð og høfuðverkur fylgir; í allmørgum tilfellum augnanna; í nýkominni qverkabólgu, taki, bakverk, mjaðmaverk og tannpínu.

### §. 308.

Ef sá Spánsflugna-plástur, sem á Apóthekum er tilbúinn, brúkast, þarf ekki annað enn hnoða hann millum handa sinna, 'uns hann blotnar, strjúka hann síðan í lérept, nockuð þykkra enn almennilega gjort er. En séu eintómar Spansflugur keyptar í øðru lagi og plásturinn sér, er gulur varplástur hinn óðýrasti, og getur øllu vel þénað, þó er Melilot-plástur enn þægilegri, sem fyrst sé dregið nockuð þykkt í lérept, þar ofaná sé sáð Spansflugna duptinu, og þjappað inn í plásturinn með

bladbreidum hnífi*), þar eptir sé þad vøkvad med ediki eda sýru. Stadur sá, hvar á plásturinn skal setjast, sé núinn med klædi uns rodna fer, og rakadur ef hærdur er, sídan leggist plásturinn yfir og bindist fastur. Undir bandid sé lagdur ofaná plásturinn ferfaldur klútur af lérepti til enn meiri stadfestu. Þegar bladran er uppkomin, opnist hún med skærum, svo vatnid renni burt, en leggja skal hófblødkur, kál- eda njóla-blød ofan á sleidrid, ellegar vax-lérept eda hvad annad, sem dregur út vetza og grædir, þá tími er til**). Ðrkumsli þessu má halda opnu, ef vill, jafnvel í 20 daga; láti tilfellin seint undan, vid hverjum þetta medal var brúkad, verdur ad sá Spansflugna púlveri í plásturinn á hverjum degi þá um er vitjad, og plásturinn ad endurnýast hvern dag.***)

## §. 309.

Þeir, sem brúka vilja Sóleyu (Ranunculus acris), taki blómsturblodin gulu einúngis, þurki þau lítid, og hnodi sídan edur steyti, og kreysti sídan nockud úr af vetzanum, gjøri þar af deig, svo stórt, sem þurfa þykir,

*) Í plásturs stad má og brúka deig af fínmoludu rúgmjøli; Spansflugur megu liggja vid til úr er allur svidi, taka svo frá og bída til bladran þýtur vel upp, ádur hún er spreyngd. Varast skal ad kuldi komi ad flugna edur Sóleyar-sárum, allra sízt á holinu edur høfdinu. P.

**) Vid lángvarandi verkjum reynist opt sá máti bestur, ad hleypa ad eins út úr blødrunni um litla rysu, leggja vid þurrt lérept, medan þad dregur í sig, en láta gróa svo fljótt vill, og brenna aptur og aptur, hvad eptir ad vel er heilgróid hørundid. P.

***) Ellegar brúka nú tídkad Spanskflugu Salve (ungv. cantharidum) No. 29, í plásturs stad á eptir brennsluna, draga hvern dag í klút og leggja vid sleidrid, edur og sjálfann Spansflugna-plásturinn, sem þá svídur ecki meira enn hverr annar plástur, en dregur svikalaust. P.

og leggi svo vid þar, sem bladran skal koma*); nockrir hafa hér saman vid lítid af nýu smjøri. Sóleyan er allteins góð og Spansflugurnar, og hafa þjódverskir haldid hana krøptuga í hørdum sjúkdómum, var því brúkun hennar lengi hjá þeim haldin heimugleg og brúkud sem leyndardómur, hvers nytsemi enginn mátti vita.

§. 310.

Sé hverki komin tøluverd bólga né grøftur í liminn, má ósekju leggja þetta hvert um síg, þó helzt plásturinn, yfir verkinn. Opt er þad gott, ad taka þyckt klædi, vinda snøggast upp úr volgu vatni, og leggja þad heitt yfir plásturinn og liminn, hvad eptir annad, þad þynnir vetzana, dreifir bólgunni og hjálpar heilmikid til, ad plásturinn verki krøptugar, einkum hvar vetzarnir eru mjøg seigir. Betra er, ad plásturinn sé ecki settur á hinn veika stád sjálfann, heldur honum nálægann, t. d. í lángsømum høfudverki af ofmiklum vøkum, órádi og augna-sjúkdómum, þá er útvalin hnackagrófin eda utanverdir upphandleggir. Í skyndilega uppáføllnu máttleysi, er brennt á hnackanum, hverslinum edur framanverdu høfdinu. Opt eru Spánsflugur settur á kálfana, einkum í allskonar sótta-sjúkdómum, hverjum fylgja hofud-órar.

§. 311.

Hánki er und, sem med kunnst er gjørd á hørund

*) Almennt má og er brúkad ad taka Sóleyar-blómblødin gulu í sólskini, leggja ómurin vid, svo, ad þad, sem á þeim veit upp, snúi ad hørundinu. Opt vill mjøg bólgna, þegar Sóley er lengi vid; alvenja er, ad láta hana ecki liggja lengur enn þángad til svldi byrjar og farid er ad rodna undir henni, og leggja þar vid Høfblødku, til ad draga blødruna upp; en aldrei má leggja hana ofaní fleidrid, eins og Spansflugurnar. P.

manns, ecki dýpri, enn ad nái vel svo inn úr skinninu, med Lur gøtum út úr hørundinu, en einum gángveg undir, gégnum hvern dregin er silki=snúra edur vextur tvinni, ad utanverdu samanknýttur. Fyrir Bauninа er gjørd ben svo djúp og stór, ad þarí rúmist ein baun eda Erta; ben þessi ætti aldrei ad gjørast med járni, heldur ødru etandi medali, því þaraf vilja nálægir partar líkamans bólgna og vægja tvøfaldt betur og draga meiri vetza ad sárinu, enn annars.

## §. 312.

Eins og þau blødrugjørandi medøl eru optlega brúkud í hørdum sjúkdómum, svo eru og þessi tídum hentug í þrálátum og lángvarandi qvillum, einkum høfudverki, svima, svefnsóttar, tilfellum og sótasárum. Séu sár þessi med jafnadi verkjamikil og ætíd þurr; hafi sjúklíngur umbreytt líferniѕ=háttum sínum, eda sé øldúngis heilbrygdur vordinn, þá má græda undir þessar. Sé þetta ecki, þá er betra og óhultara ad bera þær til grafarinnar. Egi þá und ad græda, í hverri Hánki hefir brúkadur verid, má draga hann úr, en setja baun í annad gatid, hreinsa líkamann med búkhreinsandi medølum, og brúka þaradauki svita og þvagdrífandi medøl. Þeir, sem sjálfir vita ad gjøra sér baunir af vextu línskesi, sára, og — jafnvel þegar lítid vill grafa — Spansflugna=plástri, en ecki brúka Ertir, gjøri þær smámsaman minni, ádur enn græda skal; hinir velji sídast þær minnstu Ertir, sem fást kunna.

# IX. Kapítuli.

## Um hvernig Sjúkdómi skal lýsa fyrir fráverandi Læknir.

### §. 313.

Hvert heldur sendt er bréf eda skildabod til Læknis um rád vid sjúkdómi einhverjum, verdur greinilega ad lýsa øllum sjúkdómsins kríngumstædum, einkum skal ætíd lýsa:

a) Vid alla sjúka yfir høfud.

Hversu gamall sá veiki sé? Hversu lengi veikur verid? Hvernig sjúkdómurinn hafi byrjad? Hvernig sídan framhaldid? Hvert aukist eda umbreyttst? Hvernig líkamans náttúrlegu hreinsunum sé varid, bædi til baks og qvidar? Hvernig ædin slái? Hvernig túngan sé útlits? Hvert óbragd í munni? Þorsti mikill? Hvernig matarlyst? Hvernig tilfinníng hita og kølda? Hvert hinn veiki svitni, geti sofid? Hvernig heilsa hans hafi ádur verid? Hvert líferni hans ádur? Hvert nockur sérleg orsøk vitist til sjúkdómsins? Hvert nockur medøl, blódtøkur eda adrar tilraunir hafi brúkadar verid? Hverja verkun hvad fyri sig hefir haft? Hvernig blódid hafi verid útlits? (med gul-leitri skán ofaná þegar kólnadi, edur ecki?) Auk þessa skal lýsa sjálfri sjúkdóms tilfinníngunni, svo og hversu þúnglega sá veiki sé haldinn? Hvert hann gétur setid uppi? Hvernig hann þolir best ad vera, liggja, sitja, og sv. frv.? Hvert hann sé allt af jafn-þúngt haldinn, edur lakari med koblum? Hvert þad sé reglulega sama tíma dags?

## §. 314.

### b) Ef sá veiki er qvennpersóna.

Þá þarf, auk þess áðurtalda, að vita sérílagi: Hvert hún sé ólétt? Hvert hún hafi barn á brjósti? Hvert hún hafi ecki barn átt? Hafi hún nýlega barn átt, þá, hvernig það hafi gengið og hvernig henni hafi heilsast á eptir? Hvert hún hafi haft regluleg klæðaføll? Hvert hún hafi haft þau hvítu klæðafoll? Hvert hún sé blóðrík eða føl-leit í útliti?

## §. 315.

### c) Ef sá veiki er ómálga barn.

Hér verður lýsíngin vandasømust. Einkum skal skíra frá barnsins aldri; hvert það hafi tønnur fengið? Hvert þá verið veikt? Hvert saurindi þess hafi hreinsast vel í fyrstu? Hvert það hafi harðlífi? Hversu opt vanalegar hægðir í sólar-hríng? Hvernig saur þess sé litur? Hvert hann lukti illa? Hvert barnið liggi á brjósti? Hvert það kasti mjólkinni opt upp? Hvernig það uppkastaða sé útlits? Hvert grænleitt, yst, lukti súrt, og svo frv.? Hvert það hafi hvítar bólur í munni? Óhægð fyrir brjósti? Velgju, hósta eða ropa mikla? Hvert það hafi áður óspakt verið? Hvert það hafi eður hafi haft útslátt nockurn um kroppinn eða hørunds-svida? Hvert það sé þrifalega meðhøndlað? Hvert það kreppi sig mikið eða fettist apturábak? Hvert það stíngi fíngrunum í munninn? Hvert það muni qviðslitið? Hvert það dragi létt andann? Hvert brjóstið gángi mjøg út og inn við andardráttinn? Hvert það kippist opt við eða fái flog? Hvert ormar hafi frá því gengið? Hvert lífið sé mjog harðt, allt, eða mest í vinstri síðu? Hvert

þad hafi hrygglu fyrir brjósti? Hor mikinn í nøsum? Hvert þad fái andarteppu køst?

§. 316.

Sé frá øllu þessu náqvæmlega skírt, einkum um børnin, er þess ad vænta, ad hverr einn, sem Embættismadur tilsettur Læknir, muni þeckja sjúkdóminn? Annars þarf ecki í hverju bréfi eda rádfæríngu, ad svara øllum þessum Spurníngum, heldur einúngis þeim, er vidkoma þeim umspurda sjúkdómi í hvert sinn.

§. 317.

Fleirstum Læknirum hefir vyrdst þad torveldt, ad dæma rétt um mjøg margbreytta og samanfléttada sjúkdóma, enn þótt sjálfir þeir hafi staddir verid hjá þeim sjúka; en hversu miklu ørdugra mun þá ecki fyri fráveranda Læknir, ad þeckja, jafnvel nockurnveginn einfaldann sjúkdóm, máské eptir ófullkominni, ef ecki rángri lýsíngu hans; heitir þá strax, ef medølin ecki hrífa, ad Læknir sá sé ónýtur; því hugqvæmdist mér, ad setja framanskrifadar spurníngar, þeim til leidarvísirs, er leita ráda og medala til hjálpar sér eda sínum hjá æfdum Læknir.

---

# X. Kapituli.

## Um Læknisdóma Mælira og Vigt.

§. 318.

Hér ad framan eru nockur, fleirstum af alþýdu ókénnd ord, er heyra til mælirum og vigt á Apótheks vørum,

hver mér vyrdist hér naudsynligt framar ad útskíra til betri skilníngs fyrir almenníng.

§. 319.

Í pundi hjá oss eru almennilega 2 merkur; í hverri mørk eru 16 Lód, er því 1 pund 32 Lód eda 16 Unzíur, því hver Unzia heldur 2 lód. Í 2ur lódum edur Unzíu eru 8 qvintín eda Drøkmur; í 1 qvintíni eru 3 Skrúplar, og í hverjum Skrúpul eru 20 grøn; en 1 gran er 1 piparbers eda byggkorns þúngi. 1 Lód edur hálf Unzia, inniheldur 4 qvintín eda Drøkmur; hálft qvintín edur hálft Drakma er 30 grøn, eda $1\frac{1}{2}$ Skrúpull; hálfur Skrúpull inniheldur 10 grøn eda piparberja-þúnga. Hvar eg í Bæklíngi þessum hefi nefnt Pund, meina eg ætíd med því 2 merkur vegnar eda 32 lód.

Bædi hér á landi og annarsstadar, er einum potti mældum skipt i 2 merkur; hver mørk heldur 2 hálfmerkur eda pela; í 1 pela edur hálfmørk eru 8 Unzíur eda 16 lód, og í 1 potti 32 Unzíur eda 64 lód, og þvílíkann pott meina eg allstadar í bókinni.

Medalmáta theekoppur reiknast almennt fyrir 3 Unzíur eda 6 lód, en matskeidin reiknast ad vera hérum hálf Unzia edur 1 lód; sá litli mismunur sem kann ad vera á einni eda annari skeid eda matspæni, gjørir víst ecki stórt til sakar, því þau ein medøl mælast í matskeidum, ad eingu munar hvert fáum dropum er minna edur meira. Allt hid sama er ad segja um theeskeidar, sem reiknast fyrir 30 dropa, en nú á tímum allt ad 40.

§. 320.

Þeir, sem vildu koma sér upp litlu Hús-Apótheki, ættu framar øllu ad útvega sér metaskálar og þat til

heyrandi Apóthekara lód. Vissara er ad bestilla hverr-tveggja hjá útlendskum; en þó eru hér svo margir hag-leiks menn, ad smídad gætu bædi skálar og lód eptir ødru. Betra er ad hafa tvennar skálir, þær stærri fyrir urtir og annad, er mikid fer fyrir, 4 eda 5 þuml. í þvermáls vídd ad ofan, adrar minni $1\frac{1}{2}$ þuml. víd-ar; Lód, Drokmur og Skruplar egu ad vera af kopar, svo ecki léttist vid aldur og brúkun, en granvigtin af blik-látúni, og allt sem næmast og netiast. Mælíngar glas fyri løg, til 2gja lóda, ættu þeir og ad bestilla, og jafnvel medal-máta kopar-mortjel, hvert þó verdur vandlega ad hreinsa hvert sinn brúkast, og vardveita frá þeirri rameitrudu Spansgrænu. Stólpípur géta margir smídad af tini eda blýi, eru þær nockud digru engu sárari, en þær af beini, hverjar fá verdur hjá útlendskum. Elldhelda leirpotta þyrfti líka ad fá, samt má brúka stórar Apótheks-kruckur til ad sjóda í urta samsudur þær, er bókin nefnir, en samt má gæta þess ad hita þær seint og spart í nærstum útkulnadri glód, ádur ad elldi eru settar, því hætt er þeim vid ad sprýnga ef brádhítadar eru velfleirstar.

# Adal-Registur

eptir §. tølu.

## A.



## B.

## F.



## G.

## H.

# J.



# K.

## L.

## M.

## N.



## O.

## P.



## Q.

## R.



## S.

## T.

## U.



## V.

---

# Registur

## innlendra urta, sem í Bókinni eru nefndar, med þeirra bótanísku nøfnum.

Arfi, hauga, hladarfi, (Alcine media).
Augnarót, Baldrían, (Valeriana officinalis).
Baldursbrá, (Anthemis cotula, *Hornem.* Matricaria inodora. *Mohr.* Chrysanthem. inodor. annara).
Blódarfi, Fuglarfi, (Polygonum aviculare), sjá Hrísarfi.
Blódberg, Brúdberg, (Thymus Serpyllum).
Blódrót, Burne, Høfudrót, (Rhodiola rosea).
Brenninetla, Daufa-netla, Notrugras, (Urtica dioica *).

*) Urta-kénnarar hafa fundid 2 eda 3 urtir adrar sunnanlands, nefnilega: Lamium purpureum og 2 artir af Galeopsis, sem fólk hefir nefnt ýmist Notrur, ýmist Daufa-netlu, því þær hafa líka verkan Netlu í sólskini. P.

# Listi

yfir þau

## Recept

sem til er vísad í Bók þessari.

No. 1.
℞ Pulveris infantum cum Rheo. qvantum sat.
S. Barnapúlver.

No. 2.
℞ Magnesiæ albæ. qvantum sat.
S. Púlver móti Sýru í maganum.

No. 3.
℞ Syrupi e manna laxativi. ʒj
Pulveris Radicis Jalappæ. ʒj
S. Laxersaft handa Börnum. (Héraf takist hálf eda næstum full theeskeid í einu eptir aldri.)

No. 4.
℞ Olei ricini Americani. qvantum sat.
S. Orma-olía (af henni takist hálf, 1 eda allt ad 2ur matskeidum í einu, eptir aldri.)

No. 5.
℞ Pulveris Vermifugi Ph. Danicæ. qvantum sat.
S. Ormapúlver.

No. 6.
℞ Sacchari albi ℈w
Mercurii dulcis. ℈j
S. Púlver ámóti Strúbehóstanum, eptir sem Bókin til segir.

No. 7.
℞ Moschi Orientalis. gr. vj
Sacch. albi. ʒj
fiat pulvis divide in partes xjj æqvales.
S. Púlver ámóti Strúbehóstanum.

No. 8.
℞ Saponis Venetæ ʒj
Fellis tauri inspissati gr. x
pulveris radicis ari ʒβ
Misce fiat pillulæ pondere. gr. j
Consperge Pulvere Cinnamomi.
S. Rósensteens Barnapillur.

No. 9.
℞ Extracti aloes gummosi. ℥j
Extracti Phauchymagogi. ℥β
Limaturæ Martis purissimæ fiant pillulæ. ʒjj
S. Stalhs Járnlaxerpillur.

No. 10.
℞ Limaturæ Martis ʒj
Divide in v partes æqvales.
S. 1 Púlver takist Qvøld og morgna.

No. 11.
℞ Pulvis Jalappæ. ʒj
Mercurii Dulcis. gr. vj
S. Petta er sidvanalig Laxerportión fyrir flesta menn.

No. 12.
℞ Pulveris refrigerantis qvantum sufficit.
S. Kjælandi Pulver, af því takist 1 theeskeid 3var sinnum dagliga.

No. 13.
℞ Spiritus Vitrioli qvantum sufficit
S. Blódstillandi Dropar (60 til 80 takist í einu í theekopp af køldu vatni.)

No. 14.
℞ Tartari emetici.
opii optimi āā gr. jjj
Gummi Tragacanth. gr. x
Mellis rosati qvant. sufficit
fiant pillulæ. Num. 50
S. Hóstapillur.

No. 15.
℞ Pillulæ resolvent. Pharmacopeæ Danicæ 1806. ℥j
Extracti aloes aqvosi. ʒjj
Misce fiant pillulæ pondere granorum jjj
S. Opnandi Sápupillur med alóe, 6 til 8 takist í einu.

No. 16.
℞ Olei terebinthinæ. qvantum suff.
S. Therbinthin-olía.

No. 17.
℞ Limaturæ Martis. ℥j
pulveris Cinnamomi. ℈jj
aloes succotrinæ. ʒj
Syrupus sacchari qvantum sufficit et fiant pillulæ pondere gr. jjj
S. Járnpillur med alóe.

No. 18.
℞ Limaturæ Martis ʒjj
Cinnamomi optimi contusi. ʒvj
Vini rhenani Mensuram. j
Digere per triduum et filtra.
S. Stálvín.

No. 19.
℞ Florum Sulphuris ℥jβ
Cremoris Tartari ℥β

S. Pulver vid kláda, 1 thee-skeid takist í einu 3var sinnum dagliga.

No. 20.

℞ Florum Sulphuris
saponis mollis āā ℥iv
axungiæ porci ℥viij
S. Kládasalve.

No. 21.

℞ Theæ amaræ.
qvantum vis
S. Bittert eda blódhreinsandi thee.

No. 22.

℞ Ungventi contra pediculos pharmacopeæ Danicæ 1771. qvant. vis
S. Lúsasalve.

No. 23.

℞ Emplastri Gummosi
Emplastri Melilothi āā
℥iij
Pulveris Camphoræ
℥ij
Misce fiat Emplastrum.
S. Dreifandi plástur.

No. 24.

℞ Linimenti Volatilis Camphorati. qvant. vis
S. Dreifandi áburdur.

No. 25.

℞ Tincturæ rhei aqvosæ
solutionis Tartari tartarisati āā partes æqvales
S. Uppleisandi dropar.

No. 26.

℞ aceti saturnini olei olivarum āā partes æqvales
S. Salve vid Bruna (Brunasalve.)

No. 27.

℞ Salis anglicani.
qvantum vis
S. 1 matskeid uppleisist í heitu vatni handa veikbigdum.

No. 28.

℞ Emplastri Vesicatorii ordinarii.
qvantum sufficit
S. Spansflugnaplástur.

No. 29.

℞ Ungventi cantharidum
Pharmacopeæ Nosocomii Fridriciani.
S. Dragsalve.

No. 30.

℞ Emplastri Diacylon.
Compositi.
qvantum sufficit
S. Dreifandi og grædandi plástur.

Samhljóda manuscriptets Receptlista — vitnar
Ness Apoth. 28da Febr. 1829.

T. Thorsteinsen,
Landphysicus.

# Prentvillur.

| Blads. | línu | |
|---|---|---|
| 10 | 23 | af les: ad |
| — 16 | — 9 | hirla l. hirta |
| — 22 | — 11 | misjafnt l. misjafn |
| — 25 | — 14 | almørgum l. allmørgum |
| — 26 | — 19 | saurindum l. sárindum |
| — 30 | — 25 | hvítar l. hvítur |
| — 47 | — 25 | óhullustu l. óhollustu |
| — 49 | — 28 | kynsins l. mannkynsins |
| — 55 | — 25 | nidrum l. nidrun |
| — — | — 32 | lát l. láta |
| — 60 | — 26—27 | Fhymas l. Thymus |
| — 63 | — 24 | bvøld l. qvøld |
| — 69 | — 23 | eldri l. eltri |
| — 70 | — 5 | maculata l. maculati |
| — 72 | — 3 | vill l. vil |
| — 75 | — 10 | kríhvitar l. kríthvitar |
| — 79 | — 10—11 | hæmorrdes l. hæmorrhoides |
| — — | — 23 | tau l. þau |
| — 94 | — 28 | køjt l. kjøt |
| — 111 | — 31 | sturk l. slurk |
| — 112 | — 33 | spanamvti l. spónamati |
| — 113 | — 16 | hollustu l. hollusta |
| — 114 | — 8—9 | náttúru l. náttúra |
| — 118 | — 12 | sangvisera l. sangvifera |
| — 122 | — 33 | høndur l. høndum |
| — 123 | — 16 | sjófgast l. sljófgast |
| — 127 | — 28 | vell l. vel |
| — 130 | — 27 | eus l. ens |
| — 136 | — 6 | gløð l. glóð |
| — 139 | — 15—16 | samanþyckir l. samanþryckir |
| — 145 | — 15 | venedriskri l. venediskri |
| — 149 | — 12 | rekju l. rekja |
| — 153 | — 9 | føllsodid l. fullsodid |
| — 156 | — 8 | meslan l. mestan |
| — 157 | — 10 | fleira l. fleiri |
| — 160 | — 19 | børt l. burt |
| — 164 | — 3 | umfedníngsgras l. umfedmíngsgras |
| — 197 | — 35 | absin l. ablsin |
| — 218 | — 5 | skildabod l. skilabod |
| — 239 | — 36 | ariir l. artir |

Smávegis prentvillur er traudliga fá misskilníngi ollad, en hér kynni ókaldar vera bidur útgéfariun gódfúsa menn ad lesa í málid.

